# FORNMANNA SÖGUR,

## EPTIR GÖMLUM HANDRITUM

ÚTGEFNAR

AÐ TILHLUTUN HINS

NORRÆNA FORNFRÆÐA FÈLAGS.

Urðar orði
kveðr engi maðr.

*Fjölsvinnsmál.*

ÞRIÐJA BINDI.

Niðrlag sögu Ólafs konúngs Tryggvasonar
með tilheyrandi þáttum.

Kaupmannahøfn, 1827,
Prentaðar hjá *Harðvig Friðrek Popp.*



# SAGA ÓLAFS KONÚNGS TRYGGVASONAR.

EPTIR GÖMLUM SKINNBÓKUM

ÚTGEFIN

AÐ TILHLUTUN HINS

NORRÆNA FORNFRÆÐA FÈLAGS.

NIÐRLAG SÖGUNNAR

með tilheyrandi þáttum.

Kaupmannahöfn, 1827.

Prentuð hjá *Harðvig Friðrek Popp.*



# F o r m á l i.

Hèr legst nú fyrir almenníngs sjónir hið þriðja bindi *Fornmanna sagnanna*, eðr niðrlag sögu Olafs konúngs Tryggvasonar, ásamt tíu þáttum, er annaðtveggja heyra einmidt sjálfri sögunni til, eðr því tímarúmi, er sagan yfirgripr. Fleiri þættir, enn þeir er hèr eru prentaðir, finnast að sönnu í Flateyjarbók, viðriðnir við sögu Olafs konúngs Tryggvasonar, t. d. *Þáttr um Hèðin og Högna konúnga*, *Norna Gests* þáttr og *Fundinn Noregr*, hverjir líka finnast í þeirri útgáfu sögunnar, sem prentuð er í Skálholti árin 1689-90. Þessir þættir eru þessvegna ekki hèr prentaðir, að þeir heyra ekki eginlega til sögu Olafs konúngs Tryggvasonar; þareð þeir atburðir, er þeir fráskíra, eru miklu eldri enn þad tímabil, sem sögur Olafs konúngs og Haralds hárfagra yfirgrípa; líka virðast þeir að vera af öðrum toga spunnir, og, hvað frásagnar og atburða trúverðugleika snertir, miðr áreiðanligir, þar svo þykir, sem fornaldar trúar meiníngum sè blandað saman við sjálfa atburdina, er frá vordr sagt: færi því bezt að þættir þessir prentuðust útaf fyrir sig í safni sinna líka. Mörgum mun að líkindum þykja að nokkrir af þeim þáttum, er hèr finnast, sèu líkrar náttúru, og að frásagnarmátinn í þeim sè mjög ýkjufullr og ýmsir atburðir, er þeir innihalda, nærsta ótrúligir; og hafa þeir að vísu mikið til síns máls; en þó er það ljóst að þeir menn, er þessir þættir herma frá, hafa samtíða verið, þótt frá athöfnum þeirra og hreystiverkum sè öðruvísi sagt, enn frá líkra manna í sjálfri sögunni, hvað og berliga vottar, að slíkir viðburðir eru seinna í rit færðir enn sjálf saga Olafs konúngs, hverja að öllum líkindum, í tilliti til trúverðugleika, orðfæris og atburða vals, ugglaust má telja meðal enna elztu ritgjörða um konúng þenna á norræna túngu.

I formálanum fyrir 1sta bindinu höfum vèr gert grein fyrir þeim handritum, sem notuð hafa verið við sjálfrar sögunnar útgáfu frá upphafi til enda, og lýst þeirri skinnbók, merkt A, sem lögð hefir verið til grundvallar, svo hèr gerist engi þörf að ítreka það; þarvið er heldr engu að bæta, utan að það eina blað, sem vantaði í A., er tekið úr B., og nær sá kafli, sem tekinn er úr B. frá þeim orðum í 2ru bindi blaðs. 311 lín. 22: „þess getr Hallarsteinn" til blaðs. 319 lín. 9, hvar A byrjar aptr med þessum orðum: „þá flugu svá þykt' o. s. fr.

Hèr skal nú ýtárligar greina frá meðferð á þáttum þeim, sem hèr, eru prentaðir, og þeim handritum, sem við þeirra útgáfu hafa notuð verið. Er þá:

1) *Saga skálda Haralds konúngs hárfagra.* Af sögu þessari finnast 3 pappírs handrit í fornfræðasafni Arna Magnússonar, 2 í arkarformi Nr. 67, A. og B.; þær kallast því hèr A. og B. Báðar þessar bækr eru samhljóða. það 3ja handrit Nr. 307 er í 4blformi, og er í tilliti til einstakra orða frábrugðið, líka er fáeinum orðum úrslept, hvar eyður eru; þessi bók kallast C. Fyrsta blað sögunnar er prentað eptir Nr. 307, þvíat handrit þetta er leiðrètt eins lángt, og stórt audt rúm þar í með hendi Arna Magnússonar uppfyllt; hid annað er tekið úr 67, B.; en þegar lokið var prentun sögunnar eptir handritunum, er hèr greinir, fann Hra. Cand. phil. *þorsteinn Helgason* hana, í gömlum skinnbókar blöðum í Arna Magnússonar safninu Nr. 544. í 4bl. ritaða á kálfskinn. Bókfellið er á að líta mjög gamalt með smáu letri ok bundið, þykir ei ólíkt eptir útliti ok ritunarhætti þess, að það sè í byrjun 14du aldar ritað. Eigi má með öllu ráða, hvört nokkuð af handritum þeim, er fyrr var getið, sè skrifað eptir því; kapítulum er öðruvísi skipt; en það sem vantar í handritin verðr ekki lesið, nema lítið frekara af vísunum, og má það sjá, ásamt þeim helzta ordamun

sem Hra. *Helgason* hefir fundið til leiðrèttíngar eða frekari upplýsíngar, við enda bindis þessa.

2) *Þáttr frá Sigurði konúngi slefu, syni Gunnhildar;* þessi þáttr er orðrètt prentaðr eptir Flateyjarbók, hvar hann finst á 6ta og 7da dálki.

3) *Þáttr Þorleifs jarlaskálds* er prentaðr eptir Flateyjarbók (104 til 108 dálks). 2 pappírs handrit í 4blformi, sem til voru af þætti þessum í safni Arna Magnússonar, eru þó hagnýtt hèr, og þeirra orðamunar getið. Það eina, Nr. 552, g., er merkt G. og það annað, Nr. 563, a., er merkt A.

4) *Þáttr Þorsteins uxafóts* er prentaðr eptir Flateyjarbók (126 til 133 dálks); þarvið eru fylgjandi handrit úr fornfræðasafni Arna Magnússonar samanborin: 1) Nr. 562, B., merkt hèr B., í 4blformi, með settletri. 2) Nr. 562, c., merkt C., í 4blf. með snarhandarletri. 3) Nr. 563, B., merkt G., í 4blf. með snarhendi. 4) Nr. 552, H., merkt hèr H., í 4blformi með snarhandarletri.

5) *Þáttr Helga Þórissonar* er líka prentaðr eptir Flateyjarbók (183 til 185 dálks). Þessi þáttr finst líka í skinnbókinni Nr. 309, merkt Þ., um hverja getið er í formál. fyrir 1sta bindinu, og er hann hèrmeð öldúngis samhljóða.

6) *Þáttr Hrómundar halta* finst einasta í Flateyjarbók á 211 til 214 dálks, og er prentaðr þareptir.

7) *Þáttr Haldórs Snorrasonar* er líka prentaðr eptir Flateyjarbók, (264 til 270 dálks). Þessi þáttr er samanborinn við 2 skinnbækr, í A. M. safninu; við Nr. 54 í arkarformi, merkt B., hvar það mesta af honum stendr aptan í bókinni með annari hendi; og við Nr. 62 í arkarformi, merkt S., hvar þessi þáttr stendr aptast.

8) *Saga af Þorsteini bæarmagn* er prentuð eptir skinnbókinni 510 í 4blf., merkt A., og samanborin við skinnbókina 343 í 4blf., merkt B., og þaraðauki við 3

handrit a pappír, ul. Nr. 169, b., merkt C., Nr. 203, merkt D., bæði í arkarformi, og Nr. 340 í 4blf., merkt E. alt í A. M. safninu.

9) *þáttr þorsteins skelks* er prentaðr eptir Flateyjarbók (214 til 215 dálks).

10) *þáttr Orms Stórólfssonar* er líka prentaðr eptir Flateyjarbók (272 til 278 dálks), og er hann samanborinn við fylgjandi pappírsbækr í A. M. safninu: 1) No. 158, merkt A. 2) 163, b., merkt B. 3) 164, c. α., merkt C. 4) 164, c. γ., merkt E. 5) 156, c., merkt G., allar í arkarformi. 6) 552, i., merkt H. 7) 554, h. β. merkt K. 8) 555, d., merkt L. 9) 555, e., merkt M., allar í 4blaðaformi.

Allir þessir þættir eru prentaðir eptir því handriti, sem Cand. Theol. *þorgeir Gudmundsson* hefir skrifað eptir bókum þeim, er lagðar hafa verið til grundvallar, og hafa Professórarnir *R. Rask* og *C. C. Rafn*, í sameiníngu með honum, samanborið það við hinar bækrnar, hvörra getið er hèr að framan við sèrhvörn þátt útaf fyrir sig, og tekið þaraf þann orðamun, er merkiligr þókti. þessir þrír hafa eins nú sem áðr leiðrètt prófunarörkin, en *þorgeir* hefir samið registrið yfir manna nöfn þau, er finnast í þessari sögu af Olafi konúngi Tryggvasyni og þáttum hennar.

þannig hefir þá fèlagið leyst af hendi sögu Olafs konúngs Tryggvasonar; og hefir það kostgæfiliga þartil hagnýtt þau hjálparmeðöl, er hèr fundust, að útgáfa þessi yrði svo fullkomin, sem kostr var á, er skynsamir og rèttsýnir menn bezt munu finna, og kunna að meta.

Kaupmannahöfn þann 28da Jan. 1827.

## Niðrlag Sögu

# Ólafs konúngs Tryggvasonar.

### 256 Kapituli.

### *Frásagnir Snorra ok annara um burthvarf Ólafs konúngs.*

Nú ero þar margar frásagnir um þá atburði, er þar gerðust. Snorri Sturluson segir svâ: at þá er Ólafr konúngr sá, at flest hans lið var fallit, en Eiríkr jarl ok fjöldi hans manna þusti aptr at lyptíngunni, at Ólafr konúngr ok Kolbjörn stallari ljópu þá báðir fur borð, ok á sitt borðit hvârr, en jarlsmenn höfðo lagt utan at smáskútur, ok drápu þá menn, er á kaf ljópu. Ok þá er konúngr sjálfr hafði á kaf laupit, vildo þeir, er á skútunum voro, taka hann höndum ok færa hann jarli, en Ólafr konúngr brá yfir sik skildinum ok steyptist í kafit; en Kolbjörn stallari skaut sínum skildi undir sik ok hlífði sèr svâ við spjótum, er lagt var af þeim skipum, er undir lágu, ok fèll hann svâ á sjóinn, at skjöldrinn varð undir honum, ok komst hann af því eigi í kafit, áðr hann varð handtekinn. Þessi er

sögn Snorra. En svâ er sagt frá orðum sjálfs Kolbjarnar stallara, at þá er hann var kominn upp í lyptíngina, ok konúngr tók at skjóta at Eiríki jarli, þá sá Kolbjörn þat, sem aðrir menn höfðo áðr sèð, at blóð hraut fram undan brynstúkunni, ok litlu síðarr þóttist Kolbjörn sjá svipinn til konúngs at hann stökk fur borð í brynju sinni ok öllum búnaði þeim, sem hann hafði haft um daginn, ok brá yfir sik skildinum, er úvinir hans vildo taka hann, ok í þeirri svipan leit Kolbjörn til sinna mótstöðumanna, ok sá at þeir voro þá svâ margir uppkomnir á Orminn, at kalla mátti fult af þeim alt skipit; sagði Kolbjörn síðan, at þá sló á hann ótta litlum, snèri hann þá á þat borðit, sem Ólafr konúngr hafði áðr verit; en með því at hann sá þá ekki til konúngs, þá lèt hann eptir skjöldinn sinn ok ljóp fur borð; en er hann kom niðr á sjóinn, varð undir honum skjöldr einkar fagr, sá er hann þóttist kenna at Ólafr konúngr hafði borit um daginn; en er Kolbjörn kom niðr á skjöldinn, varð hann var við at maðr svam hagliga undir skildinum, en sá maðr fur lèt skjöldinn þegar hann kendi at þúnginn kom á; því nærst var Kolbjörn handtekinn ok dreginn upp í skútu eina, hugðu þeir at þar væri Ólafr konúngr, var hann þá leiddr fyrir Eirík jarl; en er jarl varð þess varr, at þar var Kolbjörn en eigi konúngr, þá voro Kolbirni grið gefin. Í þeirri svipan ljópu margir menn Ólafs konúngs fur borð

af Orminum, þeir er þá voro á lífi ok áðr höfðu drengiliga vörn veitta, svâ at menn hafa í minnum haft þeirra hraustleik. En þó segir Hallfreðr, at menn kalli Þorkel nefju einna ágætazta vörn ok fastazta fylgð hafa veitt Ólafi konúngi bróður sínum; hann segir svâ:

Gott er [gerva at [1]) frètta
gunnr [2]) vóx fur haf sunnan
sverð bitu feigra firða
fjör ravnn at því mönnum;
hvern rakkligazt rekka
rand láðs víþir kváðu
(Surts ættar [vinn ek slèttan [3])
sylg) Ólafi fylgja.

Vâttar Hallfreðr þat með fullkomliga, at Þorkell ljóp síðazt fur borð allra manna Ólafs konúngs:

Ógræðir sá auða
armgrjóts [4]) travnu fljóta
(hann [5]) rauð geir at gunni
glaðr) ok báða naðra;
áðr hjaldr þorinn hèldi
hugframr or bavð ramri
snotr á snæris vitni [6])
sunds Þorketill undan.

Lagðist Þorkell til lands ok hjálpaði svâ lífi síno at sinni, en þó tók hann sèr síðan grið af Eiríki

[1]) at gjörva, *C.* [2]) gunn, *B*, *C.* [3]) mun ek slèttar, *B.* [4]) *eðr* aringrjóts. [5]) herr, *C.* [6]) *þannig B.* unni, *A.* fjötri, *C.*

jarli sem aðrir þeir, er verit höfðo menn Ólafs konúngs. Svâ segist, at 6 menn aðrir enn Kolbjörn stallari voro teknir af sundi, þeir er grið voro gefin: Einarr þambarskelfir, Þrándr skjálgr, Ögmundr sandi, Þorsteinn uxafótr, Björn af Stuðlu, Ásbjörn or Mostr. Sigvaldi jarl hafði legit með skip sín 10 um daginn, ok verit ekki í orrostunni; en er Ólafr konúngr hafði fur borð laupit, þá æpti herrinn allr sigróp, ok þá lustu þeir árum í [1], Sigvaldi ok hans menn ok rèru þá til bardagans. Þess getr Hallfreðr [2]:

Drógu [3]) vídt at vígi
Vinda skeiðr ok gindu
þriðja hauðrs á þjóðir
þunn gálkn vafit [4]) munnum;
gnýr varð á sjó sverða,
sleit örn gera [5]) beitu,
dýrr vâ drengja stjóri,
drótt kom mörg á flótta.

En á þeirri sömu stundu, sem ópit var, ok Sigvaldi rèri til herskipanna, lustu þeir menn árum í, ok rèro brotto sem harðazt, er á þeirri voro Vinda snekkjunni, er til tals höfðo gengit tysvar um daginn við Ólaf konúng Tryggvason, rèru þeir aptr undir Vindland, ok var þat þegar ræða margra manna, at Ólafr konúngr mundi hafa steypt af sèr brynjunni í kafi ok kafat út undan lángskipunum ok lagizt síðan til Vindasnekk-

[1]) í sjá, *B*, *C*. [2]) Hallarsteinn, *B*. Haldór, *F*. [3]) drógust, *B*, *C*, *F*. [4]) varit, *B*, *C*. [5]) geira, *B*.

junnar, ok hafði menn Ástríðar flutt hann til lands; er þat altsaman síðan leidt til líkinda um brautkvâmu Ólafs konúngs, hvat þeir menn hafa síðazt sèð til hans, er þar voro í bardaganum, ok þær frasagnir, er Snorri Sturluson vâttar at gjörvar hafi verit síðan um ferðir Ólafs konúngs, ok nökkurir menn [1]) höfðo kennt hann út í löndum af þeim jartegnum, er hann sjálfr hafði sent híngat á Norðrlönd, sem síðarr mun sagt verða; þat er enn til þess dregit af sumum mönnum, at þat vissu allir menn, þeir er þaðan komust or bardaganum [2]), at hann hefir eigi fallit á Orminum; en þó segir svâ Hallfreðr vandræðaskáld:

Veitkat [3]) ek hitt hvârt heita [4])
húngr deyfi skal ek leyfa
dynsæðinga dauðan
dýrbliks [5]) eða þó kvikvan;
[alls sannliga [6]) segja,
sárr mun gramr at hváru,
hætt er til hans at frètta,
hvârtveggja mèr seggir.

En hvârn veg sem þat hefir verit, þá kom Ólafr Tryggvason aldri síðan til ríkis í Noregi; en þó kallar Hallfreðr [7]) vinum Ólafs konúngs, þá er mest ángraði at missa slíks höfðíngja, vera í harms lètta, at hann væri á lífi, þó at hann væri

[1]) Norðmenn, *B*, *C*. [2]) at hann hafði brott komizt or bardaganum, *bætir inní A*. [3]) vætkaþa, *B*. [4]) hetta, *B*.
[5]) *þannig: F. Hkr. Sk.* dyrðliks, *A*; dyrligs, *B*.
[6]) allsannliga, *C*. [7]) sèr ok öðrum, *bætir við B*.

firðr ríki ok sínu fóstrlandi, sem Hallfreðr kvað:

> Sagðr var [1]) mèr, [en meira [2])
> munuma [3]) stríð of bíða,
> lýðum firðr ok [4]) láði
> landvörðr fur sjá handan;
> væri oss þó at ærir
> elds þeim [5]) svikum beldi
> heila líkn ef hauka
> há-klifs jöfr lifði.

En þó at skynsamir menn, þeir er þá voro í bardaganum, segði, hvat hverr sá síðarst til Ólafs konúngs, þá þóttist engi fullan vísdóm mega á bera, hvârt konúngrinn hafði þaðan braut komizt eðr eigi. Nú er áðr ritat, hvat Kolbjörn stallari sagði, er næstr var Ólafi konúngi, áðr hann stökk fur borð. En sú er sögn Einars þambarskelfis: at þá er Eiríkr jarl sótti aptr í furrúmit á Orminum at lyptíngunni, þá sá Einarr þat til Ólafs konúngs, at blóðdropar runnu niðr á kinn konúngi undan hjálminum, er hann hafði á höfði, en er Einarr vildi athyggja, hvat konúngr tæki ráðs, þá er jarl kvæmi at honum, þá sagði Einarr koma við eyra sèr steinshögg svâ mikit, at hann fèll í óvit, en er hann vitkaðist ok stóð upp, þá sá hann hvergi konúnginn. Svâ sagði Skúli Þorsteinsson, Egilssonar frá Borg, at hann sá Ólaf

[1]) v. í, *B.* [2]) ein meira, *B.* inn meiri (mæri?), *C.* [3]) mín muna, *B.* muna menn, *C.* [4]) at, *C.* [5]) þjóð, *C.*

konúng standa í lyptíngu á Orminum, þá er Skúli sótti aptr á skipit með Eiríki jarli, ok þá sagðist hann lúta niðr ok velta mannabúkum frá fótum jarli, en er Skúli rèttist upp, þá var konúngrinn horfinn; en litlu síðarr, þá er sigrópit kom upp, þá sá nökkurir af mótstöðumönnum Ólafs konúngs, at maðr í rauðum klæðum svam at Vindasnekkjunni þeirri, er sagt er, at á væri menn Ástríðar konúngsdóttur, konu Sigvalda jarls, en þeir menn, er á því skipi voro, stóðu upp í móti, ok drógu hann upp í skipit, ok rèru þegar í brott sem harðazt, svâ sem áðr er ritat; hefir þaðan síðan æ haldizt sá orðrómr alþýðu, at þeir menn hafi flutt Ólaf konúng lifanda með sèr, þó at nökkurir menn hafi því ímóti mælt; fannst þat ok í kveðskap Hallfreðar, at honum þótti á því meiri líkindi, at Ólafr konúngr hefði eigi þaðan komizt með fjörvi fyrir sakir liðsmunar, en hitt væri þó fleiri manna sögn, at hann væri á lífi, hèr segir svâ:

Samr var árr um æfi
oddflagðs hinn [1]) er þat sagði,
at lofða gramr lifði
læstyggs sonar Tryggva;
vera kveða [2]) ölð or eli
Ólaf kominn stála
menn geta [3]) málin sönnu
mjök er verr [ek var ferri [4]).

[1]) v. í C. [2]) kveðr, B. [3]) akta, B. [4]) en svâ færi, B. en svâ ferri, C.

Ok enn kvað hann:

Mundut þess er þegnar
þrótt-harðan gram sótto
frá ek með lýða liði
land herðar skavp verða;
at mund-jökuls myndi
marg-dýrr koma rýrir
(geta [1]) þikkjat [2]) mèr gotnar
glíkligs) or [3]) styr slíkum.

Lèk þá þó furst eptir mest á tveim túngum um þessa atburði, sannaði annarr, at Ólafr konúngr hefði á braut komizt or bardaganum, en annarr synjaði, svâ sem Hallfreðr segir:

Enn segir auðar [4]) kenni
austr or málma gnaustan
seggr frá sárum tiggja
sumr eðr braut of komnum [5]);
nú hefk sannfregit sunnan
siklíngs or styr miklum
kann ek [6]) margt við manna
morð veifanar orði.

En þá er sögur komo utan or löndum um ferðir Olafs konúngs, þá tók ifa af mörgum manni um brautkvâmu hans, en Hallfreðr varð svâ at kveða, sem honum var í furstu sagt, sem hann vâttar sik sjálfr, ok harmar sik, er hann var eigi þar at berjast með Ólafi konúngi:

[1]) sæta, *B*, *A*, *B*. [2]) þikkja, *C*. [3]) *þannig Hk.*, ok komna, *A*. [4]) alldar, *B*. [5]) *þannig: B. C.* [6]) ei, *bæta inni B*, *C*.

Ílt var þats úlfa sultar
opt þverri stóð ek fjærri
mest þar málmar brustu
mein þó at smátt sè und einum;
skiliðr em [1]) ek við Skylja
skálm öld hefir því valdit [2])
vætti ek virða drottins
vil er [3]) mest ok dul flestum.

Þat er mælt, at þessi hafi verit fræguzt orrosta á Norðrlöndum fur margra luta sakir, furst af þeirri hinni ágætu vörn, er Ólafr konúngr ok hans menn veittu á Orminum, er menn vita eigi dæmi til at nökkurir menn hafi jafnlengi varizt ok með slíkri hreysti sínum úvinum við slíkt ofrefli, sem þeir áttu at etja, þar með af svâ harðri atsókn Eiríks jarls ok hans liðs, [at viðfrægt hefir vorðit, sem Hallfreðr segir:

Harðgjörvan lèt hjörinn
hólmsverða týr sverða
vind á víðu sundi
vígþey Hèðins meyjar;
áðr en ormi næði
Eiríkr eða hlut meira,
mörg óð bitr í blóði
beinkneif [4]) fyrir Óleifi.

Varð ok þessi fundr mjök frægr af miklu mannfalli ok þeim' sigri jarls, er hann hrauð þat skip [5]), er

[1]) er, *C.* [2]) voldit, *B*, *C.* [3]) vil ek, *C.* vilja, *B.*
[4]) benkneif, *C.* [5]) *þannig B. C. en A. hefir af öllu þessu frá merkinu einúngis þau seinustu orð:* er þat skip varð hroðit.

í þann tíma hafði mest ok fríðast gert verit í Noregi, ok margir menn mæltu, at aldri mundi með vopnum unnit verða á sjá fljótanda, ef þvílíkum drengjum væri skipat sem þá var; en mest fur þá skyld varð þessi orrosta ágæt, er sá konúngr var sigraðr er frægztr var á danska túngu, sem Hallfreðr segir:

Hef ek þanns hverjum jöfri
[heipt fiknum varð [1]) ríkri
und níðburði Norðra
norðr guðföður vorðinn;
bíða mun ek þess, er [2]) breiðan
barð-mána vann skarðan
marg aukanda mækis
mót, aldregi bótir [3]).

Ok svâ var mikil vinsæld Ólafs konúngs, at þat var alþýðu hugsan, at eigi mundi slíkr höfðíngi fæðast síðan í Noregi [eðr víðara [4]). Svâ segir Hallfreðr:

Fyrr man heimr ok himnar
hugreifum Óleifi
(hann [5]) var menskra manna
mest gott) í tvav bresta;
áðr enn glíkr [at góðu [6])
gæðingr muni fæðast,
kæns [7]) hafi Kristr enn hreini
kóngs önd ofarr löndum.

[1]) hept fiknum var, *B.* [2]) *v. í B.* [3]) bóta, *B.*
[4]) *v. í B.* [5]) hans, *B.* [6]) á góða, *C.*
[7]) kjænst, *C.*

Svâ er sagt, at þessi orrosta hafi verit á öðrum degi viku hinn 5ta *ídus* dag Septembris mánaðar, þat er einni nótt eptir Maríumesso hina síðarri; þá var liðit frá holdgan vârs drottins Jesú krists 1000 ára; þat var á 8ta ára hins þriðja tigar ríkis Aðalráðs konúngs á Englandi, ok á 8ta [1]) ári ríkis Sveins tjúguskeggs Danakonúngs; á því sama ári andaðist Ottó, er hinn þriði var keisari með því nafni, en Heinrekr tók ríki.

*Frá andláti Þyri drottníngar.*

257. Þá er lokit var manndrápum á Orminum, ok hann var rannsakaðr ok ruddr af líkum dauðra manna, þá var Þyri drottníng leidd upp undan þiljum, hún var mjök harmþrúngin, ok grèt sárliga; en er Eiríkr jarl sá þat, þá gekk hann at henni, ok mælti með mikilli áhyggju: Hèr hafa vorðit stór tíðindi í falli margra göfgra manna, höfum vèr mikinn harm gjört eigi at eins þèr, drottníng! heldr ok allri alþýðu í Noregi, þó at þèr falli einna nærst, sem vân er. Nú með því at eigi má aptrtaka unnit verk, þá skal með því bæta, sem ek má, at ef ek fær nökkut ríki í Noregi, þá skal ek gera yðra tign í því landi í alla staði, sem ek má mesta, ok yðr sæma í öllum lutum. Drottníng svarar: þessi þín heit ero mælt af miklum drengskap ok góðvilja, sem þú munt opt af þèr sýna, ok gjarna vildi ek lifa, ef ek mætti, ok þekkjast þinn góðgerníng, en svâ sárum harmi er hjarta mitt slegit, at ek ætla mèr

[1]) 7da, F.

eigi vân lífs næríngar. Ok at því gafst, sem hún sagði, at hún mátti hvârki eta nè drekka fur trega. Spurði hún þá at [1] Sigurð biskup, hvat manni væri minnst lofat fur guði at neyta [af fæðslu [2] til lífs lengíngar [3], ok síðan bergði hún eptir því sem hann sagði, at minnst væri lofat; ok með því hlýðni marki andaðist Þyri drottníng eptir níu daga.

*(Eiríkr jarl eignast Orminn lánga).*

258. Eiríkr jarl Hakonarson eignaðist Orminn lánga með sigrinum, ok lutskipti mikit. Svâ segir Haldórr [4]:

Hjálmfaldinn bar hilmi
hríngs af miklu þíngi
skeiðr glæstu þá [5] þjóðir
þángat ormrinn lángi;
en suunr at gný gunnar
glaðr tók jarl við naðri,
áðr varð egg at rjóða
ótrauðr Hemíngs bróðir.

Skipaði jarl Orminu sem knáligazt [6], ok stýrði honum sjálfr. Þess getr Hallfreðr:

Ítr-fermdum rèð ormi
orðsæll jöfr norðan
(snörp varð at þat sverða
snót) Eiríki á móti;
en hýjöfnum [7] hefnir

[1]) *v. í B, C.* [2]) *v. í C.* [3]) næríngar, *B, F.* [4]) Hallfreðr, *B.* [5]) þar, *B.* [6]) af enum fræknuztu mönnum, *b.v. B.* [7]) hver jöfnum, *B, C.*

hlýrs þeim gota stýrði,
áðr vóx um gram góðan
gunnr, Hákonar sunnan.

En með því at Ormrinn lángi var allrammskipaðr hraustum drengjum, þá komu þeir honum [at kalla [1]), ok þó sem tregligazt, austan í Víkina ok fór jafnan hallr, ok lèt eigi at stjórn; því lèt Eiríkr jarl höggva upp Orminn lánga; sumir menn segja at hann lèti brenna hann.

259. Einarr Þambarskelfir ok þeir menn aðrir, er Eiríkr jarl hafði grið gefit eptir bardagann, fóro norðr til Noregs [2]) með jarli. Vígi hundr Ólafs konúngs hafði legit í furrúminu á Orminum fur lyptíngunni um daginn meðan orrostan var, ok svâ alla stund síðan; en er jarl kom austr í Víkina með Orminn, þá gekk Einarr Þambarskelfir þar til sem hundrinn lá, áðr hann gekk á land, ok mælti: drottinlausir erum við nú, Vígi! segir hann; við þessi orð spratt hundrinn upp gnístandi, ok gnöllraði hátt, svâ sem hann hefði hjartverk tekit, rann hann þá á land með Einari, ok gekk upp á einn haug, þar lagðist hann niðr, ok vildi at engum manni mat þiggja, en þó varði hann öðrum hundum, dýrum ok fuglum, fæðslu sína; tárin hrundu or augunum niðr um trýnit, svâ grèt hann sinn lánardrottinn, ok lá þar til þess, er hann var dauðr. Nú týndu Norðmenn svâ hörmuliga þessum fjór-

[1]) *v. í C.* [2]) Þrándheims, *B.*

um hinum ágætaztum lutum or þvi landi, eptir því sem fur hafði sagt bóndinn blindi í Mostr.

*(Dana ok Svía konúngar ok Eiríkr jarl skipta Noregi með sèr).*

260. Sveinn jarl Hákonarson hafði verit í Svíþjóð, síðan hann flýði or Noregi eptir dráp föður síns, hafði hann þá fengit Hólmfríðar, systur Ólafs Svía konúngs; en er þeir skiptu Noregi með sèr, Sveinn Dana konúngr, Ólafr Svía konúngr ok Eiríkr jarl, þá hafði Ólafr Svía konúngr 4 fylki í Þrándheimi ok Mæri hvàratveggju, Raumsdal [1]) ok Austr-Ránríki frá Gautelfi til Svínasunds; þetta ríki fèkk Ólafr konúngr í hendr Sveini Hákonarsyni mági sínum með þvílíkum formála sem furr höfðu haft skattkonúngar eðr jarlar af yfirkonúngum, ok gaf hann Sveini þar með jarlsnafn. Eiríkr jarl hafði 4 fylki í Þrándheimi, ok Naumudal ok Hálogaland, Fjördu ok Fjalir, Sogn, Hörðaland, Rogaland ok Norðr-Agðir alt til Líðandis ness. Svâ segir Þórðr Kolbeinsson:

Veit ek fur Erlíng utan
ár at hersar váru
lofa fasta tý flestir
farlands vinir jarla;
en eptir [2]) víg frá veigi
vel ek orð at styr norðan
land [eðr lengra [3]) stundu
lagðist suðr til Agða.

[1]) *v. í B.* [2]) opt, *B.* [3]) ok leingri, *B.*

Ok enn kvað hann:

Allvalds nutu aldir [1])
una líkar [2]) vel slíku
skyldr lèzt hendi at halda
hann of Noregs mönnum;
en Sveinn konúngr sunnan
sagðr er dauðr en auði
fátt bilar flestra [3]) ýta
fár hans bæir váro.

Sveinn Dana konúngr hafði einn Víkina, sem hann hafði furr haft, en hann veitti Eiríki jarli Raumaríki ok Heiðmerk. Eiríkr jarl ok Sveinn jarl lètu báðir skírast ok tóko trú rètta; en meðan þeir rèðu fyrir Noregi, lètu þeir gera hvern sem vildo um kristnihaldit, en forn lög hèldo þeir vel ok alla landssiðu; voro þeir menn vinsælir ok þó stjórnsamir; var Eiríkr jarl mjök fur þeim bræðrum um öll ráð, en Sveinn jarl var allra manna fríðaztr, þeirra er menn hafi sèð.

*(Frá Erlíngi mági Ólafs konúngs).*

261. Þá er Erlíngr Skjálgsson mágr Ólafs konúngs, ok aðrir þeir menn, er siglt höfðo frá Ólafi konúngi, spurði þessi stórtíðindi, sem görzt höfðu fyrir Svöldr, þá hrygðust þeir ok hörmuðu, er þeir höfðo svâ úvarliga skilizt við hann, ok látit hann eptir í svâ miklum háska; ángraði þat Erlíng því mest at missa slíks höfðíngja, at hann var meirr vandabundinn Ólafi konúngi

[1]) alldri, *B.* [2]) mèr eða menn, *b. v. C.* [3]) flesta, *B.*

Tryggvasyni enn aðrir, var hann einn þá svâ af öllum lendum mönnum í Noregi, at eigi leitaði til sætta við jarlana, er þeir tóko ríki, Eiríkr ok Sveinn. En er Eiríkr jarl hafði feszt í landi ok tekit trúnat af ríkismönnum ok allri alþýðu, þá lèt hann sèr ekki líka, at Erlíngr Skjálgsson hefði ríki svâ mikit, ok tók hann undir sik allar konúngs tekjur [1]), þær er Ólafr konúngr hafði veitt Erlíngi, en Erlíngr tók jafnt sem áðr landskyldir alt um Rogaland, ok guldo landbúar opt tvennar landskyldir alt um Rogaland, en at avðrum kosti eyddi Erlíngr jarða bygðina [2]); lítit fèkk Eiríkr jarl ok af sakeyri, þvíat ekki hèldust þar sýslumenninnir, ok því at eins fór jarl at veizlum, ef hann hafði mikit fjölmenni. Þessa getr Sighvatr skáld:

Erlíngr var svâ at [3]) jarla
átt er skjoldúngr máttit
Ólafs mágr svâ [at ægðit [4])
aldyggs sonar Tryggva [5]);
næst gaf sína systur
snarr búþegna harri [6]),
þat var yðr en aðra
aldr-gipta, Rögnvaldi.

Eiríkr jarl orti því ekki á at berjast við Erlíng, at hann var frændstórr ok frændmargr, vinsæll ok ríkr, sat hann jafnan með fjölmenni

[1]) ok eignir, *b. v. B, C.* [2]) jarðabyggíngina, *B.* Jaðar bygðina, *C.* [3]) *v. í C.* [4]) Ægþirr, *C*
[5]) alldyrs s. Trygia, *B.* [6]) hjarri, *B.*

sem þar væri konúngs hirð. Erlíngr var opt á sumrum í hernaði ok aflaði sèr fjár, þvíat hann hèlt teknum hætti um rausn ok stórmensku, þó at hann hefði þá minni veizlur ok úhaldkvæmri enn um daga Ólafs konúngs mágs síns. Erlíngr var manna fríðaztr ok mestr ok hinn styrkazti, vígr hverjum manni betr, ok um margar íþróttir dró hann fast eptir Ólafi konúngi Tryggvasyni; hann var vitr maðr, kappsamr um marga luti, ok hinn mesti hermaðr, og svâ frækn ok sóknharðr at hann gekk furstr ok fremstr í hvert stríð. Þess getr Sighvatr [1]:

Erlíngi varð engi
annarr lendra manna
[or er [2]) sá er átti fleiri
orrostur stóð þorrinn;
þrek bar seggr við sóknir
sinn þvíat furst gekk innan
mildr í marga hildi
mest en or [3]) á lesti.

Þat hefir verit jafnan mál manna, at Erlíngr hafi verit göfgaztr allra lendra manna í Noregi. Þau voro börn Erlíngs ok Ástríðar Tryggvadóttur: Áslákr, Skjálgr, Sigurðr, Loðinn, Þórir ok Ragnhildr, er átti Þorbergr Árnason. Erlíngr hafði jafnan með sèr 9 tígi frelsíngja eðr fleiri, ok var þar bæði vetr ok sumar máldrykkja

[1]) Sigvaldi skáld, *B.* [2]) orærr, *C.* er, *v. í B*
[3]) orr, *B.*

at dagverðarborði, en at náttverði úmælt drukkit; en hann hafði 200 manna eðr fleira, þegar jarlar voro nærr; aldri fór hann fámennari milli búa sinna eðr at öðrum sínum erendum enn með tvítögsessu alskipaða. Erlíngr hafði jafnan heima 30 þræla ok umfram annat mannfólk, hann ætlaði þrælum sínum dagsverk, ok gaf þeim síðan stundir til ok orlof, at þeir vynni sjálfum sèr, þá er [þeir] höfðo lokit ætlanar verki; hann gaf þeim akrlönd, at sá sèr korni ok færa ávöxtinn til fjár sèr; hann lagði á hvern þeirra verð ok lausn ok leystu sik margir til frelsis hin fursta misseri eðr önnur; en allir þeir, er nökkurr þrifnaðr var yfir, leystu sik á 3 vetrum. Með því fè keypti Erlíngr sèr annat man, en leysíngjum sínum vísaði hann sumum í síldfiski, en sumum til annarra fèfánga; sumir ruddu sèr merkr ok gerðo sèr bæi; öllum kom hann til nökkurs þrifnaðar [1]).

(*Frá Einari Þambarskelfi*).

262. Eiríkr jarl hafði gefit grið Einari Þambarskelfi, syni Eindriða Styrkárssonar, sem fyrr er ritat. Einarr var þá átján vetra. Svâ er sagt at Einarr væri allra manna styrkaztr ok beztr bogmaðr, er verit hafi í Noregi, ok var harðskeyti hans umfram alla menn aðra; hann skaut með bakkakólfi í gegnum uxahúð hráblauta, er hèkk á ási einum; hann var skíðfærr hverjum manni betr; hinn mesti var hann hreysti-

[1]) farnaðar, C.

maðr ok íþróttamaðr, hann var auðigr ok ættstórr. En er Einarr var kominn norðr í Noreg eptir Svöldrar bardaga, þá gerðu jarlarnir Eiríkr ok Sveinn sætt við hann, ok giptu honum systur sína Bergljótu, dóttur Hákonar jarls, hún var fríð sýnum ok hinn mesti skörúngr. Eindriði hèt son þeirra, hann var snimma mikill ok styrkr ok um marga luti líkr Einari feðr sínum. Jarlarnir gáfu Einari veizlur stórar út í Orkadal, ok gerðist hann ríkaztr ok göfgaztr lendra manna í Þrændalögum, var hann jörlunum hinn mesti styrkr ok þeirra ástvinr.

(*Stefnir Þorgilsson drepinn*).

263. Stefnir Þorgilsson hafði verit með Ólafi konúngi Tryggvasyni, síðan konúngr hafði sent hann til Íslands, sem fyrr er ritat; var Stefnir með því liði Ólafs konúngs sem siglt hafði frá honum á Vindlandi. En er þau tíðindi komu norðr í Noreg, at Ólafr konúngr var ráðinn frá ríki, þá fèkk Stefni þat harm mikinn sem öðrum ástvinum konúngs; ángraði sú saga alla þá menn mest, er lengst höfðo verit með Ólafi konúngi í mestum kærleikum. Stefnir undi eigi í Noregi eptir Ólaf konúng, rèð hann sik þá til suðrferðar ok gekk til Róms, en er hann kom sunnan í Danmerk, kom hann einn dag þar er fyr var Sigvaldi jarl, ok er Stefnir sá jarl, þá kvað hann þetta:

Munkat ek nefna,
nærr mun ek stefna:
nidrbjúgt er nef
sem [1]) á níðíngi,
sá [2]) er Svein konúng
sveik or landi,
ok Tryggva son
á tálar dró.

Þetta var sagt jarlinum, þóttist hann kenna sitt mark á vísu þessi, ok lèt þegar taka Stefni ok drepa; var þessi ein dauðasök Stefnis.

(*Frá Hallfreði Vandræða skáldi*).

264. Nú skal þar tiltaka sem furr var fráhorfit, at Hallfreðr vandræðaskáld sigldi út til Íslands um sumarit áðr enn bardaginn varð á Orminum, kom Hallfreðr út fur norþan land, ok reið suðr um heiði, sem áðr er sagt. Gerðist þá enn at nýju missætti með þeim Hallfröði ok Grísi Sæmíngssyni bæði um mál Kolfinnu ok um víg Einars Þórissonar. Í þann tíma bjó Þorkell krafla Þorgrímsson at Hofi í Vatzdal, hann átti Vigdísi, dóttur Ólafs frá Haukagili. Þorkell var þá mestr höfðíngi um þær sveitir. Þá bjó at Móbergi í Lángadal [Húnröðr Vefreyðarson [3]) ok vàr Gríss hans þíngmaðr. Hallfreðr vandræðaskáld var um vetrinn með Galta bróður sínum, ok orti þá [Grísvísur, þat er

---

[1]) *v. í B, C.* [2]) þeim, *B, C.* [3]) Húnrauðr Vefríðarson, *B, C.*

hálf níð [1]); en er Gríss spurði þat, þá fór hann til fundar við Húnröð, ok er þeir fundust, mælti Gríss: þess erendis er ek hèr kominn, at ek vildi at þú legðir til ráð með mèr, hverju ek skal því fram fara við Hallfreð [2]) at vel sami, en ek fái þó eigi lengr svívirðíng eina af honum, þvíat hann herðir at eins fjandskapinn við mik. Húnröðr svarar: þat legg ek til ráðs, at þú búir mál á hendr Hallfreði til Húnavatz þíngs, önnur enn um [3]) Kolfinnu. Gríss hafði þessi ráð. Reið hann suðr til Hreðuvatz um vârit ok stefndi Hallfreði til Húnavatz þíngs um víg Einars frænda síns ok um kveðskap; síðan reið Gríss norðr aptr. En um vârit eptir riðu þeir bræðr sunnan með 50 manna, ok sótti Hallfreðr traust at Þorkeli kravflu mági sínum. Þorkell kvaðst mundo veita honum at málum, ef nökkur sæmð væri Grísi boðin. Hallfreðr svarar: svâ vil ek vera láta, þvíat ek sè at ek er of fari í við Grís [4]). En er menn voro komnir til Húnavatz þíngs; þá hjó Brandr Ávaldason, bróðir Kolfinnu, Galta Óttarsson banahögg, er hann gekk út or búð Þorkels. Hallfreðr leitaði eptir Brandi bróðurbana sínum, ok varð honum undan skotit, þá bauð Hallfreðr Grísi hólmgaungu þar á þínginu; en á næstu nótt var þat, áðr þeir skyldi berjast um daginn eptir, þá er Hallfreðr svaf í búð sínni, at hann dreymdi,

[1]) Hallfreðr vísur þær, er Hálfníð eru kallaðar, *B.* [2]) við hæðni þá er hann gerir mèr, *b. v. B.* [3]) mál, *b. v. B.* [4]) *þannig A, B, C.*

at hann þóttist sjá Ólaf konúng Tryggvason; Hallfreðr þóttist verða feginn ok þó hræddr, honum þótti konúngr svâ mæla til sín: sefr þú, Hallfreðr! en þó mun svâ vera sem þú vakir, þú ætlar úgott ráð fur þèr at berjast við Grís at svâ illum málaefnum sem þú hefir, en hann hefir þess guð beðit, at sá skuli sigrast á öðrum er rèttara hefir at mæla; nú haf þú ráð mitt, at þú tak með þökkum at eigi verði hólmgángan, ok bæt heldr fè þat, er þú ert sakaðr við hann, ok hirð eigi þó at þèr sè hallmælt at þú hræðist; en á morgin er þú ert klæddr, gakk þú út á holt þat, er hèr er skamt frá þíngstöðinni, þar sem götur mætast, muntu þá sjá menn ríða, haf þú tal við þá, ok kann vera at þá þikki þèr annat meira verdt enn hólmgángan við Grís. Hallfreðr vaknar ok hugsar, hvat fyrir hann hafði borit, hann sagði drauminn einum búðarmanni sínum. Sá svaraði: hræðist þú nú Grísinn, ok væri þèr betra at hafa furr sæzt við hann, þá er hann mælti vel til, en nú mun virdt af úvinum þínum, at þú þorir eigi at berjast. Hallfreðr mælti: virði þat nú hverr sem vill, hafa skal ek ráð Ólafs konúngs, þau munu mèr enn bezt gefast sem furr; kann vera at nú komi þat fram er hann mælti, áðr við skildum næst, at mèr þikki brátt betra at hafa verit með honum enn hèr á Íslandi. Um morgininn gekk Hallfreðr út á holts götu nökkura, ok sá menn ríða í litklæðum, hann gekk til þeirra manna ok spurði

þá tíðinda; en þeir sögðu fall Ólafs konúngs Tryggvasonar. Hallfreði brá mjök við þessa sögn, gekk hann þegar aptr á þíngit ok sagði tíðindin, lagðist síðan niðr í rúm sitt með miklum harmi hugar. Þá mælto menn Gríss, at Hallfreðr vyrði lítill af þessu máli. Grís svarar: Þat er ekki á þá leið; minna sóma hafði ek af Miklagarðs konúngi enn Hallfreðr af Ólafi konúngi, ok þóttu mèr þau tíðindi mest, er ek frètta fall stólkonúngsins, ok veit sá einn er missir síns lánardrottins, hversu heit verða kann höfðíngja ástin; nú þikkir mèr gott, er ek skal eigi berjast við konúngs gæfuna sem Hallfreði mun jafnan fylgja. Nú var þat talat í furstu at Þorkell mundi gera um mál okkur, ok þat vil ek enn halda. Hallfreðr játti því. Þorkell mælti: þat er gjörð mín, at fur víg Galta komi víg Einars Þórissonar ok þarmeð heimsókn við Kolfinnu fyrir [1]) manna mun, en fur úþokka vísur þær, er Hallfreðr hefir kveðit um Grís, skal Hallfreðr gefa honum einnhvern góðan grip. Þá kvað Hallfreðr vísu:

Auðs hef ek illrar tíðar
alldrengila fengit
(mik hefir gjöllnu gulli
gramr ok jarl of framðan);
ef glapskuldir [2]) gjalda
gjálfr [3]) teigs ok hefk eigi
mörk fur minztan verka
mat vísum skal ek Grísi.

[1]) *þannig B.* ok, *A.* [2]) glapskylldir, *B.* [3]) gjálfr, *B.*

Þorkell bað hann hætta verkanum, ok legg nú fram, segir hann, grip nökkurn við Grís, þó at eigi sè af konúngs nautum. Hallfreðr lèt til hrínginn Sigvalda naut ok skildu þeir at því. Reið Hallfreðr furst af þínginu suðr um heiði, ok dvaldist at búi síno um hríð við litla gleði; síðan fèkk hann búit í hendr Valgerði systur sinni, en hann reið norðr til Skagafjarðar ok bjó skip sitt í Kolbeinsár ósi; fór hann þat sama sumar utan, ok varð síðbúinn, kom hann við Orkneyar [1]) ok fór þegar austr til Noregs; hann kom um vetrnátta skeið utan at Sogni, þá spurði hann af nýju þau tiðindi, er áðr höfðo gerzt hit furra sumarit, orti hann þá þegar drápu um Ólaf konúng [2]). Svâ þótti Hallfreði mikill skaði at um Ólaf konúng, at hann undi engu, ok ætlaði þá at halda skipi síno suðr til Danmerkr eðr austr til Svíþjóðar, þeir lágu í einum leynivâgi ok gerðu lítt vart við sik; en þó spurði Hallfreðr, at Eiríkr jarl Hákonarson var þaðan eigi lángt á land upp, gerði hann sèr þá þat í hug, at hann mundi drepa jarlinn, þó at hann væri þegar drepinn; ok næstu nótt eptir þessa hugsan dreymdi Hallfreð, at Ólafr konúngr kvæmi at honum ok mælti við hann: þetta er únýtt ráð,

[1]) Færeyjar, *S.* [2]) ok er þetta stefit í:

Auð eru öll um orðinn
ættlöndum gram dauðan
allr glepst friðr af falli
fjölstyggs sonar Tryggva.

*b. inni F.*

er þú ætlast nú fur, Hallfreðr! at drepa Eirík jarl, yrk þú heldr um hann drápu. Eptir um morgininn gèkk Hallfreðr einn frá skipi á land upp, þar til er hann kom á þann bæ er Eiríkr jarl var fur, hann gèkk þegar at stofu þeirri, er jarl var inni ok drakk; Hallfreðr var skjótt kendr af mönnum ok þegar handtekinn ok færðr jarli. Jarl segir at hann skyldi drepa fur meiðíng Þorleifs hins spaka vinar síns, ok bað hann fjötra sem skjótazt ok leiða út; en er fjöturrinn var borinn at Hallfreði, greip hann til ok kipti fjötrinum or höndum þeim mönnum, er á hann vildo leggja, Hallfreðr hóf upp fjöturinn ok laust í höfuð einum þeirra, svâ at sá hafði þegar bana. Jarlinn bað þá drepa hann sem skjótazt, svâ at eigi gerði hann fleira ílt; þá stóð upp maðr gamall, er áðr hafði setit á bekkinn, kendi Hallfreðr at þat var Þorleifr hinn spaki, hann gekk fur jarl ok bað hann gefa Hallfreði grið. Jarl svarar: þat er hóti úmakligazt, at þú biðir honum lífs ok griða, eðr mant þú þat eigi, er hann meiddi þik ok stakk or þèr augat? Þorleifr mælti: Hallfreðr átti þá kost at gera við mik, hvat er hann vildi, en hann gaf mèr líf ok þar með annat augat í móti boðskap Ólafs konúngs, ok lagði sik svâ í hættu fur mik; nú vil ek, herra! at Hallfreðr hafi líf fyrir mín orð. Jarl bað svâ vera sem hann vildi. Þorleifr tók þá Hallfreð á sitt vald ok mælti: vill þú nú, Hallfreðr! at ek dæma með ykkr Eiríki jarli? þat vil ek gjarna,

segir Hallfredr; þá skaltu yrkja kvæði um jarl, sagði Þorleifr, ok haf búit á 3 nátta fresti. Hallfreðr kvað svâ vera skyldo. Ok er þrjár nætr voro liðnar, þá færði Hallfreðr Eríki jarli kvæðit, ok er þetta upphaf:

Bærr ert hróðr at heyra
hjaldr-örr um þik görvan.

Jarl launaði honum vel kvæðit, en ekki vil ek þik með mèr hafa, segir jarl, fur sakir Ólafs konúngs. Þorleifr bauð honum þá til sín. Þat þá Hallfreðr; var hann þann vetr með Þorleifi við lítit yndi, en þó veitti Þorleifr honum vel ok reyndist honum hinn bezti drengr. Um sumarit eptir bjó Hallfreðr skip sitt ok fór út til Íslands; var hann þá í förum um hríð ok varð aldri glaðr, svâ þótti honum mikit fráfall Ólafs konúngs, ok hvârki nam hann yndi á Íslandi nè í Noregi, hann fór austr til Svíþjóðar at vitja Auðgils sonar síns ok fjár þess, er hann átti þar at varðveita, því at þá var andaðr Þórarr [1]) mágr hans. Þá var Hallfreðr fertögr at aldri, þá er hann fór at sækja fè sitt til Íslands, ok ætlaði þá at staðfestast í Svíaveldi; þá var í för með honum bróðir hans, er hèt Þorvaldr ok Hallfreðr son hans; þeir höfðo útivist harða fur stormum ok áföllum, Hallfreðr jós at sínum luta ok var þó sjúkr mjök, ok eitt sinn er hann gekk frá austri, þá settist hann á beitiásinn, ok í því laust áfall hann niðr í skipit ok beitiásinn

[1]) þar, B.

á hann ofan. Þá mælti Þorvaldr: er þèr, bróðir! meint við vorþit? Hann kvað:

Hnauð við hjarta síðu
hregg blásinn mèr ási
mjök [hefir úðr [1]) at öðru
aflat báru skafli;
marr skotar mínum knerri
mjök er ek vâtr af nökkvi
munat [úrþvegin eira [2])
aldan sínu skáldi.

Þorvaldr þóttist sjá sótt hans, ok leiddi hann aptr á skipit ok bjó um hann, ok spurði hversu honum segði hugr um sóttarfar sitt. Hann kvað:

Rind brá [3]) hvítri hendi
hördúks [4]) um brá mjúka
fljóð gat fremdar jóði [5])
fjölerrin [6]) mèr [7]) þerra;
ef dauðan mik meiþar
morðheggs skulu [8]) leggja
áðr var ek úngu fljóði
út um borð at [9]) sútum.

Þá mælti Hallfreðr við Hallfreð son sinn: þèr vil ek gefa, frændi! sverðit konúngs naut, en aðra gripi, þá er Ólafr konúngr gaf mèr, skal leggja í kistu með mèr, ef ek öndumst hèr á skipinu. Þá kvað hann vísu þessa:

[1]) heferr yðr, *C.* hefir yðr, *S.* [2]) viþveginn, *B.* uþveginn, *C.* [3]) Kind mun, *B.* Rendr mun, *C.* Grund mun, *S, F.* [4]) hárdúks, *B.* [5]) œði, *F, Sk.* [6]) far leirinn, *B.* frá bærrinn, *C.* fjölerrit, *S.* [7]) sèr, *F, Sk.* [8]) norðheggs í land, *B.* [9]) með, *C.*

Ek munda nú andast
úngr var ek harðr í túngu
senn [1]) ef sálu minni
sorglaust vissa ek borgit;
veit ek at vætki of sýtig [2])
valdi guð hvar aldri
dauðr verðr hverr nema [3]) hræðumst
helvíti skal slíta.

Á þeim sama degi andaðist Hallfreðr, ok var lagðr í kistu ok gripir hans með honum, konúngs-nautar, sem hann hafði fur mælt, skikkja, hríngr ok hjálmr; síðan var kistunni skotit fyrir borð, kistan kom á land í eyjunni Helgu í Suðreyjum, ok fundo þjónostosveinar ábóta þess er þar rèð fur; þeir brutu kistuna ok stálu fènu, en söktu líki Hallfreðar í fen eitt; en ábótann dreymdi á næstu nótt, at Ólafr konúngr Tryggvason kom at honum, ok var reiðuligr ok mælti: þú átt illa þjónostosveina, þeir hafa brotit skip skálds míns ok stolit fè hans, en bundit stein við háls honum ok drekt í fen; nú hafit sannar sögur af þeim, ella mun yðr henda hver undr. Síðan hvarf konúngr frá honum. En ábóti vaknaði ok lèt taka sveinana. En þeir gengu þegar við, er á þá var borit, ok var þeim þá sú sök upp gefin; lík Hallfreðar fannst, ok var grafit virðuliga at kirkju; kalekr var görr af hrínginum en altara klæði af guðvefjar skikkjunni, en kertastikur or hjálminum. Þeir Þorvaldr tóko Ísland

[1]) sænn, *C.* [2]) sýtek, *B*, *C.* [3]) nemak, *C*,

um haustit, ok voro á Óttarsstöðum um vetrinn. Síðan fór Þorvaldr utan, en Hallfreðr setti bú saman ok bjó á Óttarsstöðum, var hann ok kallaðr vandræðaskáld sem faðir hans; hann varð göfugr maðr ok mikilmenni, ok ero margir menn frá honum komnir.

(*Dauði Sveins konúngs*).

265. Þá er Sveinn tjúguskegg Dana konúngr hafði skipat þann lut ríkis, er hann laut í Noregi við Ólaf Svía konúng ok Eirík jarl eptir Svöldrar orrosto, þá fór hann suðr til Danmarkar ok settist þar at ríki síno. Litlu síðarr fór hann með her sinn vestr til Englands á hendr Aðalráði konúngi Játgeirssyni, ok áttu þeir margar orostor ok höfðo ýmsir sigr. Um síðir flýði Aðalráðr konúngr landit, en Dana konúngr tók alt landit með hernaði ok sat þar nökkura vetr með Dana her.. En 9 vetrum síðarr enn vunninn var Ormrinn lángi af Ólafi konúngi Tryggvasyni fyrir Vindlandi, þá varð sá atburðr á Englandi, at Sveinn konúngr varð bráðdauðr um nótt í rekkju sinni, ok er þat sögn enskra manna, at Játmundr konúngr hinn helgi hafi drepit hann með þeim hætti sem Merkúrius risi drap Júlianum níðíng. En er þat spur Aðalráðr konúngr, hann var þá á Flæmíngjalandi, snèri hann þegar aptr til Englands, dreif þá til hans mikit fjölmenni, fèkk hann þá enn ríki sitt, ok andaðist 2 vetrum síðarr; tók þá konúngdóm í Englandi Játmundr sonr hans.

*(Dauði Eiríks jarls).*

266. Knútr son Sveins konúngs í Danmerk tók ríki eptir föður sinn, hann bjó her sinn vestr til Englands á því sama sumri sem Aðalráðr konúngr hafði andazt áðr um sumarit. Sendi Knútr konúngr þá orð Eiríki jarli Hákonarsyni mági sínum norðr í Noregi, at hann skyldi fara með honum vestr til Englands með her, þvíat Eiríkr jarl var frægr mjök af hernaði sínum, ok af því at hann hafði borit sigr ok orðstír or þeim 2 orostom, er snarpaztar höfðu verit á Norðrlöndum; önnur sú, er þeir Hákon jarl faðir hans börðust við Jómsvíkínga; en sú önnur, er Eiríkr barðist við Ólaf konúng Tryggvason. Þessarar orðsendíngar getr Þórðr Kolbeinsson í Eiríks drápu:

En hefk leyfð [1]) þar er lofða [2])
lof kenda frá ek sendu
at hjálm sömum [3]) hilmi
hjarls drottna [4]) boð jarli;
at skuldligazt [5]) skyldi
(skil ek hvat gramr man vilja)
endr at ásta fundi
Eiríkr kom [6]) þeirra.

Jarl brá skjótt við orðsendíng Knúts konúngs mágs síns, ok bjó ferð sína or landi, en setti eptir lands at gæta Hákon jarl son sinn, ok fèkk

[1]) leyfk, *B.* [2]) lofka, *B.* [3]) sonum, *C.* [4]) drottins, *B.* [5]) skyldugazt, *B.* [6]) Eiriks koma, *B.* Eirekr koma, *C.*

hann í hendr Einari Þambarskelfi mági sínum, at hann skyldi hafa landráð fyrir Hákoni, þvíat hann var eigi ellri enn 17 vetra; en Sveinn jarl hafði þá land hálft við Hákon. Eiríkr jarl kom til Englands til fundar við Knút konúng, ok var með honum, þá er hann vann Lundúnaborg. Þar feldi hann Úlfkel snillíng, þess getr Þórðr:

Gullkennir lèt gunni
græðis hests [1]) fur vestan
Þundr vâ leyfðr til landa
Lundún saman bundit;
fèkk regn þorinn rekka
rönn af [2]) þínga mönnum
ygglig högg þar er eggjar
Úlfkell [3]) blár skulfu.

Eiríkr jarl var á Englandi einn vetr ok átti nökkurar orostor, en annat haustit eptir ætlaðist hann til Rómferðar. En áðr hann hæfi þá ferð upp, fèkk hann sèr lækni at skera sèr úf, en í því er læknirinn miðaði til, hvar hann skyldi af skera, gekk at þeim maðr, segja sumir menn at þar væri Knútr konúngr, en hitt segja fleiri, at þar væri einn af þeim mönnum, sem voro á Orminum lánga með Ólafi konúngi; sá maðr mælti til læknissins: þar mundi ek nú nökkuru [4]) meirr. Læknirinn svarar: hversu meirr. Svâ, sagði hann, at eigi þyrfti optarr at skera af enn um sinn. Gekk þessi maðr þá brott; en læknirinn veik

[1]) hest, *B.* [2]) of, *C.* [3]) Úlfkels, *B.* [4]) ofarr, *b. v. B.*

eptir orðum hans, ok skar meira af úf jarlsins enn hann hafði áðr ætlat, blæddi þá svâ ákafliga at eigi varð stöðvat; fèkk Eiríkr jarl af því bana. Þá voro liðnir 15 vetr frá því er hann barðizt fur Vindlandi við Ólaf konúng Tryggvason.

### *Af brottkomu Ólafs konúngs af Orminum lánga.*

267. Nú skal víkja ræðunni til þeirra frásagna er þat sanna, at Ólafr konúngr hafi lífs á brott komizt or bardaganum, þá er Ormrinn var unninn. Sú er sögn Ástríðar konu Sigvalda jarls: at Ólafr konúngr væri fluttr til Vindlands eptir bardagann á þeirri sömu Vinda snekkju, sem furr er getit. Ólafr konúngr hafði mörg sár ok flest smá, nema tvav voro nökkuru mest; annat í enni af steinshöggi, en annat á hendi af öru fljúgandi [1]) í brynstúkuna, [ok hæfir þetta því [2]), sem ritat er fyrr, at Kolbjörn [3]) stallari ok nökkurir menn aðrir á Orminum sá at blóð rann fram undan brynstúku [4]) Ólafs konúngs. En Einarr Þambarskelfir sá [5]) þat síðarst til konúngs at blóðdropar stukku niðr á kinn honum undan hjálminum. Ólafr konúngr var með Ástríði ok var þá græddr; þar var hann kendr af mörgum mönnum, ok buðu ríkismenn at efla hann aptr í land sitt, en hann sagðist eigi vilja

[1]) flugan, *A. en S hefir;* örva flug. [2]) hvárttveggja við þat, *C, S.* [3]) Kolbeinn, *F.* [4]) *þessu bæta inní B. C. S. en vantar í A. alt frá merkinu.* [5]) sagði, *B.*

berjast við guðsifja sína, því at ek ætla, segir hann, at guð vili at þeir hafi nú ríkit í Noregi; má ek ok um þat hræddr vera, at guði hafi mislíkat mín ríkisstjórn. Þá bauð Ástríðr at hann skyldi hafa eignir þær ok ríki, er hún átti í Vindlandi ok Sigvaldi jarl átti ekki vald á. Hann kvaðst eigi þat vilja. Þá mælti Ástríðr: vill þú at ek fylgja þèr vestr til Englands á fund Aðalráðs konúngs, hann er svâ mikill vinr þinn, at hann mun veita þèr slíkan sóma sem þú vill af honum þiggja. Ólafr konúngr neitti því. Ástríðr mælti: hvert liðsinni má ek veita þèr, þat er þú vill af mèr þiggja? Hann sagðist vilja fara til Róms. Hún bjó þá ferð hans sem bezt ok fór sjálf með honum suðr til Rínar við hinn 15da mann, ok at skilnaði gaf hún honum klyfjaðan hest af fè ok margar aðrar góðar gjafar; hvarf Ástríðr þá aptr við 4ða mann, en 8 fèkk hún til fylgðar við Ólaf konúng; fór hann þá suðr til Róms; í þeirri ferð dreif til hans margt manna, því at hann gerðist túlkr fur öllum pílagrímum, þeim er til hans komu, ok sagðist hann vera [1]) norrænn kaupmaðr.

268. Ólafr konúngr fann pávann ok sagði honum alt sitt ráð, ok svâ hver hann var. Svâ lýkr Ástríðr sinni frásögn. Síðan fór Ólafr út um haf til Jórsala, ok fann þar patriarkann ok

[1]) pílagrímr ok, *bætir við C.*

Jórsala konúng, ok tóko þeir hann með hinni mestu sæmð, þótti þeim báðum mikils verdt um vænleik hans, þvíat þeir sá á yfirbragði hans, at hann mundi vera tíginn maðr ok ágætrar náttúru; hann segir þeim at hann hafi konúngr verit kallaðr á síno landi; þá buðu þeir honum at þiggja af sèr mikit ríki, en hann vildi þat eigi; gáfu þeir honum þá tvær borgir ok 3 kastala, ok þat þektist hann, ok tók þó múnks klæði.

*Ólafr konúngr sendir Erlíngi Skjálgssyni knif ok belti.*

269. Þá er Ólafr Tryggvason hafði verit 5 vetr á braut or Noregi, þá fóro enskir menn nökkurir til Jórsala. En er þeir komu aptr í England, færðo þeir Aðalráði konúngi bók þá, er Ólafr Tryggvason hafði fengit þeim í hendr, ok sendt Aðalráði konúngi með skírum jartegnum. Á þeirri bók var saga Ólafs konúngs Tryggvasonar ok 6 [1]) aðrar heilagra manna sögur. Þar var skírt sagt, hversu Ólafr konúngr komst í braut or bardaganum ok síðan frá ferðum hans, alt á sömu leið sem Ástríðr hafði sagt ok nú var ritat, ok því framarr at þar var greiniliga sagt um Vinda snekkju þa, er Ólaf konúng flutti til lands, at þar væri á Ástríðr, systir Geirn drottníngar, er átt hafði Ólafr konúngr, ok Dixin, vinr Ólafs konúngs, er verit hafði ráðgjafi Geirn drottníngar; svâ ok þat at þetta hefði verit ráðagerð Ólafs konúngs ok þeirra allra saman, þá

1) 7, F.

er þau lögðu tysvar til tals viðhann um daginn, at þau skyldi þar liggja einskipa [1]) um daginn, þar til er lyktaði bardaganum. Sagði þar ok svâ, at síðan þau komu til Vindlands, höfðu þau verit 2 daga öll samt í Buslaborg. Svâ er ok sagt at nærr þeim tíma, er þessi bók kom til Aðalráðs konúngs á Englandi, þá kom þar einn skynsamr maðr ok skilgóðr, þó at eigi sè hèr nefndr, austr til Noregs, er sendr sagðist vera [af Ólafi Tryggvasyni [2]) til Erlíngs mágs hans ok Ástríðar systur hans; sá maðr sagði at Ólafr konúngr lifði ok var fur utan haf í múnklífi. Þessi maðr hafði, at sanna sögu sína, fíngrgull, kníf ok belti at færa Ástríði, ok kvað Ólaf bróður hennar hafa sent henni. Ástríðr sagði svâ, at hún kendi gjörla at Ólafr konúngr hafði átt þessa gripi.

*(Viðreign Ólafs Haraldssonar ok jarla, Sveins ok Hákonar).*

270. Þá er Sveinn jarl Hákonarson ok Hákon Eiríksson rèðu Noregi, gerðu þeir sætt við Erlíng Skjálgsson, ok var bundin með því at Áslákr son Erlíngs fèkk Gunnhildar dóttur Sveins jarls; skyldo þeir feðgar Áslákr ok Erlíngr hafa veizlur allar þær, er Ólafr konúngr hafði fengit þeim. Gjörðist Erlíngr þá fullkominn vin jarlanna, ok bundu þat svardögum sín á

[1]) við eyna, *bætavið C. S. F.*  [2]) *b. inni C. F; ø. í. A.*

milli. En er jarlarnir Sveinn ok Hákon höfðu 2 vetr ráðit Noregi, síðan Eirikr jarl fór or landi, þá kom til Noregs vestan um haf Ólafr Haraldsson; [han lèt út af Englandi ok kom af hafi við ey þá, er Sæla hèt, útfur Staði[1]); sigldi hann þaðan suðr til Úlfasunda; en er hann kom suðr yfir Fjalir, þá hèlt hann inn af þjóðleið; hann hafði 2 knörru ok 60 hermanna á hvorum; þeir snèru inn til Sauðúngssunda ok lögðust þar. Þar í sundinu tók Ólafr konúngr höndum Hákon jarl Eiríksson við marga menn, ok gaf Ólafr konúngr þeim öllum grið með þeirri sættargerð, at Hákon jarl gaf Ólafi konúngi upp ríki þat, er hann þóttist eiga í Noregi. Vann jarl konúngi eiða, at hann skyldi aldri berjast ímóti honum, ok eigi verja Noreg með úfriði ímóti honum nè sækja hann. Þat var 14[2]) vetrum síðarr enn Svöldrar bardagi. Um vârit eptir börðust þeir Ólafr konúngr ok Sveinn jarl Hákonarson fur Nesjum á pálmdrottinsdag. Erlíngr Skjálgsson var í þeim bardaga með Sveini jarli ok Einarr Þambarskelfir ok margir aðrir lendirmenn. Ólafr konúngr hafði lið minna ok fèkk þó sigr. En Sveinn flýði ok fór síðan or landi á fund Svía konúngs mágs síns ok sagði honum frá skiptum þeirra Ólafs digra; fór Sveinn jarl í Austrveg, ok herjaði í Garðaríki um sumarit, en um haustit, er hann kom aptr til Svíþjóðar, tók hann sótt þá

1) Han lenði fyrst við eyna Seljo, *S.* 2) 17, *C.*

er hann leiddi til bana. En Ólafr Haraldsson var tekinn til konúngs í Noregi, sem segir í sögu hans.

(*Sögn Þórðar Sjárekssonar frá Ólafi konúngi Tryggvasyni.*)

271. Maðr er nefndr Þórðr, hann var Sjáreksson, íslenzkr at ætt, hann fór af landi á braut á dögum Ólafs konúngs hins helga, ok ætlaði til Jórsala. En er hann kom út yfir haf í Sýrland, þá var þat einn dag, at hann gekk fram hjá borg einni ok margir pílagrímar með honum; hann sá hvar maðr stóð mjök hárr ok mikill í einu vígskarði borgarinnar; sá maðr var í kufli ok studdist við múrinn. Kuflmaðrinn spurði á danska túngu, ef nökkurir væri Norðmenn í þeim flokki; þeir sögðu þar vera Norðmenn. Sagði Þórðr at hann var af Íslandi. Kuflmaðrinn sagði sik vita hvar þat land var, ok spurði at Hjalta Skeggjasyni. Þórðr sagðist vera mágr Hjalta. Þá spurði hinn mikli maðr hvert þeir ætlaði at fara. Þórðr segir at þeir ætlaði til Jórsala. Hverfit þèr aptr, segir kuflmaðrinn, því at þángat er ekki fært fur úfriði. Þá spurði kuflmaðrinn, hverr konúngr væri at Noregi. Þórðr segir, at Ólafr var Haraldsson. Kuflmaðrinn mælti: ber þú Hjalta Skeggiasyni kveðju mína, er þú kemr til Íslands. Þórðr svarar: hvat skal ek Hjalta til segja, hverr honum sendir kveðju? Ekki segir ek til nafns

míns, segir kuflmaðrinn; en hitt mátt þú segja, at sá sendir honum kveðju, er talaði við hann at Hlöðum í Noregi, ok hèlt ek á einu sverði, en Hjalti tók sínum höndum um sverðit meðal handa mèr; fór hann þá út til Íslands, ok sámst við aldri síðan. Eptir þessa viðræðu skilðu þeir Þórðr tal sitt. Síðan snèri hann aptr sinni ferð fyrir úfriðar sakir. En er hann kom til Íslands, sagði hann Hjalta þessa sögu. En Hjalti sagði svâ, at hann hefði þetta mark gert við Ólaf konúng Tryggvason, áðr þeir skilðu at Hlöðum, til jartegna ef þeir sendist síðan orð ímilli. Þórðr Sjáreksson var maðr merkr, skynsamr ok skáld; hann orti erfidrápu um Ólaf konúng hinn helga, sú er köllut Róða-drápa.

*(Viðskipti Ólafs konúngs ok Erlíngs).*

272. Þá er sannspurt var í Noregi andlát Sveins jarls Hákonarsonar, gengu margir ríkismenn til handa Ólafi konúngi Haraldssyni, þeir er eigi vildo honum þjóna, meðan þeir ætlaðu jarl á lífi. Sat Ólafr konúngr þann vetr norðr í Niðarósi. En um vârit eptir fór hann austr í land; ok er konúngr lá í Karmsundi, þá fóro orð í milli þeirra Erlíngs Skjálgssonar, at þeir skyldo sættast, ok var lagðr sættarfundr með þeim í Hvítíngsey. En er þeir tóko at tala um sætt sína, þá beiddist Erlíngr at hafa veizlur þær allar, er Ólafr konúngr Tryggvason hafði fengit honum. En konúngr vildi enga sætt við

hann gera, nema hann rèði einn bæði at miðla veizlur at sjálfræði sínu ok svâ um aðra luti. Erlíngr var tregr til at játa því, en við bæn frænda sinna ok vina, gekk hann til handa Ólafi konúngi með þeim skildaga, sem konúngr rèð upp at segja; skildust við þat ok voro sáttir at kalla. Erlíngr Skjálgsson hèlt svâ ríki sínu, at alt norðan frá Sognsæ ok austr til Líðandisness rèð hann öllu við bændr, en veizlur konúngs hafði hann miklu minni enn fyrr; en þó stóð sú ógn af honum, at engi maðr mælti nè gerði annat enn hann vildi, ok ekki hèldust þar við sýslumenn eðr ármenn konúngs, þó at hann skipaði þær veizlur, er Erlíngr hafði furr haft; þótti Ólafi konúngi þá ofgángr at um ríki Erlíngs, ok stefndi honum á sinn fund; áttu þá góðgjarnir menn lut í, þeir er voro beggja vinir, ok báðu þá sættast; kom þá enn svâ við þeirra fortölur, at þat samdist með þeim, at Erlíngr skyldi hafa slíkar allar veizlur ok ekki meiri sem konúngr hafði áðr skipat honum, en niðrsettust allar sakar, þær er Ólafr konúngr hafði á Erlíngi; skyldi þá ok Skjálgr son Erlíngs vera með Ólafi konúngi; en Erlíngr skyldi frjálsa láta fur sèr þá menn, er konúngr skipaði í sýslur sínar eðr ármenníngar; skilðu þeir þá enn svâ, at þeir hètu sáttir. Erlíngr fór þá heim til búa sinna ok hèlt teknum hætti um allan sinn ríkdóm. Fór þá svâ fram þar til er Erlíngr ok synir hans

drógu her at sèr eptir víg Selþóris; fóro þá með fimtán hundrut manna norðr á Ögvaldsnes ok tóko Ásbjörn Selsbana or fjötrum ok valdi konúngs; fóro þá skipti þeirra sem segir í sögu Ólafs konúngs. Þaðan af hófst með þeim at nýju sundrþykki, ok vóx til fulls fjandskapar.

*(Orðsendíngar milli Knúts konúngs ok Ólafs konúngs).*

273. Þá er Ólafr konúngr hinn helgi hafði ráðit Noregi 10 vetr, síðan Sveinn jarl stökk or landi, komu [til Ólafs konúngs [1]) sendimenn Knúts hins ríka með þeim erendum, at Knútr kallaði sèr ríki alt í Noregi; fundo þeir Ólaf konúng í Túnsbergi, ok færðu honum brèf Knúts konúngs, þau er þetta sögðu. En Ólafr konúngr neitaði at gefa upp ríkit; fóro sendimenn við þat aptr. En Ólafr konúngr dvaldist í Víkinni um sumarit, ok sat í Sarpsborg um vetrinn, en Knútr konúngr í Danmerk. Þann vetr reið Önundr konúngr [2]) yfir Vestra - Gautland ok hafði meirr en 30 hundraða manna; hittust þeir Ólafr konúngr [3]) í elfi við Konúngahellu, ok höfðu ráðagerðir með sèr. Þá er Knútr konúngr var farinn með her sinn vestr til Englands, skildust þeir mágarnir vinir; fór Önundr konúngr þá upp aptr á Gautland; en Ólafr konúngr fór norðr í Víkina, ok svâ norðr með landi; hann lá lengi ok beið byrjar í Eikunda-

[1]) vestan um haf af Englandi, *C.* [2]) Svía konúngr, *C.*
[3]) um vârit, *b. v. C.*

sundi; spurði konúngr þá at Erlíngr Skjálgsson ok Jaðarbyggvar lágu í liðsamnaði ok höfðu her manns. Erlíngr átti skeið mikla, hún var 2 rúm ok 50 ok þó mikil at því, hana var hann vanr at hafa í víking eðr í stefnuleiðángr, ok voro þar á 200 manna eðr meirr.

(*Herför Knúts konúngs til Noregs*).

274. Ólafr konúngr sigldi or Eikundasundi þegar byr gaf norðr um Jaðar; fór konúngr þá at veizlum um Hörðaland. Sat hann um vetrinn eptir norðr í kaupángi; sá var hinn 15 vetr konúngdóms hans. *Bjóst* Ólafr konúngr um vârit or Niðarósi ok bauð her út um alt land; fór konúngr þá suðr með landi. En er hann kom á Hörðaland, spurði hann þau tíðindi at Erlíngr Skjálgsson var farinn or landi vestr til Englands á fund Knúts konúngs með miklu liði, hafði hann haft skip 4 eðr 5, hann hafði sjálfr skeiðina miklu. Þetta sumar herjaðu konúngarnir Ólafr ok Önundr í Danaveldi, sem segir í sögu Ólafs konúngs; lèt Ólafr konúngr eptir skip sín um haustit, en fór landveg norðr i Noreg, ok sat um vetrinn í Sarpsborg fram um jól, en fór síðan til Upplanda. Erlíngr *Skjálgsson ok synir hans allir höfðo verit um* sumarit í her Knúts konúngs; fór Erlíngr um haustit með liði síno norðr til Noregs ok með honum sendimenn Knúts konúngs, þeir er land ok þegna sviku undan Ólafi konúngi með fègjöf-

um ok heitum fögrum af hendi Knúts; gerðu þeir þetta í trausti Erlíngs. Ólafr konúngr fór um vârit af Upplöndum ofan í Víkina; dvaldist hann lengi í Túnsbergi, ok sendi eptir skipum sínum til Svíþjóðar. Snemma um sumarit kom Knútr konúngr með allan her sinn til Noregs; hann hafði eigi færa enn 1200 skipa; sigldi hann öllum herinum út af Límafirði ok stefndi norðr til Víkrinnar; hann fór skyndiliga ok lá ekki við land austan [1]) fjarðar; var Ólafr konúngr þá í Túnsbergi, er Knútr konúngr sigldi hit ytra um Foldina. Lá Knútr í Eikundasundi nökkura hríð, kom þar til hans Erlíngr Skjálgsson með mikit lið, ok bundu þeir Knútr konúngr þá enn vináttu sína af nýju, var þat í heitum við Erlíng af Knúti, at hann skyldi hafa land til forráða milli Staðar ok Rýgjarbits. Fór Knútr konúngr þá alt norðr til Þrándheims, ok lagði alt land undir sik, þvíat engi maðr mælti honum ímót; gaf Knútr konúngr þá alt land til yfirsóknar í Noregi Hákoni jarli Eiríkssyni frænda sínum. Síðan fór Knútr konúngr suðr með landi, ok átti þíng í hverju fylki, var hann á hverju þíngi til konúngs tekinn ok svarit honum land.

275. Þá er skip Ólafs konúngs komu til hans austan af Svíþjóð, hèlt hann þeim inn í Oslóarfjörð ok upp í vatn þat er Rönd [2]) heitir, hafðist hann þar við um sumarit, þar til er Knútr

[1]) innan, *C.* [2]) *þannig A. C.*

konúngr var farinn suðr til Danmerkr, þá hèlt Ólafr konúngr skipum sínum út til Túnsbergs. Síðan bjó hann ferð sína norðr í land með þat lið er honum vildi fylgja, hafði hann þá 13 skip, hèlt hann þá út eptir Víkinni, þat var öndverðan vetr, þeim byrjaði heldr seint, lágu þeir í Sóleyjum mjök lengi, ok spurði konúngr þar, at Erlíngr hafði liðsamnat mikinn á Jaðri, ok skeið hans lá fur landi albúin ok fjöldi annarra skipa, er bændr áttu. Konúngr hèlt austan liði síno ok lá í Eikundasundi um hríð; spurðu þá hvârir til annarra. Fjölmenti Erlíngr þá sem mest.

(*Orrusta milli Ólafs konúngs ok Erlíngs*).

276. Tómasmesso dag fur jól þegar í dagan lèt Ólafr konúngr út or höfninni, var þá allgóðr byrr ok heldr hvass, fór þá þegar njósn hit efra um Jaðar, er konúngr sigldi hit ytra; lèt Erlíngr þegar blása öllu liði síno til skipanna, dreif þá alt fólk til skipa, ok bjóst til bardaga. Skip konúngs bar skjótt inn um Jaðar, stefndi konúngr þá innleið, þvíat hann ætlaði inn í Fjörðu at fá sèr þar lið ok fè. Erlíngr sigldi eptir honum ok hafði her manns ok fjölda skipa; voro skip þeirra örskreið [1]), er þeir höfðu ekki á nema vâpn ok menn; gekk skeiðin Erlíngs miklu meira enn önnur skipin, þá lèt hann hefla ok beið liðs síns. Ólafr konúngr sá at þeir Erlíngr sóttu eptir mjök, þvíat skip konúngs voro

[1]) örskeið, *C.*

sett mjök ok sollin, er þau höfðo flotit á sjó alt sumarit ok haustit ok um vetrinn þar til. Konúngr þóttist sjá at liðsmunr mundi allmikill vera, ef þeir mætti öllu senn liði Erlíngs, lèt hann þá kalla skip af skipi, at þeir skyldi láta síga seglin, ok þó sem seinst, en svipta af neðan handrifi [1]; var þá svâ gert. Erlíngr sá brátt at lægði seglin þeirra, kallaði hann þá, ok hèt á lið sitt, bað þá sigla meira, sèð [2]) þèr eigi, segir hann, at lægir seglin þeirra, svâ draga þeir undan oss. Lèt hann þá hleypa or heflum segli á skeiðinni, gekk hún þá skjótt fram frá öðrum skipum. Ólafr konúngr stefndi fur innan Bókn, fal þá sýn milli þeirra; síðan bað konnúngr leggja seglin, ok róa skipunum fram í sundit, lögðu þeir þá saman skipunum; gekk þar neshöfði nökkurr fur utan, svâ at Erlíngr sá eigi skip þeirra, er hann sigldi at sundinu, furr enn konúngsmenn rèru öllum skipunum at þeim, tókst þar hin snarpazta orosta, fèllu þar svâ fullkomliga allir menn Erlíngs, þeir er á voro skeiðinni, at hann stóð einn uppi ok varðist svâ prýðiliga, at engi maðr vissi dæmi til, at einn maðr hefði staðit jafnlengi við svâ margra manna atsókn, ok aldri leitaði hann til undankvâmu, furr enn konúngr bauð honum at gánga til handa, en hann játaði því. Gaf hann þá upp vörnina, ok tók af sèr hjálminn, ok var þá drepinn ber-

[1]) landrifi, *S.* [2]) sjái, *C*, *S.*

liga at úvilja Ólafs konúngs, sem segir í sögu hans.

(*Lýsíng Erlíngs*).

277. Þat er mál manna at Erlíngr hafi verit mestháttar maðr í Noregi, þeirra er eigi báru tignar nafn, furst fur sakir kyns ok kvânfángs, atgervi ok íþrótta, eigna ok auðar, risnu ok als ríkdæmis; hann var ok hollr ok heilráðr öllum sínum undirmönnum, þeim er fullkomliga gáfu sik undir hans vald ok yfirboð. En svâ var mikit hans ríki ok yfirgirnd við sèr ríkari menn, at hann þoldi engis höfðíngja undirmaðr at vera, nema hann hefði alt þat, er hann beiddist, ríki ok aðra luti, en færi því öllu fram sem hann vildi. Var honum mikil úgipta í sínum ofsa, svâ at hann geymdi eigi hófstillíngar um sjálfs síns framferðir, sem raunir bar á, þá er hann sigldi á skeið sinni með ofmiklum skunda ok farfýsi frá Ólafi konúngi Tryggvasyni mági sínum, þeim manni sem hann vildi samgjarna [1]) fylgt hafa sem at lifa. En nú í annat sinn er hann hrapaði svâ mjök til síns dauða með vanstiltri ákefð, at hann sigldi því sama skipi lángt fram frá öllu liði síno í hendr sínum úvinum. Var þat eigi undarligt þó at hans ofsi dræpi hann, er hann ætlaði sèr, einn bónda son, at deila kappi við svâ ágætan konúng sem Ólafr Haraldsson var, ok hafði áðr þó gjört sætt við hann tysvar eðr optarr; var ok mágsemd með þeim, svâ at

[1]) jafngjarna, *C*, *S*.

þau voro þrímenníngar [1]) Ólafr konúngr ok Ástríðr Tryggvadóttir, kona Erlíngs. Þessi var hinn 14di vetr frá Nesjaorrostu.

*(Frá Einari Þambarskelfir).*

278. Eptir Nesjaorrosto fór Einarr Þambarskelfir or landi austr til Svíþjóðar með Sveini jarli mági sínum; en eptir andlát jarls var hann með Ólafi Svíakonúngi þar til er hann andadist; síðan fór hann aptr til Noregs, ok fann Ólaf konúng Haraldsson austr í landi, gjörðu þeir þá sætt sína með því móti, at Einarr skyldi fara norðr til Þrándheims ok hafa eignir sínar allar, ok svâ þær jarðir, er Bergljóto höfðo heiman fylgt; fór Einarr þá norðr ok settist at búum sínum, en þjónaði ekki konúngi, hèlt hann sik ok menn sína vegsamliga, þó at hann hefði ekki konúngs veizlur, þvíat Einarr átti stórmiklar eignir. En þá er Knútr konúngr lagði Noreg undir sik, ok setti þar Hákon jarl til landsgæzlu, þá rèðst Einarr til lags við Hákon jarl mág sinn, tók hann þá upp veizlur þær allar, er hann hafði fyrr haft, þá er jarlar rèðu landi. Knútr konúngr gaf Einari stórar gjafar ok batt hann svâ í kærleikum við sik, hèt hann því at Einarr skyldi vera mestr ok göfgaztr ótíginna manna í Noregi, meðan hans vald stæði yfir, en lèt þat fylgja at honum þótti Einarr bezt til fallinn at bera tignarnafn í Noregi eðr Eindriði

[1]) syskin, *S.*

son hans fur ættar sakir, ef jarlsins væri eigi við kostr.

(*Ólafr konúngr fer austr til Garðaríkis*).

279. Eptir fall Erlíngs Skjálgssonar hèlt Ólafr konúngr skipum sínum norðr með landi alt norðr um Stað; en er hann spurði at Hákon jarl fór með her mikinn norðan ímóti honum, þá snèri hann austr með landi; birtist þá brátt, hverir hans menn höfðo honum með trúleika þjónat, því at þá skildist margt lið við hann, ok fór þat til Hákonar jarls, svâ at konúngr hafði eigi meirr enn 6 skip, þá er hann kom inn í Róðrarfjörð [1]), lagði hann at í Valldali [2]), ok setti þar upp skip sín; síðan fór konúngr upp eptir dalnum með mörgum ok miklum jartegnum, er guð gerði fur hann, ok þaðan upp á Lesjar, sem segir í sögu hans; fór Ólafr konúngr austr landveg alt þar til er hèt Neriki, þar dvaldist hann lengi [um vàrit, ok fèkk sèr þar skip, ok fór hann [3]) um sumarit austr í Garðaríki, ok var honum þar allvel fagnat af Jarizleifi konúngi ok Íngigerði drottníngu, dvaldist hann þar um vetrinn, ok hafði miklar áhyggjur í skapi, hvat hann skyldi ráða taka, því at Jarizleifr konúngr bauð hönum at dveljast þar svâ lengi sem hann vildi, ok taka af sèr mikit ríki til forráða; hugsaði konúngr þetta boð fyrir sèr; þat hafði hann enn í ráði at leggja niðr konúngs tign ok fara út til Jórsala eðr í aðra helga staði, ok gánga í

[1]) Tetrarfjörð, *S.* [2]) Valldahólini, *S.* [3]) *v. í A.*

klaustr, svâ sem þá sögðu nökkurir menn at gört hefði Ólafr konúngr Tryggvason frændi hans; en hinu sveif honum lengstum í hug, ef nökkut fengist efni til, at hann mætti ná ríki síno í Noregi. En er hann mæddist í slíkum áhyggjum, þá skaut hann öllu síno efni á vald ok vilja allsvaldanda guðs, at hann skyldi skjóta því ráði í hug honum, er hann sæi honum bezt gegna ok öllu hans undirfólki; hann vakti laungum um nóttum ok bað til guðs góðgjarnliga fur öllum lýð, svâ fur úvinum sínum sem fur vinum. Þat var á einni nótt, er Ólafr konúngr lá í rekkju sinni mæddr af miklum áhyggjum, ok hafði súngit bænir sínar, sem hann var vanr, þá seig á hann svefn ok þó svâ lauss, at hann þóttist vaka ok sjá öll tíðindi í húsinu, honum sýndist maðr standa fur rekkjuni mikill ok vegligr, ok hafði klæðnat ágætan, hugði konúngr þat í svefninum, at þar væri kominn Ólafr konúngr Tryggvason. Sá maðr mælti til konúngs: ert þú mjök hugsjúkr um ráðaætlan þína, þat þikkir mèr undarligt, hví þú vâlkar slíkt fyrir þèr, hvert ráð þú skalt upp taka, svâ ok ef þú ætlast þat fur at leggja niðr konúngstign, þá er guð hefir gefit þèr, slíkt hit sama at vera hèr ok þiggja ríki af útlendum höfðíngjum ok þèr úkunnum; far þú heldr aptr til ríkis þess, er þú hefir at erfðum tekit, ok ráðit lengi fur með þeim styrk er guð gaf þèr, ok lát eigi undirmenn þína hræða þik; þat er konúngs frami at sigrast á úvinum sínum, en vegligr

dauði at falla í orosto með liði síno, eðr ifar þú nökkut um þat, at þú hafir eigi rètt at mæla í yðarri deilu? eigi skaltu þat gera at dylja sjálfan þik sanninda, mátt þú fur því djarfliga sækja til landsins, at guð mun bera þèr vitni um at þat er þín eiga. Síðan vaknaði Ólafr konúngr ok þóttist sjá svip mannsins er í braut gekk. Þakkaði konúngr guði þessa vitran ok herði hug sinn þaðan í frá, ok einstrengði þá ætlan fur sèr at fara aptr til Noregs, svâ sem hann hafði verit áðr fúsaztr til, ok hann fann at allir hans menn vildu helzt vera láta; taldi hann þá þat í huginn at landit mundi vera auðsótt, er höfðíngjalaust var, svâ sem hann hafði spurt af þeim mönnum, er *þá voro nýkomnir af Noregi*, at Hákon jarl hafði týnzt í hafi með alla skipshöfn sína, er hann fór vestan af Englandi. En er hann birti þessa ráðagerð mönnum sínum, þá tóko allir því þakksamliga. Nú er þat eigi útrúanligt, at guð hafi þessa sína furskipan birt konúngi fur Ólaf Tryggvason frænda sinn, þvíat þessi Ólafr lagði alla stund á með guðligu kostgæfi at endrbæta ok algöra helga kristni, þá er Ólafr Tryggvason hafði grundvallat at eins, ok leiddi Ólafr Haraldsson alt fólk til heilagrar trúar í Noregi, þvíat mikill luti þess lýðs hafði aptr horfit til heiðíngligrar skurðgoða villu frá rèttum átrúnaði, þeim er hinn furri Ólafr hafði kent þeim; voro þeir ok mjök líkir í mörgum framferðum:

hvârtveggi rèttdæmr ok refsíngasamr við illmenni, ok gerðu at því engan manna mun, ef eigi tjáði at lokka með blíðskap; ok svâ sem höfðíngjar veittu Ólafi Tryggvasyni ofsókn fur ágirni ok öfund, ok þat er hann vildi eigi þola rángligt yfirboð útlendra höfðíngja eðr enn heldr hervíkínga yfir síno ættlandi, svâ var engi önnur sök til, er landsmenn gerðu uppreist ímóti Ólafi konúngi Haraldssyni, enn þeir þoldu honum eigi rèttdæmi, en hann vildi heldr láta líf ok ríki enn rèttindi. Má því ok trúa at Ólafr Tryggvason hafi þetta [1]) guðs erendi birt Ólafi konúngi Haraldssyni, sem honum sýndist í svefninum, þvíat mátti hann fur aldrs sakir hafa sèt Ólaf Tryggvason, áðr hann fór til Vindlands, svâ at hann mætti kenna hann, ef hann sæi hann vakandi [2]). Ólafr konúngr lèt eptir í Garðaríki Magnús son sinn, en konúngr bjó skip sín um vârit, ok sigldi austan til Svíþjóðar, en fór síðan landveg um sumarit norðr í Noreg; birtust honum þá enn í þeirri ferð merkiligir fyrirburðir bæði vakanda ok sofanda, sem segir í sögu hans.

280. Eigi er þegjanda yfir þeirri vitran, er Ólafi konúngi sýndist í svefni, þá er hann lá með her sinn í Væradal í Þrándheimi, nýkominn austan um fjall hina nærstu nótt fur bardagann á Stiklarstöðum [3]). Konúngr vakti laungum um nóttina, ok bað til guðs fur sèr ok liði sínu

[1]) verit ok, C. [2]) þannig C. vakanda, *A*, *S*. [3]) Stiklastöðum, C.

ok sofnaði lítt, rann á hann höfgi móti degi, en er hann var sofnaðr, sá hann standa nærr sèr vârn drottinn Jesúm krist, skínanda með óumræðiligum bjartleik; en er konúngi þótti í svefninum síga á sik svâ sem nökkurr úmegins þúngi fur ústyrkleik mannligrar náttúru af vâveifligum ótta svâ mikillar ok háleitrar sýnar, þá talaði lifandi guð blíðliga til hans með þessum orðum: kom þú, minn kæri [1])! því at nú er tími at þú neytir ok njótir hinna sætaztu ávaxta þinna erfviðis launa, er þú hefir aflat með þínu nytsamligu starfi ok ástundan. Því nærst vaknaði enn heilagi Ólafr konúngr með meira hugarins fagnaði enn frá megi segja af þessi himneskri huggan ok furheiti, ok svâ styrktr af blíðskap ok bjartleik guðligrar sýnar, þeim er í geislaði hans hjarta af þessi háleitu vitran; gekk hann glaðr til bardaga móti sínum mótstöðumönnum, ok fekk á þeim fundi ágætt umkeypi [2]), því at hann keypti hit himneska ríki með jarðligu, ok avðlaðist sigrs kórónu fur úthellíng síns blóðs, því at særðr til dauða fur heilagt rèttlæti af óvinum sannleiksins, gekk hann fram af herfiligum herbúðum þessa vesala lífs í háleita himinríkis höll, sjáandi konúng allra konúnga í sinni dýrð, vârn drottinn Jesúm krist, ok með honum samríkjandi í eilífum friði ok fagnaði utan enda [3]).

281. Einarr Þambarskelfir bar þúngan

[1]) samfèlagi, *b. v. C.* [2]) *þannig A, C.* [3]) amen, *b. v C; S. hefir þennan kapitula styttra án vitranar.*

trega ok lángan harm eptir Ólaf konúng Tryggvason, sem margir aðrir hans ástvinir, því var Einarr sjaldan fullglaðr, ok sat lengstum um kyrt, síðan hann kom austan or Svíþjóð, ok sættist við Ólaf konúng hinn helga. [Eitt sumar fór Einarr or landi, furst vestr um haf til Englands ok þaðan alt suðr til Róms, var hann á brottu einn vetr, ok kom heim annat sumarit, ok settist þá enn um kyrt, en þó hafði hann nú þegit veizlur stórar í Þrándheimi af Hákoni jarli, sem furr er ritat; hófst þá höfðíngskapr Einars af nýju, svâ at hann var þá göfgaztr allra lendra manna í Þrændalögum; en er þat var sannspurt, at Hákon jarl hafði týnzt í hafi, svâ at engi lutr kom til landa, sá er á því skipi var, þá bjó Einarr ferð sína vestr til Englands um vârit, þá er Ólafr hinn helgi fór austan or Görðum; en er hann fann Knút konúng, fagnaði konúngr honum vel; síðan bar Einarr upp erendi sín fur konúng, sagði at þá var hann kominn at vitja heita þeirra, er Knútr konúngr hafði heitit honum jarlsnafni í Noregi, ef Hákonar jarls væri eigi við kostr. Konúngr svarar: þat mál veit nú alt annann veg við, segir hann, ek hefir nú sent menn ok jartegnir mínar til Danmerkr, at ek hefir gefit Sveini syni minum alt ríki i Noregi, ok skal hann þar vera konúngr yfir, en ek vil halda við þik vináttu, skaltu þá hafa slíkar nafnbætr sem þú hefir burði til ok vera lendr maðr. Sá Einarr þá ætlan Knúts konúngs

alla, at hann vildi at Einarr ok aðrir höfðíngjar berðist við Ólaf konúng, en hefði engan framgáng ríkis síns þá heldr enn áðr, þó at þeir feldi hann frá landi [1]). Mintist Einarr þá enn Ólafs konúngs Tryggvasonar, hversu mikinn skaða biðu allir Noregsmenn, þá er þeir mistu slíks höfðíngja sem hann var, þvíat aldri rauf hann svâ sín heit við vini sína. Vendi Einarr því hjartaligri ástúð til Ólafs Tryggvasonar sem hann reyndi heldr, at hann hafði verit umfram flesta höfðíngja at drengskap ok framkvæmd allra þarfsælligra furheita við sína menn, svâ at hann sparði við þá menn, er honum þjónaðu með trúleik, enga sæmd, þá er honum var þeim veitandi; hugsaði Einarr at Noregsmenn mundi hafa þau ráð með höndum á því sumri móti Ólafi konúngi, ef hann kvæmi austan, at honum munði óþurft í at verða þeim samþykkr þar um; bjóst hann vestan heldr tómliga, ok fór þetta sem hann ætlaði, at hann kom eigi furr austr til Noregs enn Ólafr hinn helgi var fallinn. Er þat mál manna æ síðan at Einarr bar gæfusamliga til, er hann barðist aldri móti Ólafi konúngi síðan þeir sættust, varð ok Einarr furstr

[1]) *S. hefir þetta frá [ öðruvísi þannig:*

Einar fór or landi suðr til Róms, ok í þeirri ferð fann hann Knút hinn ríka á Englandi, ok þá af hönum stórar fègjafir ok fögur fyrirheit, ef hann byndist í at berjast ímóti Ólafi konúngi Haraldssyni. Þeir skildu at því, fór Einar þá norðr í Noreg, ok settist at búum sinum. En litlu síðar rauf Knútr konúngr öll sín heit við Einar.

ríkismanna til þess at halda upp helgi Ólafs konúngs með allri sæmð ok virðíng.

282. [Sveinn son Knúts konúngs, hann var kallaðr Sveinn Alfífuson, hann var [þá kominn austan í Víkina, er orostan var á Stiklarstöðum, var hann síðan til konúngs tekinn í Noregi [1]). En er Sveinn Alfífoson hafði 5 vetr ráðit landi með lítilli vinsæld af landsmönnum, þá spurðust þau tíðindi til Noregs, at fur vestan haf efldi flokk Tryggvi son Ólafs konúngs Tryggvasonar ok Gyðu ensku; þá var Sveinn konúngr í Þrándheimi, er hann spurði þessi tíðindi, bauð hann þegar út leiðángri ok stefndi til sín lendum mönnum. Einarr Þambarskelfir settist heima ok vildi eigi fara með Sveini konúngi, fór Sveinn konúngr, þá er hann var búinn, með lið sitt suðr með landi ok alt austr í Vík. Tryggvi hèlt liði síno vestan um sumarit, ok kom af hafi við Hörðaland, ok spurðu þá hvârir til annarra, hèlt Sveinn konúngr þá liði síno sunnan með landi, en Tryggvi hèlt norðan ímóti. Svâ segir í Tryggvaflokki:

Tír eggjaðr [fór Tryggvi [2])
(tókst morð af því) norðan
en Sveinn konúngr sinni
sunnan ferð at gunni;
nærr var ek þavsnum þeirra
þar bar skjótt at móti
herr týndi þar harða
hjör göll var þat fjörvi.

[1]) *v. í S.*  [2]) hjó tiggi, *C.*

Fundr þeirra varð fur norðan Jaðar í Sóknasundi fur innan Bókn, nærr því sem fallit hafði Erlíngr Skjálgsson, þar varð snörp orrosta; þat var á drottins degi er þeir börðust. Svâ segir í flokki þeim, er ortr var um Svein Alfífuson:

Var á sunnudag svanni
seggr hnè margr und eggjar
morgin þann sem manni
mær lauk eðr öl bæri;
er Sveinn konúngr sína
saman tengja bað drengi
(hrátt gafst hold at slíta
hrafni) skeiþar stafna [1]).

Í þeirri orosto fèkk Sveinn konúngr sigr, en Tryggvi fèll, ok mestr luti liðs hans; þá vóro liðnir 5 vetr hins fjórða tigar frá því er Ólafr konúngr faðir hans barðist á Orminum. Rèð Sveinn konúngr þá enn landi þann vetr hinn næzta eptir. Um vârit eptir fór Einarr þambarskelfir austr í Garðaríki eptir Magnúsi syni Ólafs hins helga, komu þeir austan vetri síðarr. Sveinn konúngr stökk þegar or landi, er Magnús kom í Noreg, var þá Magnús til konungs tekinn yfir land alt. Magnús konúngr hinn góði, son Ólafs konúngs hins helga, rèð fur Noregi 15 [2]) vetr, áðr Haraldr Sigurðarson, föðurbróðir Magnús konúngs, kom til Noregs. Gaf Magnús konúngr þá Haraldi hálft Noregs ríki við sik, voro þeir einn vetr báðir konúngar yfir Noregi, áðr

[1]) *Vísurnar vanta í S.* [2]) 12, *C*, *S*.

enn Magnús konúngr andaðist, en Haraldr gerðist þá einn konúngr at Noregi.

*Gautr kemr í Suðrlönd.*

283. Á því sama ári er þeir frændr rèðu báðir landi, Magnús hinn góði ok Haraldr Sigurðarson, þá fór or landi ok ætlaði til Rómferðar einn norrænn maðr er hèt Gauti [1]), en er hann var kominn suðr í Saxland ok hafði um farit Kolni, þá mætti Gauti þeim manni er Gautr [2]) hèt, hann var ok norrænn maðr, ok hafði verit fèlagi Gauta; var Gautr þá ný kominn af Róma. Þá spurði Gauti ef Gautr hefði nökkut fè at lána honum; þá svarar Gautr: ek mun eigi, at eins lána þèr slíka penninga sem ek hefir til, heldr ok fylgja þèr sjálfr hvert er þú vill fara. Fóro þeir þá furst til Róms, ok síðan út yfir haf til Jórsala, því nærst vildu þeir fara fur forvitnis sakir alt út at sjá hit rauða haf, ok hvar Móyses hafði Gyðínga lýð leidt utan af Egiptalandi. En er þeir voro lángt á veginn komnir at fara til Egiptalands, þa viltust þeir á eyðimörkum, ok þá tók Gauti sótt ok andaðist. Eptir þat fór Gautr einnsaman lengi villr á mörkum úti, ok þoldi bæði húngr ok erfiði, vildi hann þá aptr snúa sínum veg, en vissi eigi gjörla hvert hann fór. Þat var einn dag at hann kom or mörkum fram at á mikilli, en avðrum meginn árinnar sá hann mikit múnklífi, fýstist hann þá mjök at komast yfir ána til klaustrsins, því at hann vænti sèr þar nökkurrar ǫlmösu, hann fór bæði upp

[1]) Gautr, F. [2]) Gauti, F.

ok ofan með ánni, ok fann hvârki brú nè skip, en svâ var hann þá mæddr af húngri ok þorsta ok miklu erfiði, at hann komst við mjök ok feldi tár, er hann mætti eigi fara yfir ána; af þeim hryggleik ok harmi sló hann sèr niðr á árbakkann gegn klaustrinu ok sofnaði, þat var á þriðju stundu dags, en þegar hann var sofnaðr, bar fur hann, at maðr kom at honum ok mælti til hans: þú sefr úvarliga, segir hann, nú ef þú fýsist at flytjast yfir ána, þá rís upp skjótt ok munt þú finna skip lítit fljótanda við bakkann. Við þetta vaknaði Gautr, ok þóttist sjá svip mannsins, í því er hann brá í sundr augunum; spratt hann þá upp skjótt ok gekk fram á bakkann, þar fann hann fljóta lítit skip ok lagðar árar í hömlur, hann gekk á skipit ok rèri yfir ána, festi hann þá bátinn við bakka, en hann gekk upp frá ánni, varð fur honum eitt fagrt steinhús áðr hann kom til múnklífissins, þar sá hann sitja í því húsi einn aldraðan mann, vænan ok virðuligan yfirlits; hugsaði Gautr at þessi var harðla líkr þeim er honum sýndist í svefninum, en áðr Gautr kvæmi at steinhúsinu, fèll þessi maðr á knè til bænar, síðan reis hann upp í mót Gauti, er hann kom at durunum, ok spurði á danska túngu, hverr hann væri ok hvaðan hann væri at kominn eðr hvert hann skyldi fara. Gautr segir honum greiniliga alt hversu af stóðst um ferðir hans. En sá er fur var gekk þá at honum, ok heilsaði honum blíðliga, ok mynntist við hann, ok leiddi hann inn í húsit, ok mælti:

hvíl þú þik hèr til aptans, ok seg mér tíðindi af Noregi, en síðan mun ek leiða þik til staðarins ok túlka fur þèr. Síðan spurði hinn fríði maðr at Eiríki jarli Hákonarsyni ok Sveini bróður hans ok athöfn þeirra. Gautr sagði at þeir voro laungu dauðir. Því næst spurði hann at Erlíngi Skjálgssyni ok Ástríði konu hans. Gautr segir honum fall Erlíngs ok greiniliga um skipti þeirra Ólafs konúngs Haraldssonar. Þá spurði hann at Ólafi hinum helga. Gautr segir honum fall Ólafs konúngs, ok svâ þat at Sveinn Alfívoson hafði tekit ríki eptir hann í Noregi, ok svâ at Tryggvi son Ólafs Tryggvasonar hafði komit vestan um haf, ok þeir Sveinn börðust, ok Sveinn fèkk sigr, en Tryggvi fèll. Við þessa sögu varð hinn virðuligi maðr mjök hryggr, ok spurði þó hverr þá væri konúngr yfir Noregi, er hann fór or landi. Gautr segir at Magnús son Ólafs hins helga, hafði ráðit 12 vetr Noregi, ok þann hinn 13da, en Haraldr Sigurðarson var kominn til ríkis með honum, er ek fór or landi, segir hann. Þá mælti hinn aldraði maðr: vel er mèr hugþokkat til Magnús hins góða af margra manna frásögn, þeirra er þaðan koma; en Haraldr Sigurðarson virðist mèr eigi síðr hervíkíngr enn konúngr, ok heyrða ek margt af honum sagt, þá er ek var í Grikklandi, en hvat segir þú mèr um þat, hafa Norðmenn nökkura minníng Ólafs Tryggvasonar? Gautr svarar: háleit er hans minníng, þvíat mikillar dýrðar allar honum

Þat, er hann kom kristni á Norðrlönd. Þa mælti hinn vegligi maðr: seg þú mèr ætlan manna um þat, hvat vorðit hafi af Ólafi Tryggvasyni í bardaganum á Orminum. Gautr svarar: ýmsa vega þokka menn þat, sumir segja hann laupit hafa á kaf mjök sáran, ok sokkit þar niðr með brynju sinni ok öðrum herklæðum ok hafit svâ bana. Hinn virðugligi maðr svarar: hví ætla menn at hann mundi vilja fara sèr sjálfr, ok verða svâ hræddr at hann mundi laupa á kaf, við þann kost ef hann vissi sik svâ sáran ok máttfarinn at hann mætti eigi á brott komast, ok ekki hefir hann þá verit slíkr íþróttamaðr sem hann var kallaðr, ef brynja eðr önnur herklæði skyldi lengi þýngja hann í kafi, svâ at hann kvæmi eigi af sèr; eigi skyldo menn slíku trúa, ok seg mèr enn fleiri manna ætlan. Ætla þat sumir menn, sagði Gautr, at guðs kraptr hafi numit hann til sín, eðr sett hann í nökkurn annann stað með því mikla ljósi, er margir menn sá yfir konúnginum. Hinn fríði maðr svarar: efanlig ok útrúanlig er sú ætlan, at hann mundi vera svâ heilagr at hann væri makligr þeirrar dýrðar af guði, at himneskr kraptr næmi hann lifanda frá mönnum, þvíat þó at Ólafr konúngr gerði nökkur góðverk, þá gerði hann þó margar syndir, ok því er slíku eigi trúanda, heldr mætti hann með lítillæti ok guðs fultíngi forðast lífs háska. Seg þú mèr enn fleiri manna ætlan. Gautr svarar: sumir menn segja þat at hann hafi verit

tekinn af sundi okfluttr til lands á því samaskipi er þar lá eigi lángt frá bardaganum um daginn. Heldr má þessu trúa, segir hann, enn því at hann væri uppnuminn, ok þat segja vísir menn ok sannorðir suðr híngat með oss, at han hafi lifat eptir orrostona ok alt fram á þeirra konúnga æfi, sem nú ero at Noregi, lítit fátt í fimmtígi vetra. En þú seg mèr nú hvârt Einarr Þambarskelfir lifir. Einarr lifir, segir Gautr, ok býr á Gimsum, ok á Bergljóto dóttur Hákonar jarls Sigurðarsonar, hann er nú mestr ok göfgaztr lendra manna í Þrændalögum, ok er allkærr Magnúsi konúngi. Þá mælti hinn virðuligi maðr: Einar Þambarskelfi sá ek styrkligazt berjast á Orminum jafnúngan, þvíat hann var þá 18 vetra, ok var þó jafn við ena hraustaztu kappa konúngsins. Gautr leit þá í andlit þeim manni, er talaði við hann, ok hugsaði hví hann mundi svâ kunnliga segja bæði frá bardaganum ok konúngs mönnum. Gautr mælti: þá var ek úngr smásveinn, er ek sá Ólaf konúng Tryggvason, ok ertú honum mjök líkr, þó at þú sèr nú gamall, nú seg mèr ef þú ert Ólafr konúngr. Hann svarar: eigi eigna ek mèr veg eðr konúngs nafn Ólafs, ok í því kvað við klokka ok hríngði til aptansaungs í borginni, spratt þessi maðr þegar upp við hina fursta hríngíng, ok gekk til kirkju ok Gautr með honum; en svâ var þessi maðr mikill, at Gautr tók varla í öxl honum, er þeir gengu báðir samt; en er þeir

komu í kirkju, þá var þar mart manna fur, ok biðu múnkar ok klerkar þessa manns, ok hófu þegar upp aptansaung er hann kom í kirkju; þat sá Gautr at þessi maðr var höfði ok hálsi hærri enn hverr maðr annarr sá er þar var, ok því höfðíngligri var hann at sjá fur allra luta sakir, sem hann var meiri enn aðrir, ok stóðu margir menn umhverfis hann, allir búnir honum til þjónostu; en er aptansaung var lokit, þá gekk hinn mikli maðr or kirkju, og kallaði meðsèr tvâ umboðsmenn múnklífisins, ok bað þá gera Gauti góðan greiðskap: þeir leiddu hann til herbergis, ok veittu honum hinn bezta fagnat; en um morgininn eptir giörðu þeir honum bað, ok færðu hann í hrein klæði. En annann dag eptir messu, er hinn mikli maðr gekk or kirkju, þá kallaði hann Gaut til sín ok mælti til hans: ber þú Einari Þambarskelfi kveðju mína, er þú kemr til Noregs, ok þat með at ek ber honum þat vitni, at enginn barðist betr á Orminum enn hann, ok til sannra jartegna at þú segir satt, fær þú honum kníf þenna ok belti, er ek sendi honum; fèkk hann honum þá í hendr kníf ok belti, góða gripi þesskyns; síðan gekk hann til steinhússins, en umboðsmenn leiddu Gaut til herbergis; þat sá Gautr at svâ virðu menn þar mikils hinn virðuliga mann, at eptir hans vilja var öllum lutum skipat í þeirri borg, sem hann væri þar konúngr yfir. Á þeim sama degi fór Gautr til steinhúss hins mikla manns at leita eptir, ef hann mætti enn framarr viss verða hverr

hann væri, en þá var húsit byrgt; hvarf Gautr þá aptr til herbergis. Hinn 3 dag snimma fór Gautr á brott, ok at boði hins mikla manns voro honum fengnir leiðtogar ok túlkar alt norðr yfir hafit til Grikklands; lètti Gautr sinni ferð eigi furr, enn hann kom heim í Noreg, fann hann Einar Þambarskelfi, ok færði honum knífinn ok beltit, ok sagði honum alt um sínar ferðir, ok hvat þeir hinn mikli maðr höfðu viðtalazt. En er Einarr heyrði þessa sögu, þá mælti hann með tárum: satt segir ek þèr, Gautr bróðir! at þú hefir at vísu fundit Ólaf Tryggvason, ok hann hefir sent mèr þessa gripi. Þessa sögu heyrði Teitr Ásgersson segja merkan mann ok vitran, Þórarin Þorvaldsson, en Þórarni sagði sjálfr Einarr Þambarskelfir.

*Viðskipti Haralds konúngs ok Einars Þambarskelfirs.*

284. Haraldr konúngr Sigurðarson tók einvald í Noreg eptir andlát Magnúsar konúngs Ólafssonar. Haraldi þótti Einarr Þambarskelfir hafa ofmikit ríki í Þrándheimi, fèkk konúngr honum margt til saka, ok tók af honum allar konúngs veizlur, þær er Magnús konúngr hafði gefit honum; en Einarr hèlt öllum sínum ríkdómi ok risnu sem hann hafði áðr, þó at hann hefði engar konúngs veizlur, görðist þá með þeim sundrþykki mikit, þvíat Einarr vildi með engu móti láta til við Harald konúng. Litlu síðarr kom Gautr frá Jórsölum sem áðr er ritat,

endrnýjaði Einarr þá enn við hans tíðindasögn sína elskuliga alvöru til Ólafs Tryggvasonar, þeirri er hann hèlt til daudadags, þó at hann mætti eigi vera honum nálægr at líkams samvistu; gjörðist Einarr því stirðari ok stærri við Harald konúng, sem hann þýngði honum meirr, þar til er góðgjarnir menn áttu lut í at sætta þá; kom þá svâ, at þeir lögðu stefnu með sèr í Níðarósi. Á þeím fundi lèt Haraldr konúngr svikliga drepa Einar ok Eindriða son hans með sáttgjarnligu yfirbragði, svâ sem segir í æfisögu Noregskonúnga.

285. Aðalráðr konúngr Játvígsson [1]) hafði ráðit fur Englandi 7 [2]) ár ok 20, þá er Ólafr konúngr Tryggvason barðist fur Vindlandi, en síðan rèð Aðalráðr ríki 11 ár, hann var mikill vinr Ólafs Tryggvasonar sem furr er ritat. Eptir hann ríkti í Englandi Játmundr son hans eitt ár, áðr enn Knútr enn ríki kom með her til Englands, ok stríddi við sonu Aðalráðs 8 ár; síðan görðist hans ríki yfir Englandi 16 ár; þá ríkti Haraldr son Knúts ok Emmo drotníngar, er átt hafði Aðalráðr konúngr, 5 ár; eptir þat Hörða-Knútr 2 ár; síðan var tekinn til konúngs í Englandi Játvarðr hinn góði, son Aðalráðs konúngs. Játvarðr konúngr var minnigr vináttu þeirra Aðalráðs konúngs föður síns ok Ólafs konúngs Tryggvasonar.

286. Játvarðr konúngr tók þat í vanda sinn, at segja höfðíngjum sínum ok hirðmönnum

[1]) Játvarðsson F. [2]) 3, F.

sögu Ólafs Tryggvasonar á páskadag hinn fursta; en því sagði hann heldr sögu Ólafs konúngs á páskadaginn enn einnhvern annann dag, at hann kvað Ólaf Tryggvason svâ hafa verit umfram aðra konúnga, sem páskadagr er æðri enn aðrir dagar á 12 mánaðum. Maðr hèt Ormr ok var Þorljóts son, vitr maðr ok rèttorðr, hann bjó á Dýrnesi í Orkneyjum, þá er Játvarðr var konúngr at Englandi. Ormr sagði svâ, at hann heyrði Játvarð konúng lesa sögu Ólafs Tryggvasonar af þeirri sömu bók, sem Ólafr sjálfr hafði sent Aðalráði konúngi frá Jórsölum. Á einu áre las konúngr fur höfðíngjum sínum ok allri hirð um bardagann á Orminum, ok sagði þar alt á einn veg sem áðr er ritat um brautkvâmu Ólafs konúngs ok um ferðir hans út yfir haf til Jórsala, ok hann hefði staðfest sik í klaustri nökkuru í Sýrlandi; ok þá sagði Játvarðr konúngr sínum mönnum andlát Ólafs Tryggvasonar, er þeir menn höfðu sagt konúngi, er þá voro nýkomnir til Englands af Sýrlandi.

*Dráp Þorleifs.*

6. En nú er þar til at taka, er Hákon jarl er, at honum batnaði hins mesta meinlætis; en þat segja sumir menn, at hann yrði aldri samr maðr ok áðr; ok vildi jarl nú gjarna hefna Þorleifi þessarar smánar, ef hann gæti, heitir nú á fulltrúa sína Þorgerði hörgabrúði [1]) ok Irpu systur hennar, at reka þann galdr út til Íslands, at Þorleifi ynni at fullu, ok færir þeim miklar fórnir ok gekk til frèttar, en er hann fèkk þá frètt, er honum líkaði, lèt hann taka einn rekabút ok gera or trèmann, ok með fjölkýngi ok atkvæðum jarls, en tröllskap ok fítons [2]) anda þeirra systra, lèt hann drepa einn mann, ok taka or hjartat ok láta í þenna trèmann, ok færðu síðan í föt ok gáfu nafn ok kölluðu Þorgarð, ok mögnuðu hann með svâ miklum fjandans krapti, at hann gekk ok mælti við menn, kvomu honum síðan í skip ok sendu hann út til Íslands þess eyrindis, at drepa Þorleif jarlaskáld; gyrði Hákon hann atgeir þeim, er hann hafði tekit or hofi þeirra systra ok Hörgi hafði átt. Þorgarðr kom út til Íslands í þann tíma, er menn voru (á) alþíngi. Þorleifr jarlaskáld var á þíngi; þat var einn dag at Þorleifr gekk frá búð sinni, er hann sá at maðr gekk vestan yfir Öxará, sá var mikill vexti ok illsligr í bragði. Þorleifr spyr þenna mann at heiti; hann nefndist Þorgarðr, ok kastaði þegar kaldyrðum at Þorleifi;

[1]) hölgabrúðr, *A.* [2]) Pythons *G*; Phytons *A.*

en er Þorleifr heyrði þat, ætlaði hann at bregða sverðinu konúngs naut, er hann var gyrðr með, en í þessu bili lagði Þorgarðr atgeirnum á Þorleif miðjan ok í gegnum hann; en er hann fékk lagit, hjó hann til Þorgarðs, en hann steyptist í jörðina niðr, svâ at í iljarnar var at sjá. Þorleifr snaraði at sèr kyrtilinn ok kvað vísu:

Hvarf hinn hildar djarfi
hvat varð af Þorgarði
villu maðr á velli
vígdjarfr refilstíga;
farit hefir gautr at grjóti
gunnelds enn fjölkunni
síðan mun hann í helju
hvílast stund ok mílu.

Þá gekk Þorleifr heim til búðar sinnar, ok sagði mönnum þenna atburð, ok þótti öllum mikils um vert um þenna atburð; síðan varpar Þorleifr frá sèr kyrtlinum, ok fèllu þá út iðrin, ok lèt Þorleifr þar líf sitt við góðan orðstír, ok þótti mönnum þat allmikill skaði; þóttust nú allir vita at Þorgarðr þessi hafði engi verit annarr enn galdr ok fjölkýngi Hákonar jarls; síðan var Þorleifr heygðr, haugr hans stendr norðr af lögrèttu ok sèst hann enn; en bræðr hans voru á þíngi, er þetta var tíðinda, ok gjörðu útferð Þorleifs sæmiliga, ok erfðu hann at fornum sið; en Ásgeirr faðir þeirra var þá (fyrir) litlu andaðr. Síðan fóru menn heim af þíngi, ok frèttust þessi tíðindi nú víða um Ísland, ok þóttu mikilsverð.

*Vísa Hallbjarnar.*

7. Sá maðr bjó þá á Þíngvelli, er Þorkell hèt, hann var auðigr maðr at gánganda fè ok hafði jafnan hægt í búi; engi var hann virðíngamaðr. Sauðamaðr hans hèt Hallbjörn ok var kallaðr Hali; hann vandist optliga til at koma á haug Þorleifs, ok svaf þar um nætr, ok hèlt þar nálægt fè sínu; kemr honum þat jafnan í hug, at hann vildi geta ort lofkvæði nokkurt um haugbúann, ok talar þat jafnan, er hann liggr á hauginum; en sakir þess at hann var ekki skáld, ok hann hafði þeirrar listar eigi fengit, fèkk hann ekki kveðit, ok komst aldri lengra áfram fyrir honum um skáldskapinn enn hann byrjaði svâ:

hèr liggr skáld,

en meira gat hann ekki kveðit. Þat var eina nátt sem optar, at hann liggr á hauginum, ok hefir hina sömu iðn fyrir stafni, ef hann gæti aukit nökkut lof um haugbúann, síðan sofnar hann, ok eptir þat sèr hann at opnast haugrinn, ok gengr þar út maðr mikill vexti ok vel búinn; hann gekk upp á hauginn at Hallbirni ok mælti: þar liggr (þú), Hallbjörn! ok vildir þú fást í því, sem þèr er ekki lánat, at yrkja lof um mik, ok er þat annathvört at þèr verðr lagit í þessi íþrótt, ok munt þú þat af mèr fá, meira enn vel flestum mönnum öðrum, ok er þat vænna svâ verði, ella þarftu ekki í þessu at brjótast lengr; skal ek nú kveða fyrir þèr vísu, ok ef þú getr numit vísuna ok kant hana

þá er þú vaknar, þá munt þú verða þjóðskáld ok yrkja lof um marga höfðíngja, ok mun þèr í þessi íþrótt mikit lagit verða; síðan togar hann á honum túnguna, ok kvað vísu þessa:

Hèr liggr skáld þat er skálda
skörúngr var mestr [at flestu [1])
naddveiti [2]) frá ek nýtan
níd Hákoni smíða;
áðr gat engr nè síðan
annara svâ manna,
frægt hefir orðit þat fyrðum,
fèrán lokit hánum.

Nú skaltu svâ hefja skáldskapinn, at þú skalt yrkja lofkvæði um mik, þá er þú vaknar, ok vanda sem mest bæði hátt ok orðfæri ok einna mest kenníngar; síðan hverfr hann aptr í hauginn, ok lýkst hann aptr, en Hallbjörn vaknar ok þikist sjá á herðar honum; síðan kunni hann vísuna, ok fór síðan til bygða heim með fè sitt eptir tíma, ok sagði þenna atburð. Orti Hallbjörn síðan lofkvæði um haugbúann, ok var hit mesta skáld, ok fór utan fljótliga, ok kvað kvæði um marga höfðíngja, ok fèkk af þeim miklar virðíngar ok góðar gjafir, ok græddi af því stórfè, ok gengr af honum mikil saga bæði hèr á landi ok útlendis, þó at hûn sè hèr eigi ritut. En frá bræðrum Þorleifs er þat at segja, at næsta sumar eptir andlát hans fóru þeir utan Ólafr

[1]) af flestum, *A.* [2]) náveiti, *A.*

Völubrjótr ok Helgi hinn frækni, ok ætluðu til hefnda eptir bróður sinn, en þeim varð eigi lagit þá enn at standa yfir höfuðsvörðum Hákonar jarls, [þvíat hann hafði þá enn eigi öllu illu því framfarit, sem honum varð lagit sèr til skammar ok skaða [1]); en þó brendu þeir mörg hof fyrir jarlinum ok gjörðu honum margan fjárskaða í ránum ok hervirki, er þeir veittu honum, ok margri annari úspekt. Ok lýkr hèr frá Þorleifi at segja.

[1]) v. í G.

# Þáttr

## Þorsteins Uxafóts

Þórðr skeggi hèt maðr, hann nam lönd öll í Lóni fyrir norðan Jökulsá, millum ok Lónsheiðar, ok bjó í Bæ tíu vetr; en er hann fór til öndvegis súlna sinna í Leiruvogi fyrir neðan heiði, þá seldi hann lönd sín Úlfljóti lögmanni, er þar kom út í Lóni. Úlfljótr var son Þóru, dóttur Ketils Hörðakára, Áslákssonar Bifru-Kára, Unarssonar Arnar Hyrnu. En er Úlfljótr var nær 60 at aldri, þá fór hann til Noregs ok var þar 3 vetr; þá settu þeir Þorleifr spaki móðurbróðir hans lög þau, er síðan voru köllut Úlfljóts lög; en er hann kom út, þá var alþíngi sett, ok höfðu allir menn ein lög síðan hèr á landi. Þat var upphaf enna heiðnu laga: at menn skyldu eigi hafa höfðaskip í hafi, en ef menn hefði, þá skyldu þeir áftaka höfuð, áðr þeir kæmi í landssýn, ok sigla eigi at landi með gapandi höfðum nè gínandi trjónu, svâ at landvættir fældist við: baugr tvíeyríngr eðr meiri skyldi liggja í hverju höfuthofi á stalli, þann baug skyldi hverr goði

hafa á hendi sèr til lögþínga þeirra allra, er hann skyldi sjálfr heyja, ok rjóða hann þar í roðru blótnauts þess, er hann blótaði þar sjálfr; hverr sá maðr, er þar þurfti lögskil af hendi at leysa at dómi, skyldi áðr eið vinna at þeim baugi, ok nefna sèr vátta 2 eðr fleiri: ykkr nefnig í þat vætti, skyldi hann segja, at ek vinn eið at baugi, lögeið, hjálpi mèr svâ nú Freyr ok Njörðr ok hinn almátki Ás, sem ek mun svâ sök þessa sækja eða verja, eðr vitni bera, eðr kviðu, eðr dóma dæma, sem ek veit rèttast ok sannast ok helzt at lögum, ok öll lögmæt skil af hendi leysa, þau er undir mik koma, meðan ek er á þessu þíngi. Þá var landinu skipt í fjórðúnga, ok skyldu vera 3 þíng í fjórðúngi hverjum, en þrjú höfuðhof í þíngsókn hverri; þar voru menn vandaðir til at varðveita hofin at hyggendi ok rèttlæti; þeir skyldu dómnefnur eiga á þíngum, ok stýra sakferli, því voro þeir þeir goðar kallaðir; hverr skyldi ok gjalda toll til hofs, svâ sem nú er kirkjutíund. Böðvar hinn hvíti af Vös or Noregi bygði fyrstr at Hofi, ok reisti þar hof, ok gerðist hofgoði; hann var faðir Þorsteins, föður Halls á Síðu. Þórir hinn hási nam land í Krossavík fyrir norðan Reiðarfjörð; þaðan eru Krossvíkíngar komnir [1]).

*Af Freysteini.*

2. Þorkell hèt maðr, er bjó í Krossavík,

[1]) *þenna kapítula vantar í allar 4 bækr, við hvörjar þessi þáttr er samanborinn.*

hann var Geitisson, hann var hit mesta afarmenni ok harðfengr ok [1] kallaðr ofrhugi [2]; hann var þá ókvæntr, er þessi saga gerðist. Systir hans óx upp með honum, er Orný [3] hèt, allra kvenna vænst, hverri konu hagari [4]; [þó var mikill mállaki á ráði hennar [5], hûn hafði ekki mál, ok var með því alin; þau unnust mikit syskin. Þorkell átti þræl einn útlendan at öllu [6] kyni, er Freysteinn hèt, hann var hvörki ljótr [7] nè illr viðreignar [sem aðrir þrælar [8], heldr var hann gæfr ok góðr [9] viðrskiptis, ok náliga hverjum manni vænni, því var hann kallaðr Freysteinn hinn fagri. Krummr hèt maðr, hann bjó í Krummsholti, sá bær er nú eyddr, hann var Vemundarson [10], Ásbjarnarsonar, Krummssonar hins gamla. [Krummr hinn gamli fór af Vös búfelli til Íslands; hann nam land á Hafranesi inn til Þernunes ok allt hit ytra bæði Skrúð ok aðrar úteyjar ok inn öðrumegin at Þernunesi [11]. Krummr hinn ýngri átti þá konu, er Þórgunna hèt, ok var Þorsteinsdóttir, Vetrliðasonar [12], [Ásbjarnarsonar göfugsmanns

[1]) var hann því, *b. v. B.* [2]) fullhugi, *B, C, G.* [3]) Oddny, *B, G, alstaðar.* [4]) á hendr, *b. v. B, C,* fríðari *G.* [5]) málrakki var á hennar rödd, *B,* þá var mikill meinleiki á rödd hennar, *G.* [6]) öðru, *B.* [7]) lèttr, *B.* [8]) *v. í alla,* [9]) góðfengr, *b. inni C, G;* geðfeldr, *B.* [10]) Sigmundarson, *B.* [11]) *v. í alla.* [12]) Sumarliðasonar, *B.*

af Beitsstöðum, Ólafssonar lángháls, Bjarnarsonar, Reiðarssonar [1]). Þórgunna var vitr kona ok meðallagi vinsæl, mjök margkunnandi, [ekki fríð en forn í skapi, heldr harðlynd ok þó örskiptamaðr [2]). Krummr var óríkr maðr; [miseldri mikit [3]) var með þeim hjónum; var Þórgunna þá roskin kona, er þetta æfintýr gerðist; [þau áttu ekki barn, svâ at sögur gángi af [4]).

*Ívar ljómi kom til Íslands.*

3. Styrkarr hèt maðr Endriðason, Hreiðarssonar [5]); þeir voru bræðr Hreiðarr [6]) ok Ásbjörn, faðir Járnskeggja af Yrjum [7]), en systir þeirra var Ólöf, er átti Klyppr hersir, er drap Sigurð konúng slefu. Þeirra bróðir var Erlíngr, ríkr hersir af Hörðalandi. Erlíngr átti þann son, (er) Ivar hèt, allra manna vænstr, þeirra (er) upp vóxu á Hörðalandi, því var hann kallaðr Ívar ljómi; hann var hverjum manni betr at íþróttum búinn, ofmetnaðar maðr svâ mikill, at náliga máttu öngir menn mæla nè gera til jafna við hann; hann var úkvæntr lánga tíma, ok því at honum þótti sèr nærr hvergi fullkosta; hann sat laungum hjá Styrkari frænda sínum á Gimsum í Þrándheimi. Þessi Styrkarr var faðir [Einars Þambaskelfis [8]); segja þat ok sumir

[1]) *v. í alla* [2]) *v. í B, G, utan þetta:* ok harðlynd [3]) mislyndi, *B.* [4]) *v. í alla.* [5]) Hreiðsonar, *C.* [6]) Hreið, *C.* [7]) Rum, *B.* [8]) Gríms skelfirs, *B.*

menn, at [þeir hafi bræðr (verit), Endriði faðir Styrkars ok Ásbjörn faðir Endriða ilbreiðs [1]); ástúðigt var lengi með þeim frændum Styrkari ok Ívari. Ívar hafðist löngum við í kaupferðum bæði til Englands ok Danmerkr. Eitt sumar fór hann til Íslands kaupferð; hann kom skipi sínu í Gautavík [2]) i Austfjörðum. Þorkell Geitisson reið til skips, ok bauð stýrimanni heim til sín við svâ marga menn, sem hann vildi með sèr haft hafa. Ívar þakkaði bónda, ok kveðst þat þiggja mundu. Ívar fór heim í Krossavík við fimta mann, ok sat þar um vetrinn. Ívar var gleðimaðr mikill ok ör af fè. Þat var einn dag at Þorkell gekk til tals við Ornýju systur sína, ok sagði henni at stýrimaðrinn var heimkominn; vilda ek, frændi! segir hann, at þú þjónaðir honum í vetr, þvíat hèr eru flestir aðrir menn í starfi. Orný reist rúnar [3]) á kefli, þvíat hûn mátti eigi mæla, en Þorkell tók við ok leit á; kefllit sagði svâ: ekki er mèr um at leggja mik til þjónustu við stýrimann, þvíat mèr segir svâ hugr um, ef ek geri þat at þjóna Ívari, at þar muni mikit vont af standa. Þorkell reiddist fast, er Orný taldist undan; en er hûn sá þat, stóð hûn upp ok gekk inn, ok tók til þjónustu (við) Ívar, ok hèlt því um vetrinn, en er áleið sá menn at Orný mundi fara [4]) eigi kona [5]) einsaman, ok er

---

[1]) Þat hafi verit bær Indriða, föður Stirkárs, Ásbjarnar ok Indriða ilbreiðs, *B.* [2]) Gotuvík, *B.* [3]) rúnir, *allir hinir.* [4]) vera, *B.* [5]) *v.* í *B*, *C.*

Þorkell fann þat, spurði hann Ornýju, hversu háttat væri um hagi hennar, eðr hvört hûn væri með barni, eðr hverr þat ætti með henni? Orný reist þá enn rúnar, ok sögðu þær svâ: eigi hefir Ívar betr launat þèr vetrvistina enn svâ, at barn þat, er ek geng með, á hann viðmèr; setti þá grát mikinn at Ornýju, en Þorkell gekk í burt. Líðr út vetrinn, ok er vorar lætr Ívar búa skip sitt í Gautavík [1]), ok er þat var búit, býst Ívar brott or Krossavík ok hans menn. Þorkell ríðr í veg með Ívari, ok er þeir höfðu riðit nökkura stund, veik hann til við stýrimann: *hvert ráð gerir þú, Ívar! fyrir barni því, er þú átt við Ornýju systur minni, eðr viltu gera vel, ok ganga at eiga hana, en ek mun gæða* hana svâ peníngum, at þú sèr sæmdr af. Ívar brást við reiðr *mjök* ok svaraði: til ílls eyrindis hefða ek farit þá til Íslands, ef ek skylda eiga systur þína mállausa, hefir mèr kostr verit æðri kvenna ok kynstærri heima á Hörðalandi eðr þó víðara í Noregi; en þú þarft eigi at kenna mèr barn systur þinnar, þó at hûn egi við þrælum þínum; hefir þú talat við mik mikla svívirðíng. Þorkell svarar: vilir þú eigi gánga við barni Ornýjar, ok smá bæði mik ok hana í orðum, skaltu sjálfan þik fyrirfinna, hefi ek eigi þolat mönnum fyrrmeir þvílíka smán. Ívar hjó þá til Þorkells, þat högg kom á fótinn ok varð mikit sár. Þorkell brá þá sverði ok hjó til Ívars, en

[1]) Gotavík, *B.*

hann reið undan, en höggit kom á hestfótinn svâ at af tók; stökk Ívar þá af baki ok rann eptir fèlögum sínum, en Þorkell reið heim í Krossavík. Annann dag eptir safnar Þorkell mönnum ok reið í Gautavík með 50 manna, en er hann kom þar, hafði Ívar kipt bryggjum, en vindr stóð af landi, ok sigldu svâ til hafs, ok linti eigi fyrr enn hann kom til Noregs, ok fór svâ heim á Hörðaland, ok settist um kyrt. Þorkell reið heim í Krossavík, ok undi lítt við sinn hag, þvíat hann hafði eigi meiri smán fengit enn [þá alla saman [1]).

*Fæddr Þorsteinn Uxafótr.*

4. At miðju sumri eðr litlu síðar fæddi Orný barn, þat var sveinbarn svâ mikit, at menn þóttust ekki barn meirra nýfædt sèt hafa. Þorkeli var sagt, at systir hans var lèttari orðin at því barni, er ætti við henni Ívar ljómi; en er Þorkell heyrði þat, varð hann æsilega [2]) reiðr, ok sagði at út skyldi bera; en þat var þá lög í þann tíma, at út skyldi bera úríkra [3]) manna börn ef vildi, ok þótti þó eigi vel gert. Þorkell lèt kalla Freystein þræl, ok bað hann tortýna sveininum, en hann taldist undan, þartil er Þorkell sagði á reiði sína. Þá var Geitir, [faðir Þorkels, (á) vistum með Þorkeli syni sínum [4]), hann talaði um, at sveininn skyldi eigi útbera, sagði sèr svâ hug um segja, at sá sveinn mundi

[1]) þessa, *allir hinir.* [2]) afar, *B*, ógulega, *C.* [3]) fátækra *C.* [4]) á beit með svín sín, *B.*

ekki lítill fyrir sèr verða, ef hann næði lífi at halda. Þorkell var svâ æfr [1]), at hann vildi ekki á þat heyra, ok kvað eigi annat skyldu [2]), enn piltrinn væri útborinn. Nú gekk Freysteinn, þó nauðigr færi [3]), til Ornýjar ok tók upp sveininn ok gekk út með ok til skógar; hann vafði piltinn í einum dúk, ok lagði flikkis [4]) sneið í munninn [5]); hann gerði skjól undir viðarrótum ok lèt þar koma í barnit, ok bjó vel um ok gekk svâ frá, fór heim síðan ok sagði bónda, at hann hefði fyrir sèt barninu. Bóndi lèt vel yfir, ok var nú kyrt um hríð.

*Þorsteinn vóx upp hjá Krummi.*

5. Bráðliga eptir þetta er þat at segja, at Krummr bóndi fór í skóg sinn at sækja við, hann heyrði barnsgrát ok fór þángat til, ok fann sveinbarn bæði mikit ok vænligt, þar lá hjá flesksneið, er hann þóttist vita at fallit mundi hafa or munni barnsins [ok því mundi þat æpt hafa [6]); spurt hafði Krummr, at barn hafði verit útborit í Krossavík, [ok hversu Þorkell hafði hart um mælt, þottist vita at þetta sama mundi vera [7]); en með því at þeir Þorkell voru miklir vinir, ok hins annars at hann sá at þat var bæði glæpska [8]) ok skaði, at þar dæi svâ mannligt barn [ok líkligt til stórra afdrifa [9]), þá tók hann

[1]) afarreiðr, *B.* [2]) skyldi hlíða, *B*, *G*, *H.* skyldi hlíðast, *C.* [3]) nærri *B*, væri *G.* [4]) fleski *B*, *C*, flesk *G.* [5]) hönd honum *B.* [6]) *v. í B*, *C.* [7]) *v. í B*, *C.* [8]) glæpr stór, *B*, *C.* [9]) *v. í B*, *C.*

þat upp, ok hafði heim með sèr [ok gerði ekki orð á [1]); þat var á fjórða degi er barnit fannst frá því er þat var útborit. Krummr gaf nafn piltinum ok kallaði Þorstein, ok sagði sinn son vera; [um þetta urðu þau Þórgunn samráða. Vex Þorsteinn nú þar upp, ok [2]) leggr Þórgunna við hann ástfóstr, ok kennir honum mart í [3]) fræðum. Þorsteinn gerðist bæði mikill ok sterkr ok viðleitinn um allar íþróttir; hann var svâ sterkr, at þá er hann var 7 vetra gamall, sambauð hann at afli rosknum mönnum, þótt færir væri. Þat var einn dag sem optar, at Þorsteinn kom til Krossavíkur, hann gekk til stofu, þá sat Geitir faðir bónda á palli ok þuldi í feld sinn, en er piltrinn kom í stofuna, þá fór hann mjök geystr [4]) sem börnum er títt, fellr hann á stofugólfinu, ok (er) Geitir sèr þetta, skellir hann upp [5]) ok hlær; en er Orný sèr piltinn, setr at henni grát mikinn. Piltrinn gengr innar at Geiti ok mælti: hvört þótti þèr þetta allbrosligt, er ek fèll áðan? Geitir svarar: þat er satt, þvíat ek sá þat, er þú sátt egi. Hvat var þat? sagði Þorsteinn. [Þat má ek segja þèr [6]): þá er þú komt í stofuna, fylgði þèr einn hvítabjarnar húnn, ok rann fyrir innar á gólfit, en er hann sá mik, nam hann staðar, en þú fórt heldr geystr, ok fèlt þú

[1]) *v. i. sömu.* [2]) *v. i. B.* [3]) fornum, *b. inni allir.* [4]) geist, B. H. G. [5]) yfir sik, *b. inni allir.* [6]) Geitir sagði B. C. H.

um húninn; en þat er ætlan mín at þú sèr eigi son Krumms nè Þórgunnar, heldr muntu stærri ættar. Piltrinn settist niðr hjá Geiti ok skrumuðu [1]) þeir; en er kveldaði, sagðist Þorsteinn heim skyldu. Geitir bað hann koma þar opt, þvíat mèr þykir sem þú munir eiga hèr kynni. En er piltrinn var útgenginn, kom Orný þar ok færði Þorsteini klæði nýskorin; fór hann síðan heim; [vandi hann nú kvomur sínar [2]) til Krossavíkur. Þorkell gaf sèr fátt af piltinum, en þótti hann þó frágerðamaðr [3]) at vexti ok afli. Geitir sagði Þorkeli syni sínum, at þat væri hans ætlan, at þessi Þorsteinn væri son Ornýar ok Ívars ljóma, ok mundi verða mikill maðr fyrir sèr. Þorkell kveðst eigi kunna at synja: skulu vèr hèr fá sannar frèttir af; ok um morguninn sendir Þorkell eptir Krumm ok Þórgunni ok Þorsteini, ok er þau kvomu, spurði Þorkell glöggliga at, hversu Þorsteinn væri tilkominn; en þau hjón sögðu allt, hversu tilkomit var; sagði Freysteinn ok sína sögu, ok bar allt saman. Þótti Þorkeli nú vel umgengit, ok [kunni Freysteini þakkir fyrir [4]). Vaknar Þorsteinn nú við ætt sína, ok fór hann nú vistafari [5]) til Krossavíkr, ok gerir Þorkell við hann raun [6]) vel.

### *Draumr Þorsteins.*

6. Þat er sagt eitt haust [7]) er menn skyldu

---

[1]) skröfuðu *C.* [2]) ok sendi kveðju sína tíðum *B.* [3]) afbragðsmaðr *B. C.* afbragð *H.* [4]) þakkaði uppfóstrið *C.* [5]) *v. í B. C. H.* [6]) einka, *B. H.* einkar *C.* æfar *G.* [7]) einn tíma, *B. C. H.* eitt sumar, *H.*

á fjall gánga, beiddi Þorkell Þorstein frænda sinn fara með þeim; hann játtaði því, hann var 10 vetra gamall þá. Freysteinn kveðr hann til ferðar með sèr; þeir fara sem þeim liggja leiðir, finna mart fjár, ok er þeir fara heim á leið, koma þeir í einn dal djúpan, [*eru þá 2 saman Þorsteinn ok Freysteinn* [1]), þá kveldaði mjök, þeir sá þar einn haug stóran; hèr ætlak í nátt at vera, segir Þorsteinn, ok skaltu vaka í nátt, Freysteinn! ok vekja mik eigi, hversu sem ek læt í svefni, þvíat þar þiki mèr áliggja. Freysteinn játtaði því. Síðan sofnaði Þorsteinn, ok er áleið náttina, lèt hann illa í svefni, þvíat hann brauzt [2]) um á hnakki ok hæli, því [3]) gekk allt til dags. Freysteinn efaðist í, hvårt hann skyldi vekja Þorstein eðr eigi; [miklu voru hans læti erfiðligri [4]). En er lýsti af degi, vaknaði Þorsteinn, ok var þá [5]) sveittr mjök, ok mælti: dyggiliga hefir þú enn [6]) vakat, Freysteinn! hefir þú nú gert þá 2 hluti, at hvortveggi væri launa verðr, í fyrstan tíma [er þú fórt með mik [7]) ok nú; skal ek nú því launa þèr, at ek skal fá fyrir þik frelsi af Þorkeli frænda mínum, ok hèr er 12 merkr

---

1) *v. í alla.* 2) barðist, *B. C. H. G.* 3) þat, *allir.* 4) *v. í alla.* 5) móðr mjök ok, *b. inni B. H. G.* 6) í nótt, *b inni B. H.* 7) at þú týndir mèr ekki, er þú barst mik út, þarnæst at þú hèlzt nú vöku yfir mèr, *B.* þá þú barst mik út, *C.* þú barst mik út, en fyrirfórst mèr ei, ok þetta annað, *H.* þá þú barst mik út, sá annar at þú vaktir mik ei, *H.*

silfrs, at ek vil gefa þèr; en nú vil ek segja þèr draum minn: mèr þótti haugr sjá [1]) opnast ok gekk þar út or maðr rauðklæddr, hann var mikill maðr vexti [ok ekki aðaliga illiligr [2]), hann gekk at Þorsteini [3]) ok heilsaði uppá hann; Þorsteinn tók honum vel, ok spurði hann at nafni eðr hvar hann ætti heima; hann lèzt Brynjar [4]) heita, ok ega heima í haugi þeim: er þú sèr standa hèr í dalnum; en veit ek hvat þú heitir, ok svâ hvers kyns at þú ert, ok svâ þat at þú munt mikill maðr verða fyrir þèr, eðr viltu fara með mèr ok sjá híbýli mín? Þorsteinn játtaði því, ok stóð upp ok tók öxi sína, er Þorkell hafði gefit honum; þeir gánga inn í hauginn, en er Þorsteinn kom þar, sýndist honum þar vel fyrirbúit [5]); hann sá þar til hægri handar sitja 11 manna (á einum) bekk, þeir voru allir rauðklæddir, ok heldr fáligir [6]); öðrumegin í hauginum sá hann sitja 12 menn, þeir voru allir bláklæddir, sá var þeirra mestr ok mjök illiligr [7]). Brynjar [8]) laut at Þorsteini ok mælti: sá er bróðir minn hinn mikli maðr, ok erum við þó ekki skaplíkir, hann heitir Oddr, ok vill flestum ílt, hann veitir mèr þúngar búsifjar, en hann er því öllu sterkari enn ek, sem hann er meiri vöxtum, en

[1]) þessi, *allir.* [2]) en ekki illmannligr, *allir.* [3]) mèr, *B.* [4]) Krummr, *allir.* [5]) búið, *B. C.* umbúist, *H.* umbuið, *G.* [6]) fagrligir, *allir.* [7]) illlúðegastr, (illigastr, *C. H.*) er fyrir þeim var, *B. G.* [8]) Krummr, *allir alstaðar.*

ek hefir orðit at játta því ok mínir menn, at fá honum hverja nátt mörk [gulls eðr 2 merkr [1]) silfrs, eðr einhvern grip jafnan þessu, hefir nú svâ framfarit hinn næsta mánut, ok gerumst vèr nú farnir at lausafè. Oddr hefir at varðveita gull [2]) þat, er sú náttúra fylgir, at hverr maðr sem mállaus er, ok leggr þat undir túngurætr sèr, þá tekr þegar mál sitt, ok af því gulli má móðir þín mál fá, en Oddr geymir þat svâ rikt, at þat gengr aldri af [3]) honum hvârki nátt nè dag. Nú sezt Brynjar niðr hjá sínum kumpánum, en Þorsteinn sitr þeirra yztr. En er þeir hafa setit um hríð, stóð Brynjar upp ok gekk yfir at Oddi bróður sínum, ok afhendi honum einn hríng digran. Oddr tók við þegjandi, en Brynjar gekk aptr til sætis síns; svâ stóð upp hverr at öðrum, ok færðu Oddi allir nokkurn grip, en hann gaf öngum þökk í móti; en er þeir höfðu þetta allir (gert), þá mælti Brynjar: þat mun þèr ráð [4]), Þorsteinn! at gera sem aðrir, ok færa Oddi nokkut gjald, [eigi mun annat duga, með því at þú sitr á vorn bekk [5]). Oddr var ýgldr mjök, ok sat upp mjök gnæpr [6]) ok heldr úfrýnligr. Þorsteinn stóð þá upp ok hèlt á öxi sinni, hann gekk yfir at Oddi ok mælti: ekki er ek plaggamargr til, Oddr! at lúka þèr gjald þetta, muntu ok ekki mikilþægr at við mik, því at ek er úríkr. Oddr ansaði ok heldr stutt: ekki er mèr um

[1]) v. *i alla.* [2]) fè, *B. G.* [3]) hálsi, *b. allir inni.*
[4]) skást, *allir.* [5]) *v. i alla.* [6]) gneipr, *C. H.*

kvomu þína híngat, [en muntu eigi [1]) frammi-láta þat er þèr líkar? Ek hefir ekki til nema öxi mína, ef þú vilt hana taka. Oddr rètti höndina, í móti, en Þorsteinn höggr til hans, kemr þat á höndina ofan olnboga, ok tekr af. Oddr spratt þá upp ok allir þeir, er í hauginum voru, vopn þeirra hèngu uppi yfir þeim, gripu þeir þau, slær nú með þeim í bardaga. [Þat sèr [2]) Þorsteinn at nú er ekki fjarri um með þeim, Þorsteini ok Oddi, er Oddr var einhendr; allir lítast honum hinir bláklæddu menn harðfengari; þat sèr hann [3]) ok, þóat þeir höggist [4]) af hendr eðr fætr eðr særist öðrum stórsárum, þá eru þeir á annari stundu heilir; en þat er Þorsteinn hjó, þá var þat eptir eðli. Eigi linti Þorsteinn fyrr ok þeir Brynjar allir saman, enn Oddr var drepinn ok þeir allir hans kumpánar. Þorsteinn var þá mjök móðr en ekki sárr, þvíat Brynjar ok hans fèlagar höfðu hlífl Þorsteini við höggum [5]) öllum. Brynjar tók nú gullit af Oddi dauðum, ok fèkk Þorsteini, ok bað hann færa móður sinni; hann gaf honum 12 merkr silfrs í sjóði ok mælti: mikit frelsi hefir þú unnit mèr, Þorsteinn! þvíat nú ræð ek hèr haugi ok eignum; mun þetta upphaf [6]) þinna þrekvirkja, er þú munt vinna utanlendis; þú munt ok taka sið-

[1]) þó muntu, *B.* [2]) *vantar í F.* [3]) þat sá Þorsteinn at allir voru þeir hardfengari (menn Odds C. G.) enn menn Krûms, *þannig allir.* [4]) hyggi, *allir.* [5]) lögum, *B.* [6]) undanfari, *B.*

askipti, ok er sá siðr miklu betri, þeir sem hann mega hljóta, enn hinum er [eptirbíða um [1]), sem eigi eru til þess skapaðir [2]), ok slíkir eru sem ek, þvíat við bræðr vorum jarðbúar; nú þætti mèr miklu máli skipta, at þú kæmir nafni mínu undir skírn, ef þèr yrði þess auðit at ega son. Síðan leiddi hann mik út or hauginum, ok áðr við skildum mælti hann: ef mín orð mega nokkut [3]), þá snúist þèr þín verk öll til heiðrs ok hamíngju. Eptir þat snèri Brynjar inn í hauginn, en ek vaknaði; ok þat til marks um, at hèr er nú bæði hjá mèr sjóðrinn ok gullit. Síðan fóru þeir ok ráku heim fènað þann, er þeir höfðu fundit, [ok heimtu menn vel [4]). Sagði Þorsteinn þenna atburð allan, ok færði móður sinni gullit, ok tók hún þegar mál sitt, er þat kom undir túngurætr henni. Stendr þessi haugr í Jökulsdal, ok er kallaðr Brynjarshaugr [5]), ok sèr enn í dag merki [6]).

*Freisteinn fèkk Ornýjar.*

7. Freysteinn fèkk frelsi brátt af orðum Þorsteins, ok gerði Þorkell þat vel ok liðugliga, þvíat honum var vel í geði til Freysteins, þvíat hann vissi at hann var góðrar ættar ok göfgra manna fram í kyn. [Grímkell faðir Freysteins [7]) [bjó á Vös ok átti Ólofu Brunólfsdóttur, Þorgeirsonar, Vestarssonar [8]); en Sokki víkíngr [9])

[1]) erfiðara, *allir.* [2]) bornir, *B.* [3]) þá mæli ek um, *b. inni B.* [4]) *v. í alla.* [5]) Krúmshaugr, *allir.* [6]) menjar hans, *allir.* [7]) Grimkels faðir var Þór, *B.* [8]) var mikill madr, *C. H. G.* [9]) Bolli niðíngr, *allir.*

brendi inni Grímkel föður hans, en tók piltinn ok seldi mannsali, hafði Geitir hann út híngat. Þat segja sumir menn, at Þorsteinn gipti Freysteini Ornýju móður sína. Freysteinn hinn fagri bjó í Sandvík á Barðsnesí [1]) [ok átti Víðfjörð ok Hellisfjörð [2]), ok var kallaðr landnámsmaðr. Frá honum eru komnir Sandvíkíngar ok Víðfirðíngar [3]) ok Hellisfirðíngar.

*Frá Þorsteini.*

8. Ásbjörn kastanrazsi [4]) átti skip uppistandanda í Gautavík [5]), þar tók Þorsteinn sèr far í með honum, þá var hann 12 vetra gamall. Þorkell fèkk honum fararefni, svâ at honum nægði, ok áðr Þorsteinn reið til skips, töluðust þau við ok móðir hans. Hûn mælti: nú muntu, frændi! finna föður þinn Ívar ljóma, ok ef hann [gengr seint við [6]) faðerni þínu, þá er hèr einn hríngr, er þú skalt færa honum, ok seg honum at þenna hríng gaf hann mèr í fyrsta sinni, ok má hann þá eigi dyljast við. Síðan skildu þau mæðgin, ok reið Þorsteinn til skips, ok fór utan um sumarit; komu þeir norðarliga við Noreg um haustit. Fór Þorsteinn vistafari til Styrkars á Gimsar, ok var þar um vetrinn; fèll vel á með þeim Styrkari, því at hann sá at Þorsteinn var hinn mesti atgervimaðr, því at hann jafnvægði þá hinum sterköstum mönnum í öllum leikum.

---

[1]) Brandsnesi, *C. H. G.* Brandsvelli, *B.* [2]) *v. í alla.* [3]) Miðfyrdingar, *B. C. G.* [4]) Bastanrasi, *B. G.* [5]) Götuvík, *B.* [6]) misgrunar, *G.*

Um vetrinn nökkuru fyrir jól komu þar sendimenn Ívars ljóma, þess eyrindis at Ívar hafði boðit honum Styrkari til jólaveizlu, [sá hèt Björn, er fyrir þeim var [1]). Styrkarr hèt ferðinni, ok fór með 5o manna, þar var Þorsteinn í ferð; þeir koma til veizlunnar, var Styrkari þar vel fagnat, sat hann hit næsta Ívarri um veizluna; fór veizlan vel fram, ok affaradag veizlunnar, áðr menn skyldu burt fara, gekk Þorsteinn fyrir Ívar, ok mælti: þat er eyrindi mitt við þik, Ívar! at vita hvört þú vilt nökkut gánga við faðerni at mèr. Ívarr svarar: hvert er nafn þitt, eðr hvaðan ertu at kominn. Þorsteinn er nafn mitt; Orný heitir móðir mín, ok er Geitisdóttir út á Islandi, ok hèr er hríngr, er hûn bað mik færa þèr til jartegna, ok kvað at þú mundir kenna at þú hafðir gefit henni. Ívarr roðnaði fast, ok mælti: þú munt ega allt verra faðerni, eru nógir þrælar út á Islandi, til þess at móðir þín kenni þik; [er þat ok mála sannast, at mèr þætti eiga at leiða drengjum ok herjans sonum þat, at hverr pútuson kallaði [2]) mik föður at sèr. Þorsteinn reiddist þá ákaflega mjök, ok stilti þó vel orðum, ok sagði: illa hefir þú svarat ok ódrengiliga, en svâ kem ek annat sinn, at þú gengr við mèr, elligar er þat bani þinn. Þor-

---

[1]) *v. í B. H.* [2]) *ok er þat mikil smán, að ek verð að liða herjanssonum ok pútusonum að þeir kalli, B. G.* ok er þat mál sannast að ek hlýt að liða h. ok p. s. þ. k. *C.* ok er þat undr at margir her. ok p. skulu kalla, *H.*

steinn snýr þá í brottu. Ívarr talaði til Styrkars: þat vilda ek, frændi! at þú banaðir fóli þessu, þvíat mèr þikir einskis [ills örvænt fyrir hann [1]). Eigi vil ek þat, segir Styrkar, þvíat ek ætla hann hafa rèttara at mæla enn þú, þvíat ek hygg at hann sè kynstórra manna. Skildu þeir Ívarr ok Styrkar þá í styttíngi, fór Styrkar heim á Gimsar ok Þorsteinn með honum. Styrkar átti sèr systur, er Herdís hèt, kvenna vænst; góðr þokki var á með þeim Þorsteini; þar var hann 2 vetr, þá fór Þorsteinn út til Islands ok heim til Krossavíkr, ok hafði mikit framizt í utanferð sinni; ok er hann hafði verit 3 vetr á Islandi, fór hann utan með Kolbirni sneypi [2]) til Noregs; fór hann þá enn til Styrkars á Gimsar, ok tók hann við honum fegins hendi.

*Tröll á Heiðarskógi.*

9. Glöggliga er þat sagt at þetta sumar yrði höfðíngja skipti í Noregi; fèlli frá Hákon blótjarl, en í staðinn kom Ólafr Tryggvason; hann boðaði öllum mönnum rètta [3]) trú. Þat kom fyrir Ólaf konúng, at flögð lægi á Heiðarskóg, svâ at þar tæki af vega alla. Konúngr skýtr á húsþíngi, ok spyr hverir fara vilja at frelsa Heiðarskóg. Maðr stóð upp mikill ok vörpuligr [4]), er Brynjúlfr hèt, lendr maðr í Þrándheimi, ok mælti: ek vil fara, herra! ef þèr vilit. Konúngi kveðst þat vel líka. Bjóst Bryn-

[1]) ærlegs von af honum, *B.* [2]) sveini, *B. C. H. G.*
[3]) kristna, *B.* [4]) öflugr, *B.* ógrlegr, *G.*

júlfr þá við 60 [1]) manna. Þorkell hèt maðr [2]), þángat ríða þeir Brynjúlfr til gistíngar, tók Þorkell við þeim vel, voru þeir þar um nóttina, en um morgininn fylgði hann þeim á veg, ok kvað þat skaða mikinn, er [þeir skyldi [3]) eigi slíkra manna lengi njóta mega; síðan riðu þeir veg sinn ok allt þartil, er þeir sá standa skála mikinn; þaðan sá þeir hlaupa þrjár tröllkonur, 2 úngligar ok ein stærst, hûn var loðin öll utan sem gràbjörn; þær höfðu allar sverð í höndum; þeir sá ok gánga mikinn mann, ef mann skyldi kalla, ok 2 pilta með honum, hann hafði brugðit sverð í hendi, þat var svâ bjart at sindra þótti af; öll voru tröllin illilig [4]) at sjá; þar slær þegar í bardaga, varð hinn mikli maðr mjök stórhöggr ok svâ hin loðna skessa; lýkr með því at þar fellr Brynjúlfr ok allt hans föruneyti, nema 4 [5]) menn komust á skóg, ok fóru síðan á fund kons, ok sögðu honum þessi tíðendi, ok spurðist þetta víða.

### *Þorsteinn vann tröllin.*

10. Þat er at segja at Styrkar talaði við Þorstein, ok spurði hvârt hann vildi fara með honum á Heiðarskóg. Þorsteinn lèzt búinn þeirrar ferðar; bjuggust þeir einn morgin snemma, ok fóru á skíðum upp á fjall, ok lintu [6])

---

[1]) 50, *allir.* [2]) er bjó við Heiðaskóg, *b. allir inni.* [3]) konur mættu, *B.* kóngr mætti *C. G. H.* [4]) ómannlig, *B. G.* illmannlig, *C.* [5]) 3, *B. H. G.* [6]) lèttu, *allir.*

eigi fyrr enn þeir komu at kveldi dags til eins sæluhúss, ok ætla þar at vera um nóttina; skiptu þeir þá verkum, skyldi Þorsteinn vatn sækja, en Styrkar eld kveikja. Þorsteinn gengr þá út ok tók upp spjót, er Styrkar hafði gefit honum, ok vatzfötur [1]) í aðra hönd, ok er hann kemr mjök til vatzins, sá hann stúlku gánga með vatzfötur, hûn var ekki forráðshá, en ógnar digr, ok er hûn sèr Þorstein, kastar hûn niðr fötunum, ok bregðr við hart, ok hleypr aptr á veg [2]); Þorsteinn lætr ok eptir sínar vatzfötur, ok hleypr eptir, en er stúlkan sèr þat, rykkir [3]) hûn hart undan, hleypr þá hvort sem getr, ok dregr þá hvârki sundr nè saman með þeim; gengr þessu þar til er Þorsteinn sèr skála standa mjök stóran ok rammgervan, þar hleypr þessi stúlka inn í, ok skellir aptr hurðu; en er Þorsteinn sèr þat, skýtr hann eptir henni spjótinu, ok kemr í skála hurðina, [ok flýgr í gegnum hurðina [4]). Þorsteinn gengr þá at skálanum ok inn í, finnr spjót sitt á gólfinu, en ekki sèr hann til stúlku sinnar, honum verðr gengit innan um skálann ok þar til, er hann kemr at einni lokrekkju, þar brann ljós á kertistiku. Þorsteinn sèr at kona liggr í sænginni, ef konu skyldi kalla, hûn var bæði há ok digr ok at öllu tröllslig, hûn var stórskorin mjök í audliti, en álits [5]) bæði svört ok blá, hûn lá í

[1]) 2, *b. inni* *C. H.* [2]) burt, *B.* [3]) víkr, *B.* hleypr, *H. G.* [4]) *v. í alla.* [5]) á hörund, *H.* þarmeð, *B.*

einum silkiserk, hann var því líkastr sem hann væri þveginn í mannablóði, flagðit var þá í svefni, ok hraut ógrliga hátt, skjöldr ok sverð hèkk upp yfir henni. Þorsteinn steig uppá rekkjustokkinn ok tók ofan sverðit ok brá; hann fletti þá klæðum af flagðinu, sá hann þá at hûn var öll alloðin, nema einn díli undir hinni vinstri hendi [sá hann at snöggr var [1]); þat þóttist hann vita, at annathvort mundi hana þar járn bíta eðr hvergi annarstaðar; hann leggr sverðinu á þessum sama flekk [2]) ok fellr á hjöltin, sverðit bítr svâ, at oddrinn stóð í dýnunni. Kerlíng vaknaði þá ok eigi við góðan draum, ok fálmaði höndunum ok spratt upp. Þorsteinn hefir allan einn rikkinn, at hann slökkir ljósit, ok stökkr upp yfir flagðit í sængina, en hûn hleypr fram á gólfit, ok ætlar at vegandinn muni til dyranna leitat hafa, en er hûn kemr þar, sæfist [3]) hûn á sverðinu ok deyr. Þorsteinn gengr þá at henni, ok kippir burt brandinum ok hefir með sèr; hann gengr þá þar til, er hann kemr at hurðu, hûn var greypt í stokk ok hnígin eigi [4]) allt í klofa, hann sá mikinn mann á palli sitja ok mjök stórskorinn, [ok hèngu yfir honum öll herklæði [5]); á aðra hönd honum sat mikil skessa ok illilig ok ekki all eldilig [6]); piltar 2 lèku á gólfinu, þeim var sprottit hár or kolli; skessan tók til orða: hvört sifjar þik, Járnskjöldr

[1]) *v. í alla.* [2]) blett, *B.* [3]) svæfist, *B. C. G.* [4]) *v. í alla.* [5]) *v. í H.* [6]) ellilig, *B. C. G.*

faðir? eigi er, Skjaldís dóttir! liggja á mèr hugir stórra manna; hann nefndi þá piltana annann Hák [1]) en annann Haka [2]), ok bað þá framgánga tilSkjaldvarar móður sinnar, ok vitahvörthûnvekti eðr svæfi. Skjaldís svaraði: úráðligt er, faðir! at senda úngmenni í myrkri, þvíat ek vil segja þèr, at ek sá í kveld hlaupa 2 menn ofan af fjalli, þeir eru svâ fóthvatir, at ek hygg at þat sè fátt af vorum mönnum, at þeim standist; eigi þiki mèr á því liggja, segir Járnskjöldr, þvíat þá eina menn sendir konúngr híngat, at ek óttumst þá ekki; þvíat þat er einn maðr at ek hræðumst, en sá heitir Þorsteinn, ok er Ornýjarson utan af Íslandi [3]), en svâ er sem mèr hángi [blað [4]) fyrir auga um öll mín forlög, hvat sem því veldr; úlíkligt er þat, faðir! segir hûn, at sá Þorsteinn komi nökkurn tíma á Heiðarskóg. Piltarnir gengu nú fram, en Þorsteinn veik sèr frá, þeir hlaupa fram ok út; en er nökkur stund var liðin, tók Skjaldís til orða: fram fýsir mik at gánga; nú hleypr hûn fram á hurðina hart ok heimsliga. Þorsteinn snýr þá undan, en er hûn kemr at útidyrum, þá fellr hûn um móður sína dauða; henni verðr þá kalt ok kynligt við, hûn hleypr þá út or skálanum; í því kemr Þorsteinn at, ok höggr af henni höndina með sverðinu

---

[1]) Hauk, *B. G.* Hrók, *H. C.* [2]) Jaka, *B.* [3]) ok er hèr fyrir skömu kominn til Noregs ok er á vist með Styrkari á Gimsum, *b. allir inni.* [4]) blaka, *B. G.* blöð, *C.* blað fyrir blað, *F. mun vera pennavilla.*

Skjaldvararnaut; hûn vill þá inn aptr í skálann, en Þorsteinn ver henni dyrnar, hûn hafði skálm í hendi, þau sækjast um hríð, en svâ lýkr með þeim at Skjaldís fellr dauð; í því kom Járnskjöldr út, hann hafði brugðit sverð í hendi, bæði bjart ok bitrligt, svâ at Þorsteinn þóttist ekki slíkt sèt hafa, hann höggr þegar til Þorsteins, hann veik sèr við höggit ok varð þó sár á læri, sverðit rendi niðr i völlinn allt upp at hjöltum, laut Járnskjöldr þá við, en Þorsteinn reiddi upp sverðit Skjaldvararnaut bæði hart ok títt, ok höggr til Járnskjaldar, þat högg kom á öxlina, tók af höndina ok fótinn, fèll Járnskjöldr þá við; Þorsteinn lætr þá skamt stórra höggva í milli, ok höggr þá af honum höfuðit; eptir þat gengr Þorsteinn inn í skálann, en er hann gengr inn, varð hann eigi fyrri varr við, enn hann var gripinn upp ok færðr niðr; Þorsteinn finnr þá, at þar var kominn Skjaldvör kerlíng, ok var þá sýnu [1]) verri viðreignar enn fyrr, hûn greyfist [2]) þá niðr at Þorsteini, ok ætlar at bíta sundr í honum barkann; Þorsteini kemr þá í hug at sá mun mikill vera, er skapat hefir himin ok jörð, hafði hann ok heyrt margar sögur ok merkiligar frá Ólafi konúngi ok þeirri trú, er hann boðaði, heitir nú af hreinu hjarta ok heilum huga, at taka við þeirri trú, ok þjóna Ólafi meðan hann lifði, ef hann kæmist heill ok lífs

[1]) synum, *B.* [2]) greiptist, *C.* lytr, *G.*

í brott af [allri kunnáttu [1]); ok er hûn ætlaði tönnum at víkja at barka Þorsteins, en han hafði stadfest heitit, kemr geisli inní skálann ógrliga bjartr, ok stendr þvert framan í ögun kerlíngar; við þá sýn varð henni svâ íllt, at dró or henni mátt ok magn [2]) allt, hûn tók þá at geispa niðörkliga [3]), hleypr þá or henni spýja, ok ofan í andlit Þorsteini, svâ at náliga hèlt honum við bana af ilzku ok óþef þeim er af stóð; þikir mönnum ok eigi örvænt, at í brjóst Þorsteini muni aíkomit hafa nokkur partr, sakir þess at mönnum þikir sem hann hafi eigi síðan [dyggliga einhamr [4]) verit, [hvört er því veldr meir spýja Skjaldvarar, eðr þat at hann var útborinn [5]); liggr nú hvorttveggja þeirra í milli heims ok heljar, svâ at þá mátti hvorki [6]) uppstanda.

*Frá Þorsteini.*

11. Hitt er at segja at Styrkarr er nú í sæluhúsinu, ok þikir Þorsteini dveljast, kastar hann sèr [þá upp í sætit [7]), ok er hann (hefir) legit nokkura stund, hlaupa þar inn piltar 2, [mjök illsvipligir [8]), ok hafði sitt sax hvor í hendi, sækja þegar at Styrkari, en hann grípr stokkinn frá sætinu, ok lemr þá með, þar til er hann drepr þá báða, síðan gengr hann út or skálanum, grunar þá hvat Þorstein mun dvelja, gengr

[1]) Heiðarskógi, *allir.* [2]) megn, *B. H. C.* [3]) öfurliga. *B. C. G.* ógurliga, *H.* [4]) samr maðr. *B. G.* [5]) *v. í B.* [6]) hvörugt, *B. C. G.* [7]) niðr, *B. C. H.* [8]) ok voru mjök svipligir, *allir.*

nú þartil er hann kemr at skálanum, sèr nu vegs ummerki, at þar liggja 2 flögð drepin, en Þorstein sèr hann hvörgi, þikir nú uggligt [1]) at hann muni í nokkurum nauðum staddr vera, heitir nú á skapara himins ok jarðar, at taka við þeirri trú, sem *Ólafr konúngr* boðar, ef hann fyndi á þeirri nátt Þorstein fèlaga sinn lífs ok heilan, gengr síðan inn í skálann, ok kemr þar at, sem þau Skjaldvör ok Þorsteinn liggja, spyr þá hvort Þorsteinn megi nokkut mæla, en hann segir [þat eigi trauða [2]), biðr hann hjálpa þá til. Styrkarr tekr þá til Skjaldvarar, ok dregr hana af ofan. Þorsteinn stendr upp brátt, ok er stirnaðr mjök af öllu saman umfángi [3]) því, er hann hafði átt við flögðin ok faðmlögum Skjaldvarar, brjóta þeir þá Skjaldvöru kerlíngu á háls, ok gekk þeim þat hið tregligasta, þvíat hún var harðla hálsdigr; segir Þorsteinn nú Styrkari allt frá ferðum sínum. Styrkarr ansaði: mikill afreksmaðr ertu, svâ at þat er líkast, at þessa þinna afreksverka sè getit, meðan Norðrlönd eru bygð; taka þeir nú ok draga saman öll flögðin, ok kynda at bál ok brenna upp at köldum kolum; síðan kanna þeir skálann, ok finna þeir ekki fèmætt, fara í burt síðan ok heim á Gimsar. Spyrjast nú þessi tíðendi, ok þykja mikil vera.

---

1) líkligt, *allir.* 2) þat sé satt, *B. C. G.*
3) umsvifum. *E.* ómaki, *C.*

*Ívarr kendist faðerni Þorsteins.*

12. Ólafr konúngr sat á veizlu á Hörðalandi, þángat fara þeir Styrkarr ok Þorsteinn, ok gánga fyrir konúng ok kveðja hann; þar var Ívarr ljómi þá með konúngi í svâ mikilli virðíngu, at [2 menn sátu þá upp í milli þeirra konúngs [1]). Þorsteinn snýr þá fyrir Ívarr með brugðit sverðit Skjaldvararnaut, ok stakk blóðreflinum fyrir brjóst honum, ok mælti: gjör þú annathvört at ek þrýstir ótæpt blóðreflinum, ella gakk þú við faðerni at mèr. Ívarr svarar: mèr þikir sæmd í at ega þik at syni, áttu ok svâ góða móður, at ek veit at hûn mundi þat eigi sagt hafa, nema satt væri, vil ek at vísu við þèr gánga. Konúngr telr þá trú fyrir þeim sem öllum öðrum, er á hans fund kvomu; þeir lètu þat auðsótt af sinni hendi; segja þá konúngi glöggliga allan atburð sinnar þarkvomu ok frá þeim tíðendum, er gjörðust á Heiðarskógi. Konúngr geldr þá margfaldt lof guði fyrir þær jartegnir, er hann veitti syndugum mönnum hèr í heimi; voru þeir síðan skírðir báðir [2]), fór Styrkarr heim á Gimsar, ok hèlt öllum þeim veizlum, er hann hafði fyrr haft, en Þorsteinn gerðist maðr Ólafs konúngs ok fylgði honum til dauðadags ok Ívar faðir hans, ok þóttu vera hinir vöskustu menn.

---

[1]) at hann sat fjórði frá konúngi, *allir.* [2]) Þorsteinn ok Styrkárr, *b. inni B, C, H.*

*Þorsteinn vann blótnaut.*

13. Hárekr hèt maðr hann bjó á Reinu [1]) í Þrándheimi, lendr maðr ok ekki mjök vinsæll, hann hafði tekit við kristni, en þó var konúngi sagt, at eptir mundi nokkut af fyrnsku í fari hans, því tók konúngr þar veizlu, ok vildi reyna hvat satt var í; [þar var veizla fögr. Hárekr var öfundsamr ok illgjarn [2]), hönum lèk öfund á virðíngu Þorsteins. Þat var einn dag at Hárekr talaði við Þorstein, ok spurði hann af sínum afreksverkum, en Þorsteinn sagði slíkt er hann spurði; ætlar þú nokkurn mann sterkara í Noregi enn þik, segir Hárekr? Eigi veit ek þat svâ víst, segir Þorsteinn; hvorr ykkarr konúngs ætlar þú at sterkari sè, segir Hárekr? Allt mun mik annat meira skorta við konúng enn afl, segir Þorsteinn, ok mun ek þó eigi komast til jafns við hann um þat. Þeir skilja nú tal sitt; ok um daginn eptir sagði Hárekr konúngi, at Þorsteinn hefði jafnazt til við hann um allar íþróttir. Konúngr gaf sèr fátt um þat. Nokkuru síðar talaði konúngr um, at þeim væri þat ráð, er til hefði jafnazt við hann, at reyna þá íþróttir sínar, eða er þat satt, Þorsteinn! at þú hefir þat talat, at þú værir jafn mèr at íþróttum eðr framar [3])? Eigi hefir ek svâ talat, herra! segir Þorsteinn, eðr hverr sagði yðr þat? Há-

[1]) Reiner *B*, Reyni *C. H. v. f. G.* [2]) *v. f. B.*
[3]) meirri *B, C. H.*

rekr, sagði konúngr. Hví sagði hann yðr síðr af blótnauti því, er hann blótar á laun, þvíat þat mun þó sannara; en þat sagða ek, herra! at mik mundi allt meira skorta við yðr enn afl, ok munda ek þó eigi komast til jafns við yðr um þat. Er nokkut þat satt, Hárekr! sagði konúngr? Lítit mun þar til haft, herra! sagði Hárekr. Lát oss sjá naut þat, er þú hefir svâ mikil mæti á, segir konúngr. Þat skal í yðru valdi, herra! segir Hárekr, ok skulu við þá fara fram á skóginn. Þeir gerðu svâ; ok er þeir koma þar, sjá þeir nautaflokk mikinn, þar var með uxi ógrliga stór ok illiligr [1]), svâ at konúngr þóttist slíkan úsènan hafa, hann öskraði ógrliga [ok lèt mjök illiliga [2]). Hárekr mælti: hèr er nú nautit, herra! ok hefi ek því mætr á uxa þessum, at hann er mjök elskr at mèr. Sè ek víst, sagði konúngr, ok lízt mèr illa á; eðr hvat er nú, Þorsteinn! viltu reyna afl þitt ok taka naut þetta, þvíat mèr þikir sem eigi muni gagn í at hann lifi lengr. Þorsteinn hleypr þá fram í nautaflokkinn ok þar at, sem uxinn var, nautit snýr undan, en Þorsteinn grípr í fótinn hinn eptra, ok svâ hart at bæði rifnaði húð ok hold, svâ at fótrinn [3]) gekk af með öllu [4]) þjóinu, ok hèlt á eptir, ok gekk svâ fyrir konúng, en blótnautit datt niðr dautt, en svâ hafði nautit

[1]) illúðligr, *B. C,* [2]) er hann sá mennina, *allir.* [3]) ok lærið *b. inni B. H.* [4]) í, *b. inni B. H.*

viðspyrnt ramliga, at þat var sokkit hinum fyrrum [1]) fótum niðr í jörðina upp at knjám. Konúngr mælti þá: sterkr maðr ertu, Þorsteinn! ok ekki mun þèr aflafátt verða, ef þú átt við menska menn, mun ek nú auka nafn þitt, ok kalla þik Þorstein uxafót, ok hèr er einn hríngr, at ek vil gefa þèr at nafnfesti. Þorsteinn tók við hríngnum, ok þakkaði konúngi, [því at þat var góðr gripr [2]). Konúngr fór nú heim á bæinn, ok kastaði sinni eigu þar á allt, en rak Hárek or landi fyrir úhlýðni sína ok blótskap.

*Þorsteinn drap tröll.*

14. Innan lítils tíma spurðist enn af Heiðarskógi at þar lágu flögð á, svâ at menn máttu þar eigi framkomast. Styrkar sendi þá orð Þorsteini, at þeir skyldu enn fara á Heiðarskóg; Þorsteinn brá við skjótt, ok fór [með konúngs lofi [3]) ok hitti Styrkar, fara nú 2 samt ok koma í þat sæluhús sem þeir voru fyrr, og voru þar um nóttina; um daginn eptir er þeir voru útistaddir, sá þeir 15 [4]) menn á skóginum, ok var eitt kona í; þeir snúa þángat til. Þorsteinn kennir þar stúlku sína, ok hafði heldr vaxit, því at hûn var nú hit mesta flagð. Hûn kastaði orðum á Þorstein, ok mælti: þar ertu kominn, Þorsteinn uxafótr! ok komtu hèr svâ næst, at ek mátti minni tilreka, drapt föður minn móður ok systur, en Styrkarr bræðr mína tvo, en þú eltir mik, varð ek hrædd mjök, sem eigi var ólíkligt um

[1]) fremri B. C. H. [2]) v. i. B. C. H. [3]) v. i. B. H. [4]) 11, B. 12, G.

9 [1]) vetra gamla mey-stúlku, en nú er ek 12 vetra; ek fór í jarðhús eitt, er við skildum, en meðan þit börðuzt ok faðir minn, tínda ek saman alla góðgripi þá, er í skálanum voru, niðr í jarðhúsit undir sæng móður minnar; nokkuru síðar giptumst ek þessum [2]) manni Skelkíngi [3]), ok skilda ek þat til við hann, at hann skyldi drepa hvorntveggja ykkarn Styrkar; nú er hann hèr kominn, ok bræðr hans 11 [4]), ok muntu nú þurfa at sýna [karlmannliga vörn [5]), ef duga skal [6]). Slær nú síðan í bardaga með þeim, sækir Skjaldgerðr þar at, er Þorsteinn var fyrir, svâ hart at Þorsteinn þikist varla í meiri raun komit hafa; en svâ lýkr þó með þeim, at Þorsteinn kemr á Skjaldgerði höggi fyrir ofan mjaðmirnar med sverðinu Skjaldvararnaut, ok tekr í sundr í miðju; þá hafði Styrkarr drepit Skelkíng [7]); vinna þeir nú skjóttum við hina 11 [8]), ok drepa þá alla; síðan fara þeir í skálann, brjóta upp jarðhúsit, ok bera þaðan í brott marga góðgripi, *fóru síðan heim á Gimsar, ok skiptu fè með sèr.* Síðan bað Þorsteinn þá Herdísar systur Styrkars ok fèkk hennar; segja menn ok at þau ættu son, er Brynjar [9]) hèt. Fór Þorsteinn nú til Ólafs konúngs, ok var með honum síðan, ok fèll á Orminum lánga.

---

[1]) 3, *B*, 11, *G.* [2]) hefðar, *b. inni B. H.* [3]) Skilmíngi, *B.* Skeljúngi, *C. G.* [4]) 9, *B. C.* [5]) karlmensku bragð, *B. C. G.* [6]) ok muntu nú at keyptu komast áðr lykr *H.* [7]) Skilmíng, *B.* Skeljúng *C.* [8]) 9, *B. C. H.* 10, *G.* [9]) Krummr *B. C.*

# Þáttr

## Helga Þórissonar.

Þórir hèt maðr, er bjó í Noregi á bæ þeim, er á Rauðabergi heitir; þessi bær er skamt frá Víkinni. Þórir átti 2 syni, hèt annar Helgi en Þorsteinn annar; báðir voru þeir þrifligir menn, ok var þó Helgi framar um íþróttir. Faðir þeirra var hersir at nafnbót, hann var í vináttu við Ólaf konúng. Þat var á einu sumri at þeir bræðr höfðu kaupferð norðr til Finmerkr, ok höfðu smjör ok flesk til kaups við Finna, fengu þeir góðakaupferð, ok hèldu aptr at áliðnu sumri, ok kvomu um dag við nes þat, er hèt Vímund, þar var allgóðr skógr, gengu þeir á land upp, ok fengu nokkut mösurtrè; verðr Helga lengra gengit í skóginn enn öðrum mönnum, síðan kastar yfir myrkri miklu, svâ at hann hittir eigi til skipsins á þeim aptni; tekr nú ok skjótt at dimma af nótt, þá sèr Helgi hvar 12 konur ríða or skóginum, þær voru allar á rauðum hestum ok í

rauðum reiðklæðum, þær stigu af baki; allr reiðíngr hestanna þá glóaði við gull; ein bar þar af öllum um vænleik, ok allar aðrar þjónuðu henni þessi hinni sköruligu konu; hestar þeirra gengu á gras; eptir það settu þær niðr eitt fagrt tjald, var þat stafat með ýmsum litum ok víða gullskotit, ok öll höfuðin voru við gull búin, er af upp gengu landtjaldinu, ok svâ stöngin, er upp stóð ok mikill gullknappr ofan á; ok er þær höfðu umbúizt, reistu þær borð, ok báru á margskonar krásir; þá tóku þær handlaugar; vazkall ok munnlaugar (voru) gervar af silfri. Helgi stóð nærri tjaldi þeirra ok horfði á. Sú er fyrir þeim var mælti: Helgi! gakk híngat, ok þigg hèr mat ok drykk með oss. Hann gerir svâ. Helgi sèr at þar er fríðr drykkr ok önnur fæðsla ok væn ker. Þá voru borð ofan tekin ok hvílur búnar, ok voru þær mikln skrautligri enn annarra manna sængr. Sú kona spyr Helga, er fyrir þeim var, hvârt hann vildi heldr liggja einn saman eðr hjá henni. Helgi spyr hana at nafni. Hûn svarar: ek heiti Íngibjörg, dóttir Gudmundar af Glæsisvöllum. Helgi mælti: hjá þèr vil ek liggja; ok svâ gerðu þau 3 nætr í samt, var þá bjart verðr, standa þau þá upp ok klæðast. Íngibjörg mælti þá: nú munu við hèr skilja, eru hèr kistlar tveir, annarr er fullr af silfri, en annarr af gulli, er ek vil gefa þèr, ok seg öngum manni hvaðan þat kom. Eptir þat ríða þær burt sama veg sem þángat, en hann fór til skips síns; fagna þeir honum vel, ok spyrja

hvar hann dvaldist, en hann vill þar ekki frá segja; halda þeir þá suðr með landi, ok komu heim til föður síns, ok hafa aflat mikils fjár. Faðir Helga ok bróðir spyrja hvaðan honum kom svâ mikit fè, sem hann hafði í kistlunum, en hann vill þat eigi segja. Nú líðr svâ fram til jóla. Þat var eina nótt at kemr á býsna veðr; Þorsteinn mælti við bróður sinn: við skulum standa upp, ok vita hvat líðr um skip okkart. Þeir gera svâ, ok var þat fast vel. Helgi hafði látit gera drekahöfuð á skip þeirra upp á stafnana, ok búa vel fyrir ofan sjó; fór þat fè þar til, er Íngibjörg gaf honum, dóttir Gudmundar konúngs, en sumt læsti hann í dreka hálsinum. Þá heyra þeir brest mikinn, þar ríða at þeim 2 menn, ok höfðu Helga í burt með sèr; veit Þorsteinn eigi hvat af honum verðr; fellr þá veðrit skjótt. Þorsteinn kemr heim ok segir föðr sínum þenna atburð, ok þikir þetta mikil tíðendi; ferr hann þegar á fund Ólafs konúngs, ok segir honum hvar komit var, ok biðr hann nú verða vissan um, hvar sonr hans er niðrkominn. Konúngr segist þat gera mundu, sem hann beiddi, en kveðst þó úvíst hugr um segja, hver nyt frændum hans mundi at honum verða. Síðan fór Þórir heim, ok líðr svâ þetta ár ok alt fram á jól annat ár, ok sitr konúngr á Alreksstöðum um vetrinn; þá kemr átti dagr jóla, ok um kveldit gánga 3 menn inn í hallina fyrir Ólaf konúng, þá er hann sat yfir borðum; þeir kveðja hann

vel; konúngr heilsar þeim vel í móti; er þar kominn Helgi, en menn kenna eigi hina 2. Konúngr spurði þá at nafni, en hvortveggi kveðst Grímr heita: erum við sendir af Guðmundi á Glæsisvöllum híngat til yðvar, hann sendi yðr kveðju sína ok þarmeð 2 horn. Konúngr tók við, ok voro gullbúin; þetta voro allgóðir gripir. Ólafr konúngr átti 2 horn, er Hýrníngar voro kallaðir, ok þó at þau væri harðla góð, þá voru þau þó betri, er Guðmundr sendi honum. Þess beiddi Guðmundr konúngr yðr, herra! at þèr værit vinir hans, ok þótti mestu varða um yðra þikkju, meirr enn allra annarra konúnga. Konúngr svarar þá öngu, en lætr vísa þeim til sætis fèlögum. Konúngr lætr fylla hornin Gríma af góðum drykk, ok lætr biskup blessa, ok lèt færa þeim Grímum, at þeir drykki fyrst af; þá kvað konúngr vísu þessa:

Gestir skulu hornum
í gegn taka
meðan hvílast látum þenna
þegn Guðmundar;
ok af samnafna
sínum drekki,
svâ skal Grímum
gott öl gefast.

Þá taka Grímar við hornunum, ok þikjast nú vita hvað biskup hefir yfirlesit drykkinum. Þeir segja þá: eigi ferr nú fjarri því, sem Guðmundr konúngr vor gat til; er þessi konúngr prettóttr ok

kann illa gott at launa, þvíat konúngr vor gerði til hans sæmiliga; stöndum nú upp allir ok verðum í brottu hèðan. Svâ gera þeir, verðr þá hark mikit í stofunni; þeir slógu niðr drykkinum af hornunum ok slöktu login, þá heyrðu þeir bresti stóra. Konúngr bað guð til gæta, ok bað menn uppstanda, ok stöðva þetta hark; síðan verða þeir Grímar úti ok Helgi með þeim; voru þá ljós upptendruð í konúngsherbergi; sjá þeir þá drepna 3 menn, en þar liggja hornin Grímar á gólfinu hjá hinum dauðum. Þetta er undr mikit, sagði konúngr, ok væri betr at slík yrði sjaldan, ok þat hefi ek heyrt sagt af Guðmundi af Glasisvöllum, at hann sè mjök fjölkunnigr, ok illu megi helzt við hann skipta, ok eru þeir menn illa komnir, er undir hans valdi eru, ef vèr mættim nokkut at gera. Konúngr lèt varðveita hornin Gríma, ok af drekka, ok dugir þat vel; þar er nu kallat Grímaskarð ofan at Alreksstöðum, er þeir hafa austan farit, ok er þat öngra manna at fara þar síðan. Nú líðr af vetrinn, ok kemr annarr átti dagr jóla, ok er konúngr í kirkju ok hirð hans at hlýða messu, þá koma þar 3 menn til kirkju dyra ok er einn eptir, en 2 fara í brott ok mæla þetta áðr: hèr færum við þèr Gretti, konúngr! ok er eigi víst nær þú færir af þèr. Kenna menn þar Helga; verða menn þess varir at hann er blindr; frètti konúngr þá hverju gegndi um hans hag, eðr hvar hann hefði verit þessa stund alla. Hann segir þá

konúngi fyrst frá því, er hann fann konurnar í skóginum, þá frá því, er þeir Grímar gerðu veðrit at þeim bræðrum, er þeir vildu bjarga skipinu, ok síðan höfðu þeir Grímar hann með sèr til Guðmundar á Glasisvöllum, ok færðu hann Íngibjörgu dóttur Guðmundar. Þá mælti konúngr: hversu þótti þèr þar at vera? Allgott, segir hann, ok hvergi hefir mèr betra þótt. Þá spurði konúngr at um siðu Guðmundar konúngs ok at fjölmenni eðr athöfn; en hann lèt yfir öllu vel, ok sagði at hans var miklu fleiri enn hann fengi talit. Konúngr mælti: hví fóru þèr svâ skjótliga í brott í fyrra vetr. Guðmundr konúngr sendi þá til at svíkja yðr, segir hann, en fyrir bænir yðrar lèt hann mik lausan, svâ at þèr mættit vita, hvað af mèr væri orðit; en því fóru vèr svâ skjótt í brott næstunni, at þeir Grímar höfðu eigi náttúru til at drekka þann drykk, er þèr lètut signa; urðu þeir þessu reiðir, at þeir sá sik yfirstigna, ok því drápu þeir menn yðra, at svâ sagði Guðmundr konúngr fyrir, ef þeir fengi ekki mein yðr gert, en hann sýndi tign sína í því at hann sendi yðr hornin, at þèr mundit þá síðr eptir mèr leita. Konúngr spurði: hví fórtu nú í brott öðru sinni? Hann svarar: Íngibjörg olli því, hûn þóttist eigi mega liggja hjá mèr nema með meinlætum, ef hûn kæmi við mik beran, ok því fór ek mest í brott, enda vildi Guðmundr konúngr ekki þreyta við yðr, þegar hann vissi at þèr vildut

mik í brott hafa; en um tign ok risnu Guðmundar konúngs má ek eigi í fám orðum segja, ok um fjölmenni þat, er með honum er. Konúngr spurði: hví ertu blindr? Hann svarar: Íngibjörg Guðmundardóttir greip or mèr bæði augun, þá er við skildum, ok sagði at konur í Noregi mundu mín skamma stund njóta. Konúngr sagði: makligr væri Guðmundr meingerða af mèr fyrir þau manndráp, er hann gerði, ef guð vildi þat vera láta. Síðan var sent eptir Þóri föður Helga, ok þakkaði hann honum vel, er sonr hans var aptr kominn or trölla höndum. Ferr hann síðan heim, en Helgi er eptir með konúngi ok lifir til annarrar jafnleingðar, en konúngr hefir hornin Gríma með sèr, þá er hann fór síðasta sinn or landi. En þat segja menn, þá er Ólafr konúngr hvarf af Orminum lánga, at hyrfi ok hornin, ok hafi engi maðr þau sèt síðan; ok lýkr hèr frá Grímum at segja.

# Þáttr
## Hrómundar halta.

1. Eyvindr Sörkver hèt maðr, er út kom með Íngimundi gamla, hann nam Blöndudal vestr frá Skagafirði, ok vildi eigi lifa eptir Íngimund, ok rèð sèr sjálfr bana. Hann átti son við ambátt sinni í elli, er Hrómundr hèt, hann átti Auðbjörgu dóttur Márs Jörundarsonar háls, hûn var ambáttar dóttir. Hrómundr var löngum með Mási á Márssttöðum, er hann barðist við sonu Íngimundar um Deildarhjalla; þar vo Hrómundr Högna, son Íngimundar, ok varð fyrir þat hèraðssekr milli Jökulsár í Skagafirði ok Hrútafjarðarár. Hrómundr varð sárr á fæti, ok var jafnan haltr síðan, af því var hann kallaðr Hrómundr halti. Hann keypti Fagrabrekku land fyrir vestan Hrútafjarðará, ok bjó þar um hríð; hann gerði virki mikit um bæ sinn, ok var hinn vænsti maðr ok mikill fyrir sèr. Son hans hèt Þorbjörn Þyna, ok var Auðbjörg móðir hans; hann átti Guðrúnu dóttur Þorkels á Kerseyri, er nam sunnan Hrútafjarðarháls; þeirra

son var Þorleifr, er Hrómundarfóstri var kallaðr. Hallsteinn hèt son Hrómundar. Allir voru þeir frændr miklir menn ok sterkir. Son Þorkels á Kerseyri hèt Þórir, bróðir Guðrúnar, konu Þorleifs; hann bjó at Melum hit næsta. Helga hèt dóttir hans, ok var fríð kona sjónum ok skörúngr mikill.

*Útkoma Sleitu-Helga.*

2. Þat bar til tíðenda eitt sumar, at skip kom af hafi í Hrútafirði á Borðeyri; Sleitu-Helgi hèt stýrimaðr, en Jörundr bróðir hans; þeir voru 12 menn á skipi; þeir voru úsvífir menn ok illorðir, ok áttu menn lítt kaup við þá, ok fóru heldr utanhèraðs til kaupa til annarra skipa; frèttu menn at þeir voru víkíngar ok ránsmenn, en höfðu ekki nema ránsfè, ok er áleið sumarit, komu menn ekki til þeirra; þá mælti Helgi: þess vil ek nú fýsa, at þèr sèt eigi illfengir, ok hafit hit betra skaplyndi hèr við sveitarmenn, ok takit yðr vistir med bóndum, þvíat mèr lízt fólk þetta muni torsveigt verða, ok kunna illa ágáng; hefi ek spurt at menn eru hèr sterkir ok afætur miklar; ok er hálfr mánaðr leið, voro þrír menn vistaðir. Þá mælti Helgi: eigi eru menn hèr fúsir at taka við oss, ok er þat vorkunn, ok látum enn sveigjast til við þá; ok svâ gerðu þeir; en svâ hafði lag álagzt, at eigi tóku menn við þeim. Eitthvört sinn reið Þórir frá Melum til skips ok hitti Helga. Helgi tók allglaðliga við honum, ok spurði hverju

hann vildi kaupa? Þórir kvað sèr nauðsýn á vera at kaupa við, þvíat hús mín liggja viðvelli. Helgi kveðst mundu gera honum kost á því at kaupa við svâ mikinn sem hann þyrfti: ok tak við oss öllum til vetrvistar. Hann kveðst eigi til þess færr, en vöru skortir mik eigi fyrir at gefa, eru þèr ok ekki vinsælir menn taldir; hann taldist undan at taka við þeim. Helgi mælti: allmjök sýna menn sik hèr í styggleik við oss, ok er þat þó líkast at þú setir eigi undan, bóndi! öllum auvisla við oss, ef þú tekr eigi við oss. Þórir kvað þat valda, er þeir höfðu fávingat. Helgi svarar at hann skyldi fyrir kostum ráða, ef hann tæki við þeim: ella er úsýnt hvârt þú ferr tvívegis. Ok er svâ var komit, mælti Þórir bóndi: nú er þú skorar svâ mjök á mik um þetta, þá skaltu eiða vinna at vorum landslögum fyrir yðr alla, at þèr skulut engan újafnat gera í vetr neinum manni, eðr þær sakir at lögmætar eru, hvorki við mik nè aðra, eigi við hjón mín nè nábúa; mun ek veita yðr hús, en þèr skulut sjálfir fæða yðr. Helgi mælti: þú skalt ráða, bóndi! Síðan foru þeir þángat ok mötuðust einir í húsi ok sváfu þar. Ekki var þetta mjök þokkat af sveitarmönnum fyrir Þóri, ok þótti honum þetta ofráð vera; ok er þeir höfðu þar verit um hríð, þá bar opt saman fundi þeirra stýrimanns ok bónda dóttur, ok reittist á umtal [ok kossakveikíngar [1]) með alvöru

[1]) *gizkat. Skinnbókin hefir:* ok kossa ok kneikíngar.

ok blíðu, ok fylgði framkvæmd byrgisskapar. Þórir mælti: þat vilda ek, Helgi! at þú efndir heit þín við mik, ok gerðir mèr öngva skamm nè úvirðíng; ok lát af tali við Helgu dóttur mína, ok halt eiða þína við mik. Helgi kvedst ætla, at eigi mundi skjótt hrinda mega ást þeirra Helgu: ok er þèr engi úvirðíng í, bóndi! ef ek bið konunnar með rèttum landslögum, þeim sem hèr gánga, ok með slíku fè, sem þèr líkar. En er bónda þótti úsýnt til bóta, en menn úsvífir, þá rèð hann þat af, at hann gipti Helgu dóttur sína Sleitu-Helga, ok er gert brúðhlaup þeirra snemma vetrar; ok þaðan af voro þeir eigi stórilla við menn, ef ekki var tilgert við þá.

*Hrómundr stefndi Austmönnum.*

3. Þat bar til um vetrinn at Hrómundi hurfu stóðhross 5 saman, ok voro þau öll stórmjök feit; um þat voro margar getur, hvat af hrossunum mundi orðit. Synir Hrómundar kvóðust ætla, at menn mundi etit hafa, er hvergi spurðist til, en hrossin spök vön at vera. Hrómundr sagði: þat er mèr sagt um Austmenn þessa, at þeir hafi stærri slátr á borðum, enn aðrir menn viti vonir til kaupa þeirra; er ok ílt orð á þeim um hvívetna: nú eru 2 kostir til, at láta öngva umræðu á koma, ok mun þá ekki ílt afhljótast; eðr hætta á hvað eptirkemr, ok gánga at sínu. Þeir kvóðu þat víst betra, ok þat eitt til liggja at leita eptir. Hrómundr fann þá Miðfjarðar-Skeggja, er þá bjó á Skegg-

jastöðum í Miðfirði, ok höfðíngi var yfir þeim sveitum, ok rèðst um við hann, hversu með skyldi fara. Skeggi svarar: svâ spyrst mèr til, at Austmenn þessir sè harðir í horn at taka, ok vil ek heita yðr minni forsjá, hvat sem ígerist. Síðan fór hann, ok fóru þeir feðgar Hrómundr ok synir hans litlu eptir þetta til Mela, ok voru saman 10; Austmenn voro sumir úti, en sumir gengu út í því, er þeir riðu at; þeir höfðu litlar kvaðníngar hvorirtveggju. Þá mælti Hrómundr: svâ er háttat, Helgi! sagði hann, at mèr hafa hross horfit, ok er þat áhugi minn, at hèr sè niðrkomin. Ekki hafa menn slíkt við oss mælt fyrri, ok skal hèr fjandskapr í móti koma svâ mikill, sem vèr megum mestan yðr gjalda. Hrómundr mælti: þat er víkíngaháttr at afla fjár með ránum eðr svörfum, en þat er þjófaháttr at leyna eptir. Hrómundr leitaði við Þóri, hvat satt væri, eðr hvat hann vissi af. Þórir lèzt hvorki vita þá sanna nè úsanna at þessu. Hrómundr kvað honum lítilmannliga fara. Síðan biðr Hrómundr menn sína stefna þeim, ok var ráðinn maðr til at stefna hverjum þeirra; síðan fóru stefnur fram, ok voro Austmenn málóðir ok hlaupóðir, ok kvóðust þessa hefna skyldu; öngir urðu áverkar með mönnum á þeim fundi; skilja (þeir) við svâ búit.

*Ferð Austmanna.*

4. Hrómundr ok hans menn riðu nú heim; ok er þeir höfðu litla hríð heima verit, talaði

Hrómundr: vèr skulum auka þremr mönnum, ok láta bæta virki vort, er mjök er hrörnat, ok látum sem þeir muni efna þat, er þeir hètu eigi góðu, ok þann fjandskap allan, er þeir hètu, munu þeir eigi láta undangánga. Síðan sendu þeir málin öll til Miðfjarðar-Skeggja í Miðfjörð, ok fóru mál þessi til alþíngis, ok urðu Austmennirnir allir sekir um rossa stuld; en Hrómundr ok synir hans sátu heima um þíngit; en Austmenn bjuggust í burt frá Melum, ok mæltu vel til Þóris. Þeir ætluðu at búa skip sitt, ok lá leið þeirra um Fagrabrekku, ok voru þeir Hrómundr úti feðgar. Helgi mælti: þat skyldi verða, at yðr stæði gott ekki af virki þessu, ok þá skyldi yðr sízt lið at því verða, er yðr lægi mest við, ok vel mætti ek sjá þik blóðgan, Hrómundr! ok sonu þína. Hrómundr mælti: ekki grunum vèr illvilja yðvarn, en þat ætlum vèr, at nokkurir egi rauðu at snýta, áðr vèr sèm við velli lagðir. Nú skildu þeir at sinni.

*Bardagi þeirra Hrómundar ok Austmanna.*

5. Þat bar at einn morgin, at hrafn settist á ljóra ok skrækti hátt. Hrómundr var í rekkju sinni ok vakti ok kvað vísu:

Út heyri ek svan sveita  
sáraþorns er mornar  
bráð vekr borgin móðar  
bláfjallaðan gjalla;  
svâ gól fyrr, þá er feigir

fólknárúngar váru,
gumnar gaukr er gautar
gauts bragða spá sögðu.

ok enn kvað hann:

Hlakkar hagli stokkinn
hræs er kemr af sæfvi
móðr krefr morgin bráðar
márr valkastar báru;
svâ gól endr þá er unda
eiðs af fornum meiði
hræfa gaukr er haukar
hildínga mjöð vildu.

Ok nokkuru síðarr risu upp húskarlar bónda, ok gáðu eigi at láta aptr virkisdyrnar eptir sèr; ok þann sama morgin komu Austmenn, ok voru saman 12, þeir kvomu litlu síðarr enn húskarlar voru farnir frá virkinu. Þá mælti Helgi: nú verðr vel, göngum nú í virkit ok minnumst háðuligra orða ok svâ görða, ok vil ek at virkit verði þeim at gagni als öngvu, ef ek má ráða. Þorbjörn þyna vaknaði við mælgi þeirra, ok hljóp upp þegar ok til hurðar þeirrar, er var fyrir skálanum, ok sá út um glugg einn, er á var skorinn hurðinni at fornum sið, ok kendi Austmennina, at þeir voru komnir í virkit, ok gekk inn aptr; ok þá mælti Hrómundr: hvat er tíðenda, frændi? Þorbjörn svaraði: þat hygg ek at Austmenn sè komnir í virkit með ófriði, ok ætli at hefna orða þeirra, er vèr höfum talat við þá; en þat veit ek eigi, hversu at þeir hafa í virkit

komizt. Hrómundr spratt upp ok mælti: upp vèr þá, ok rekum vanmenni þessi af hendi, ok kaupum á oss gott orð, ok duguin drengiliga; hann eggjaði þá sonu sína ok svâ Þorleif fóstra sinn, ok var hann 15 vetra gamall, bæði mikill ok röskligr at sjá; hann bjóst ok til útgöngu, en konur sögðu hann ofúngan, ok kvóðu hann mundu feigan, en Hrómund ofgamlan vörn at veita. Hrómundr kvað þá vísu:

Varat mèr í dag dauði
draugr flatvallar bauga
búumst við ilmar jálmi
áðr nè görr ofráðinn;
ræki ek lítt, þó at leiki
litvandr hèðinn vitjar,
áðr var oss ofmarkaðr
aldr, við rauða skjöldu.

Síðan tóku þeir frændr vâpn sín allir fjórir: Hrómundr halti ok Þorleifr, Þorbjörn þyna ok Hallsteinn, ok gengu út þær dyr, er á voru enda hússins, ok fóru fyrir ofan þvertrè, en læstu hinar dyrnar, er á voru hliðvegginum. Austmenn hlupu uppí vegginn, ok skutu at þeim mjök harðfengiliga; þvíat Helgi var manna bezt vígr, mikill ok sterkr ok vaskligr; var hann nú æfr mjök, ok allir voru þeir illir viðreignar ok harðir, kvóðu þá Hrómund minni skyldu ega til at reka, ok þeir skyldi þá muna þjófsnafnit. Hrómundr kvað þá nógt mundu til vinna, ef þeir sækti í virkit. Vörðust þeir

þá eigi síðr með hlífum ok trjám enn vopnum, en Austmenn börðu grjóti ok skotum, ok sóktu at hit harðasta, en hinir vörðust allvel, ok voru eigi fleiri fyrir enn 4, þeir sendu ok ofan stórt grjót, ok þótt Hrómundr væri aldraðr, gekk hann vel fram ok var stórhöggr, ok með fulltíngi sona sinna ok Þorleifs fóstra síns fèllu 6 Austmenn, ok í þeirri hríð fèll ok Hrómundr ok Þorleifr fóstri hans; Austmenn þeir er eptir lifðu hrukku or virkinu allir; en Þorbjörn þyna hljóp eptir þeim, ok elti or virkinu alla þá er eptir lifðu; en er Þorbjörn vildi aptr lúka hurðina, þá skaut Helgi spjóti til hans, ok kom á hann miðjan, hann tók sjálfr spjótit or sárinu ok sendi aptr til Austmanna, ok kom á Jörund miðjan bróður Helga; Helgi þreif hann upp, þegar hann fèll til jarðar, ok kastaði á bak sèr, ok hljóp or virkinu ok með honum allir hans fèlagar þeir 5 er eptir lifðu. Hallsteinn hljóp eptir þeim, en þeir undan, þartil er þeir komu at læk einum, þeim er út er frá Fagrabrekku, þar vildi Helgi yfirhlaupa með Jörund bróður sinn; en háfir bakkar voru at tveim megin, ok varð honum aflfátt, ok skriðnaði Jörundr aptr af herðum honum, ok var þá dauðr. Helgi snaraðist þá við, ok í því kom Hallsteinn at honum, ok hjó af honum höndina, ok þá hèldu Austmenn undan, en Hallsteinn starfaði at Jörundi, ok fann at hann var dauðr, ok því bar þá undan, ok sá Hallsteinn þat, ok snèri þá aptr, varð hann þess víss

at faðir hans var dauðr ok Þorbjörn Þyna: Þorleifr var eigi eyrendr, hann bar hann inn. Konur spurðu hversu farizt hefði; hann sagði sem var. Þeir Helgi lètu út hinn sama dag, ok týndust allir fyrir Skriðins-enni. Þorleifr var græddr, ok bjó at Fagrabrekku, ok þótti góðr bóndi, en Hallsteinn fór utan, ok kom á fund Ólafs Tryggvasonar. Konúngr boðaði honum trú, ok var þat auðsótt, gerðist Hallsteinn þá konúngsmaðr, ok var með honum síðan, ok var hinn fræknasti drengr ok öruggr í framgöngu, ok vel virðr af Ólafi konúngi, ok svâ er sagt at hann hafi fallit á Orminum lánga, ok sýnt þar áðr hreystiliga vörn, ok aflat sèr svâ góðan orðstír, ok lýkr hèr frá honum at segja.

# Þáttr
## Haldórs Snorrasonar[1]).

Haldór son Snorra goða af Íslandi var með Haraldi konúngi Sigurðarsyni, meðan hann var utanlands, ok lengi síðan er hann fèkk ríki í Noregi, ok vel virðr af honum. Þat bar at eitthvört sinn, at íslenzkr maðr, sá er Eilífr hèt, varð fyrir reiði Haralds konúngs[2]), en hann bað Haldór flytja mál sitt við konúng, ok Haldór gerði svâ. Haldór var stríðmæltr ok hagorðr[3]) en mjök fátalaðr; hann bað konúng at Eilífr skyldi fá landsvist[4]) af honum. Konúngr neitti því þverliga. Haldór var þikkjumikill sem aðrir Íslendíngar, ok þótti illa, er hann fèkk eigi þat er hann beiddi; hann fór síðan burt [frá Haraldi[5]) ok Eilífr með honum; þeir komu á Gimsar til Einars Þambarskelfis, [ok beiddi Haldór, at hann mundi taka við þeim ok

---

1) Síðasti þáttr Ólafs sögu Tryggvasonar Noregs konúngs, *S.*
2) var sú savk til, at hann hafði drepit hirðmann konúngs, en þat greinir ei hvat til þess var; *b. v. B.*
3) harðorðr, *S.* 4) sætt, *B S.* 5) úr hirðinni, *B. S.*

veitá honum ásjá. Einar sagðist mundu við honum taka, með því móti [1]) at Haldór vildi ok þar vera með honum. Haldór mælti: hvar vísar þú mèr til sætis? Einar bað hann sitja í öndvegi gegnt sèr. Einar átti þá konu, er Bergljót hèt, hûn var dóttir Hákonar jarls illa, Sigurðarsonar Hlaða jarls [2]). Haldór gekk jafnan til Bergljótar, ok sagði henni mörg æfintýr, þau sem utanlands höfðu gerzt í ferðum þeirra Haralds konúngs. Maðr hèt Kali, hann var úngr at aldri ok nokkut skyldr Einari, illgjarn var hann ok nokkut öfundsjúkr, háðsamr ok hávaðamikill, hann var þá skósveinn Einars, ok hafði lengi þjónat honum. Kali var hagr vel á gull ok silfr, því var hann kallaðr Gyllíngar-Kali; [marga menn rægði hann við Einar, ok var sundrgerðamaðr mikill í orðum [3]) bæði sundrlausum ok samföstum. Hann hafði mjök í háði við Haldór, ok [bað aðra menn yrkja níð um hann [4]), en eingi varð til þess, því fèkzt Kali ok í at flimta hann. Haldór varð þess varr, ok einhvörn dag gekk hann til skemmu Bergljótar, ok er hann kemr at dyrunum, heyrir hann þar inn hámælgi mikla, var þar inni Kali ok [margir menn aðrir [5]); þeir bera þá fram

---

[1]) tók Einar vel við honum, þvíat þeir voro nokkut kunnir; hann bað Einar taka við Eilífi til halds ok trausts, en Einar sagðist þat ei mundi gera sakir þeirrar (reiði), er Haraldr hafði á manninum, nema þvíat eins, *B.* [2]) hûn var hin ræksta kona *b. v. B.* [3]) Kali var illa lyndr til manna, *þannig B.* [4]) vildi koma öðrum til þess með sèr. *B.* [5]) kompánar hans, *B.*

fyrir húsfreyju hróp þat, er Kali hafði kveðit [1]) um Haldór [2]). Bergljót bað þá þegja, ok sagði svâ: þat er illa gert at fást uppá ókunna menn með hrópyrðum ok háðsemi, ok munu yðr [3]) tröll toga túngu or höfði; hefir Haldór meirr verit reyndr at frækleik enn flestir menn aðrir í Noregi. Kali mælti: [ekki er ek hræddr við hann Morlanda [4]), þó at hann hafi mikil metorð af þèr, þvíat vær höfum spurt at hann var settr í dýflitzu út á Grikklandi, ok lá þar á ormshala athafnarlaus ok ekki megandi. Haldór þoldi eigi þessi atyrði, hljóp hann inn í herbergit at Kala, ok hjó hann banahögg, ok er Bergljót sá þat, bað hûn geyma dyranna, svâ at eingi kæmist fyrr út enn henni líkaði. Þá mælti Haldór: biðja vil ek, húsfreyja! at þú sjáir eitthvert gott ráð fyrir mèr, þó at ek hafi nú eigi til þess unnit. Hûn svarar [5]): ek á marga frændr [þá] eðr náskylda þá, sem lendir menn eru [6]), ok veit ek vísliga, at til hvers þeirra er ek sendi þik, at sá tekr við þèr fyrir mínar sakir. Haldór mælti [7]): hugsa þú svâ fyrir, at með engum manni mun [8])

---

[1]) saman borit *B.* [2]) ok var allófagurt, *b. v. B.* [3]) þèr, *S.* [4]) ekki ero vær hræddir við norðlendan *B.* við hann Márlanda *S.* [5]) víst mun Einari bónda mínum þú ei heldr til þess þikja unnið hafa at sinni, en ekki mân ek nú at því fara, ok vil ek gjarnan leggja ráð með þèr sem ek kann bezt. *b. v. B.* [6]) ok bændr eru, ok er þèr kostr at fara til þeirra minna vegna, ok vera með þeim á laun, *b. v. B.* [7]) vel fer þèr, húsfreya! enn, *b. v. B.* [8]) vil, *S.*

ek á laun vera haldinn sem illræðismaðr. Bergljót segir: þeir munu þó fáir menn í Noregi, utan sjálfr Haraldr konúngr, at dugi at halda þik fyrir Einari, ef hann vill eptir þèr leita, þvíat hann mun víss verða hvar þú kemr niðr; er ok til ráð annat, segir hûn, ok er þat þó eigi hættulaust. Haldór mælti: hvert er þat? Hûn svarar: at þú gángir nú þegar inní stofu [1]), sakir þess at nú eru 2 víti á hendi þèr, annat vígsvítit, en annat borða víti, þvíat þú komt eigi til borða með öðrum mönnum, þvíat nú sitja menn yfir borðum; máttu nú gánga inn fyrir Einar, ok segja honum tíðindin, ok færa [2]) honum höfut þitt, ok friðast svâ við hann; en ef hann vil þèr eigi grið gefa með því, þá mun eigi hægt at [3]) forða þèr fyrir honum. Síðan gekk Haldór inn fyrir Einar, ok mælti: eigi hefi ek opt verit víttr fyrir borðs tilgaungu, hefir nú ok svâ til borit, at ek hefir eigi verit sýslulaus [4]). Einar svarar: segir þú víg Kala frænda míns? Haldór svarar; þeirrar sakar er ek sannr, ok því vil ek nú færa þèr höfut mitt, ok ger þú af slíkt er þèr líkar. (Einar mælti): víg þetta, er þik hefir hent, [er hit vezta ok mèr nærhöggit [5]);

---

[1]) fyrir mik sem skjótast, *b. v. B.* [2]) *þannig S.* fær, *B.* ok ef þú færir, *F.* [3]) koma þèr í sætt eðr, *b. inní. B.* [4]) sýslulaus með öllu *B. S.* [5]) þiki mèr meirr enn þú mant ætla; Kali var minn skyldr frændi, ok hefir hjá mèr þroska tekit, ok þjónat mèr frá blauto barni, ok því hefi ek lagt við hann mikla elsku, *B. vantar í S.*

því at Eindriði son minn mundi svâ einn annarr drepinn vera, at mèr mundi meira at þikja. Haldór svarar: þat manntjón væri ólíkt. Einarr mælti: bræðr Kala munu þar sjá til sæmda, er ek er, um eptirmál ok vígsbætur eptir hann; er þat ok lítilmannligt at ek láti mèr svâ þikja, sem einn hundr hafi fyrir mèr drepinn verit, þar sem Kali var; mun þat þá enn heldr leiðast öðrum, at vinna slík illvirki, ef þessa er hefnt eptir makligleikum; en þó mun hæfa, at hafa heilræði Magnús konúngs fóstra [1]) míns Ólafssonar, (ok) at gefa upp reiðina fyrst í stað; því at opt þikir þá annat sannara, er hûn líðr af, enn áðr hefir framfarit. Nú skaltu, Haldór! fyrst fá mèr sverð þitt, því at ek vil þat hafa. Haldór svarar: hvat þarf ek at láta laus vopn mín? Því vil ek hafa sverð þitt, segir Einar, at ek sè, ef nökkut er þreyngt þínum kosti, at þú munt verja hendr þínar, meðan þú mátt, ef þú hefir vopn at vega með, ok er þá eigi örvænt, at svâ fari fleiri, sem Kali hefir áðr farit, ok mun ek þá eigi betr viðuna, en þat mun þó saman [2]), ef þú ert sóttr, at þú munt hafa mann fyrir þik [3]), nema þú hafir fleiri, en þó mun ek yfir þik vinna at síðastu. Gakk nú fyrst til borðs með mèr, en ek mun síðan uppsegja víti þin, en engum friði heiti ek þèr áleingðar. Haldór gerði svâ, at hann át ok drakk með Einari, sem hann ætti ekki um at vera, ok [af hendi fèkk

[1]) frænda *S.* [2]) saman fara, *B. S.* [3]) þèr *B.*

hann [1]) sverðit. Tók Einar við því. Vinir Haldórs báðu hann brott fara, ef hann mætti. Haldór svarar: ekki mun ek leynast frá Einari, þar sem ek hefir áðr gengit á vald hans; ok er Haldór var mettr, gekk hann fyrir Einar ok spurði, hvern hann vildi þá gera hans hlut. Einar svarar: síðar muntu enn þat vita. Haldór gekk þá í brott, ok segir Bergljótu hvar komit var. Hûn svarar: eigi vænti ek at Einar láti drepa þik, en ef hann vill níðast á þèr, þá heiti ek þèr því, at þá skal enn meirum tíðendum gegna. Ok þenna sama dag stefnir Einar fjölment þíng, hann stóð upp á þínginu, ok talaði svâ: ek vil nú skemta yðr, ok segja frá því, er fyrir laungu var, þá er ek var á Orminum lánga með Ólafi konúngi Tryggvasyni.

[*Saga Einars.*

Þat bar svâ til, at þá er mèr var skipat með Kolbeini stallara ok Flesmu-Birni á Orminum, var ek þá 18 vetra gamall, ok fyrir lög fram tekinn í kappatöluna [2]); 9 voro þeir menn er brott kvomust af Orminum, en frá oss [3]) kumpánum vil ek nokkut segja, at vèr hlupum

---

[1]) afhendi *B.* [2]) *þetta stendr hjá B og S öðruvísi, þannig:* ei þá ellri enn 16 (18, *S.*) vetra, ok fyrir lavg fram tekinn á Orminn, þvíat engi skyldi á honum vera yngri enn tvítugr, ok ei elli enn sextugr. Kolbeini hinum upplenzka var skipat hjá mèr ok enn öðrum manni, þeim er Björn hèt, ok var kallaðr Flesmu-Björn, hann var gamall maðr ok þó hraustr, fáir úngir hraustari; *B.* S. [3]) þremr, *b. inni S.*

fyrir borð af Orminum, síðan konúngr var horfinn með ljósi því, er yfir hann skein, ok Danir, menn Sveins konúngs, tóku oss ok færðu konúngi, en hann flutti oss til Jótlands, ok voru vèr þar upp leiddir ok settir á eina lág ok þar fjötraðir; en sá er oss varðveitti, vildi selja oss í þrældóm; hann hèt oss afarkostum ok limaláti, ef vèr vildum eigi þjást, ok í þeim skógi sátum vèr 5 nætr. Þessi maðr, er oss varðveitti, lèt móts kveðja, ok þángat kom mikit fjölmenni [1]); ok at þessu móti sat [2]) einn maðr mikill, svâ búinn sem múnkr í blám kufli, ok hafði grímu fyrir andliti; þessi maðr gekk at oss kumpánum, ok mælti til meistara [3]) vors: viltu selja mèr þann hinn gamla þrælinn? Hann svarar: hvat skal þèr afgamall þræll ok nenníngarlaus? Grímumaðr svarar: hann mun þá ódýrstr af þrælunum öllum? Já, segir meistarinn vor, hann skal víst údýrstr. Met hann þá, segir grímumaðr. Meistarinn mat hann fyrir 12 aura silfrs. [Grímumaðr svarar: dýr þiki mèr þá þrællinn, með því at ek sè hann mjök gamlan ok forverks lítinn, er ok eigi úlíkt at hann lifi skamma stund; mun ek gefa þèr fyrir hann mörk silfrs, ef þú vill því kaupa [4]). Þá gekk grímumaðr at mèr, segir

[1]) því at þar var settr markaðr til at kaupa eðr selja þat er fram var boðit; vær vorum færðir á þenna mót ok settir niðr í einhvörjum stað; *b. v. B.* [2]) sást, *S.* [3]) geymarans, *alstaðar B.* [4]) *B hefir einasta þetta:* er ei ólíkligt at hann lifi skamma stund.

Einar, ok spurði hverr mik hefði [at geyma [1]). Ek hefir ekki enn seldan hann, segir meistarinn, en þó má hann seljast. Hversu dýr, segir grímumaðr, skal hann vera? Meistarinn mælti: allvel [2]) mun hann þèr dýr þikja, kaup hann fyrir 3 merkr silfrs, ef þèr líkar. Alldýrr mun hann þá vera, segir grímumaðr, en sjá þikjumst ek, at frændr hans ok vinir mundu gjarna kaupa hann þvílíku verði, ef hann væri á sínu landi. Ek vissi þat, segir meistarinn, at þèr [mundit eigi [3]) kaupa hann svâ dýrt sem ek mat. Síðan fór kuflmaðr á brott, ok fór víða um torgit, ýmsa gripi falandi, ok með því at hann fèkk öngu [4]) keypt, fór hann aptr til vor svâ segjandi: nú var ek á torgi, ok þvíat mèr var ekki kaupligt, kom ek enn híngat; vil ek fala [5]) þann þrælinn', er ek hefir áðr [orði á komit [6]), þvíat ek sè at svâ [mikill maðr sem hann er ok sterkr, at hann má vinna ekki svâ lítit, ef þessi vill duga, eru menn takmiklir ef þeir vilja mennast, sýnist mèr því ráð at kaupa þá alla [7]). Meistari vor svarar: þú þarft þó mikils við um mansmenn, ef þú kaupir einn 5 þræla. Þat skalt þú þó vita, segir kuflmaðr, at ek hefir haft þó eigi færri húskarla. Kolbeinn [8]) var metinn fyrir

---

[1]) keyptan, *B. S.* [2]) helzti, *S.* [3]) mundi segja at, *B. S.* [4]) aungva, *B. S.* [5]) kaupa *B.* [6]) falað, *B.* [7]) miklir ok gildir menn sem þeir eru, at þeir munu láta laust mitt dagsverk, ef þeir vilja þrífast, því man ek kaupa þá alla, ef þú vilt selja, *B.* [8]) *þannig:* *B.* Kolbjörn, *F. S.*

2 merkr. Dýrir eru þrælarnir, segir kuflmaðr, ok veit ek eigi gjörla hvat framfer um penínga mína, hvort þeir munu vinnast til verðs þeirra. Hann steypir þá silfrinu [í kyrtilblað hans [1]) ok mælti: haf þú nú þetta fyrir tölu þína, ok vænti ek at eigi muni þetta minna [2]); ok síðan lætr kuflmaðr leysa oss, ok þótti oss þá betrast vor kostr. Grímumaðr gekk þá burt í skóginn, ok bað oss fylgja sèr, ok er vær komum fram í eitt rjóðr, spurða ek hann at nafni. Hann svarar: ekki varðar þik at vita nafn mitt, en þat kann ek þèr at segja, at ek hefir sèt þik eitt sinn fyrr ok alla yðr. Ek vildi þó vita, hvers þræll ek skyldi þá vera; en ef þú vill gefa oss frelsi, þá vildum vèr ok vita, hverjum vèr ættim þat at launa. Eigi muntu þess víss verða þenna dag, hvat ek heiti. Þá segir ek, segir Einar: verit mundi þat þó hafa, at ek mundi hafa ráðit við einn mann ok aðrir 2 með mèr, þó at Danir ætli þat eigi. Kuflmaðrinn svarar, ok kipti upp lítt at hettinum: vera má at ek þjá yðr eigi, enda mun ek í öngu vera yðvarr nauðúngarmaðr, þó at þèr sèt þrír en ek einn. Nú liggr hèr [vegr, at ek mun vísa yðr til skips þess [3]), er Norðmenn eiga, ok munu þeir taka við yðr, ok flytja yðr til Noregs: en þú, Björn! segir hann, skipt fjárhlut þínum,

[1]) úr miklum sjóð í knè geymarans, *B.* [2]) enn ek hefir játað; geymarinn játaði því, *b. v. B* [3]) einn stígr til sjófar, sá er ek mun vísa yðr, þá munur þèr sjá skip þat, *B.*

ok gef hann svâ, sem þú hyggr sálu þinni hjálpvænligast, þvíat þú munt eigi lifa hálfum mánaði lengr, síðan þú kemr heim til bús þíns; en þú, Kolbein [1]! munt koma heim á Upplönd, ok munt þikja merkiligr maðr, hvar sem þú ert; en þú, Einar! segir hann, munt verða yðvar mestr [2]) maðr ok elztr, ok vera umfram flesta menn [í Noregi [3]) í mörgu lagi; þú munt ok fá Bergljótar, dóttur Hákonar jarls, ok muntu búa á Gimsum, ok halda virðíngu þinni til dauðadags; en af þèr einum mun [4]) ek laun hafa fyrir lífgjöfina ok frelsit, þvíat þèr einum hygg ek at mest þiki vert, ef þú ert eigi þræll. Ek svaraði, at óhægra væri at launa, ef ek vissa (ei) hverjum at gjalda var, eðr hverju launa skyldi. Hann svarar: því skaltu launa, ef nökkur maðr gerir svâ mjök í móti þèr, at fyrir hvetvetna [5]) vilir þú hafa hans líf, ok hafir þú vald yfir honum, þá skaltu eigi minna frelsi gefa honum, enn ek gef nú þèr, en þat mun þèr inndælt [6]), þvíat fáir munu gera í móti þèr sakir ríkdóms þíns ok vinsælda. Ok at svâ töluðu lypti kuflmaðrinn grímu frá andliti sèr ok mælti: hvat hyggi þèr, hverir hèr ríða um skóginn [ok munu ætla at [7]) grípa oss? En vær litum allir til, ok vildum sjá

---

[1]) Kolbjörn *S.* [2]) merkiligaztr. [3]) aðra þèr jafnberna, *B.* [4]) vil, *B. S.* [5]) eins, *B.* víst, *S.* [6]) auðvellt, *B.* [7]) hvört ætli þèr þeir muni, *B.*

mennina, ok er vær litum aptr, var grímumaðr horfinn, ok síðan sám vèr hann aldri; en þenna mann kendu vèr allir fullgörla, at þetta var Ólafr konúngr Tryggvason: þvíat þegar fyrra sinn at hann lypti kuflshettinum, kenda ek hann fyrir víst, en síðan hann lypti upp grímunni, ok sýndi oss sína ásjónu, kendu vèr hann allir, ok töluðum vor í milli, at oss hefði mjök óvitrliga tiltekizt, er vèr höfðum eigi hendr á honum, en þó tjáði oss þá ekki at sakast um orðinn hlut. Síðan gengu vèr þann stig til sjófar, sem hann vísaði oss, ok fundum þar Norðmanna skip. Ok fór alt eptir því sem hann hafði oss fyrirsagt um vora æfi. Nú er ek skyldr til, segir Einar, at gera þat, er Ólafr konúngr bað mik; sýnist mèr nú eigi annat líkara, Haldór! enn hann hafi fyrir þèr beðit, þvíat þú ert nú á mínu valdi. Ok áðr Einar hafði lokit sögu sinni, var Bergljót komin á þíngit, kona hans, með fjölda manns [1], ok ætlaði hûn at þeir menn skyldu berjast við [hann ok sækja Haldór [2], ef hann vildi honum eigi grið gefa. Siðan bætti Einar víg Kala frændum [3] hans, en hèlt vináttu við Haldór jafnan síðan; en Haldór sendi Eilíf til Íslands, ok sætti hann áðr við Harald konúng, ok svâ kom hann sèr i sætt við hann, ok var Haldór með konúngi lánga stund síðan [4]; [en þat hafði verit sök Eilífs,

[1]) *þannig B.* með mikla sveit manna, *S.* [2]) Einar ok verja Haldór, *B. S.* [3]) frænda, *B.* [4]) í góðu yfirlæti, *b. v. B.*

at hann hafði drepit hirðmann Haralds konúngs, ok fyrir þat hafði hann reiði á honum [1]).

*Hèr segir frá Sigurði biskupi.*

3. Sæmiligr kennimaðr ok góðrar minníngar Gunnlaugr múnkr at Þíngeyrum hefir marga hluti ok merkiliga [með röksamligu látínu dikti [2]) samansett ok sagt af ágætum herra Ólafi konúngi Tryggvasyni; hefir hann fróðliga frá því sagt, hversu konúngrinn hefir með lífi brott komizt or þeim bardaga, [er hann framdi síðast við Svöldr [3]). Segist bróðir Gunnlaugr þat eina skrifat hafa, sem hann hefir af sannorðum mönnum heyrt, ok ein kanligast hafa samanlesit, þat er hann hefir fundit í bókum Ara prests hins fróða; en at umliðnum bardaga fyrir Svöldr víkr nefndr bróðir Gunnlaugr múnkr sínum orðum til hirðbiskups Ólafs konúngs, er Jón [4]) Sigurðr hèt, ok nú skal nokkut af segja með guðs orlofi. [Mjök viðrkvæmiligt er, segir bróðir Gunnlaugr, þessi sögu at samtengja af heilögum lifnaði ok röksamligu siðlæti postuligs herra, fyrrnefnds hirðbiskups, at vèr vitum með hverri endalykt hans lífsstundir hafa liðit; [því at hann hefir herra konúngsins fremstr fulltíngsmaðr verit til vorrar sáluhjálpar, hvaðan af oss sýnist hann vorðinn postuligr prèdikari allra Norðmanna; því at þessi ágætr herra Ólafr kon-

[1]) v. í. B. [2]) v. í. B. [3]) á Orminum, B.
[4]) v. í. B. S

úngr hefir fyrstr alla rèttkristna gert með biskupligu fulltíngi, en styrkt síðan ok stjórnat kristindóminn með konúngligu valdi, bæði með heilagum ok hjálpsamligum orðum ok áeggjanum. Af uppruna ok ætt eðr hverrar þjóðar Sigurðr biskup hefir verit, er os eigi kunnigt, eðr í hverjum skóla hann hefir numit, svâ ok hvenær hann mun til konúngsins komit hafa; en þat skiljum vèr vel af sannorðra manna sögn, at hann hafi verit bæði styrkr ok stjórnsamr í sínum biskupsdómi [1]). Eptir skilnað þeirra Ólafs konúngs Tryggvasonar vendi Sigurðr biskup til Svíþjóðar, at bæn Ólafs konúngs Eiríkssonar, er þar var þá, með þeirri sætt ok samníngi, at herra biskup skyldi hafa frjálsa yfirferð um alt Svíaríki, at prèdika guðs eyrendi til rèttsnúníngar [2]) þeirri aumu þjóð, er þar hafði lángan tíma skemdarfullum ok skynlausum skúrgoðum þjónat. Sigurðr biskup varð þessum kostum mjök feginn, þvíat hann hrygði optliga sá ofrharmr, er hann hafði fengit af fráveru síns ágæta herra [3]), Ólafs konúngs Tryggvasonar, en af öðrum hætti gerðist hann harðla fús af áblæstri heilags anda, at gera guði sem mestan heiðr í líkn ok leiðrètting heiðinna þjóða, ok hann hafði, sem Gunnlaugr segir, gefit heilaga skírn Ólafi Svía konúngi ok fjölda annarra manna, þeirra

---

[1]) *frá fyrra merkinu v. í B. frá síðara merkinu v. í. S.*
[2]) rèttíngar, *S.* [3]) elskara, *S.*

er strítt höfðu móti Ólafi konúngi Tryggvasyni. Síðan prèdikaði Sigurðr biskup Svíum guðs orð um 2 [1]) ár hin næstu; kristnaði biskup alt landsfólk, niðrbrjótandi bölvaðan blótskap, en aukandi kristindóminn með heilagri skírn, ástundandi með öllu kostgæfi konúnginn at styrkja til guðs þjónustu.

*Prèdikan Sigurðar biskups við Svía.*

4. Á þriðja ári sem þessi styrkr stólpi kristninnar, Sigurðr biskup, hafði snúit til rèttrar trúar, risu í móti honum margir ok máttugir menn með miklu ofbeldi ok údæmiligri ilzku, sumir fóttroðandi viðtekna trú, en aðrir af þeim gerðu opinbert mótikast í atför við biskupinn: ok svâ sem honum verðr þat kunnigt, snýr hann til þess staðar, er Sigtún heitir, ok var í þeim stað saman kominn mikill fjöldi ríkra manna, er rètta trú ok heilaga skírn höfnuðu; en á einni virðuligri guðs hátíð fremr fyrrsagðr herra biskup heilagt messuembætti í nokkurri röksamligri [2]) höll, ok byrjar hann þá kristiliga kenníng með fagrligri prèdikan at miklum mannfjölda hjá standanda. Heyrit mik, segir hann, heilagrar kristni mótgángsmenn ok niðrbrjótandi sanna trú, hverir at sannliga megit kallast grimmir guðníðíngar! Um næstu 5 vetr hefir ek með alskonar erfiði ástundat yðra nauðsyn, at þèr mættit makliga með minni kenníng koma til rèttrar trúar, ok kenna svâ úafiátliga yðvarn

[1]) 3, *B.* [2]) vegsamligri, *S.*

græðara Jesúm Kristum, en fyrirláta vondskap ok villu; þèr vitit ok at fyrstan tíma, er ek var hèr, skírða ek með guðs lofi ok kristiligri trú konúng yðvarn, hvern ek hyggr með guðs miskun góðan mann vorðinn; svâ skírða ek ok mikinn fjölda annarra manna; en á næsta ári eptir þat urðu margir af yðr tilæskíngarsynir eilífs lífs af lángri ok fornfáguligri flærð heiðíngligrar hindrvitni; fyrir [skömmu voru þèr skynlausir ok hinir verstu villumenn, eigi þá endrgetnir fyrir vatn ok helgan anda, nè [1]) frjálsir fóstrsynir heilagrar kristni. [Nú kann ek yðr at segja einn undarligan hlut, at minni var sú guðs skipan, er hann gerði alla hluti af öngum efnum, enn at gera góða menn ok heilaga af vondum villumönnum; nú gerir vor herra Jesús Kristus með sinni miskun svâ, at hann kallar synduga menn til sannrar iðranar ok líknar, þeir er leiðrèttast vilja: [nú þó at (ek) tjái yðr svâ mikla hluti ok öðrum þvílíkum af góðum vilja ok gnógu valdi vors herra Jesú Kristí; þá grunar ek at yðru hugskoti verði mín kenníng mjök úávaxtasöm, þvíat mikill mannfjöldi af yðr hefir illa ok úmannliga afneitat tiltekinni trú ok vilja vors drottins, þeim er ek grundvallaða hèr um næstu 3 ár [2]). Nú skulu þèr þat vita, at fyrir yðra glæpi ok guðníðíngskap er ek optliga mæddr af andligri hrygð: minnisamr verðr mèr sá ofharmr,

[1]) vatn ok helgann anda' *B.* [2]) *fra fyrra merkinu v. i. B. frá siðara i. S.*

er um allan mik tók, þá er ek sá minn sætasta vin ok frægjan herra Ólaf konúng Tryggvason alla vega þreyngjast af yðrum hervopnum, ok brott dragast frá allra [1]) ögum, hvern þèr hugðut [2]) nú sálaðan vera, en þvers í móti yðvarri hugsan segi ek hann sann lifa, hvern er ek játtar mik framast elskat hafa í þessu lífi; en miklu framar ángrar mik þat, at þèr afneitit yðvarri hjálp, en játit nú sjálfviljandi þeim goðum ok gyðjum, er ek snèra yðr frá um stund með miklu starfi; [ok eptir svâ gert ætlit þèr at gera mèr mót, ok mik til dráps at draga, ef þèr megit, ok gera mèr slíkan kost, sem þèr hafit áðr gert guðs þjónustumönnum eigi fyrir laungu, er þèr tókut af lífi í þeim stað, er Vegsjórr heitir, eru þeir nú til hvíldar komnir, ok náðast andliga með Jesú Kristó fyrir sitt píslarvætti. Nú þá eigi fyrir sakir ótta eðr heitan hryggjumst ek, heldr fyrir yðra nauðsyn eina saman, þvíat ek uggi, at ek syndgumst af yðvarri fádæmiligri fólsku; en með sannindum segi ek öruggliga at í öngvan stað er ek til stríðs búinn ok andligrar framgaungu minnr enn nokkurr yðvarr, þóat ek bera eigi eptir mèr veraldlig vopn, heldr hlífumst ek með heilögum ok hjálpsamligum fólkvopnum. Nú mun ek yðr auðsýna hvílíkum herklæðum ek er skrýddr ok styrktr [ok guðligum málum grundvallaðr [3]): skrýddr er ek mítru ok

[1]) mínum, *B.* [2]) hyggið, *B.* uggit, *S.* [3]) af guði, *S.*

messuserk, stólu ok dalmatíku, hökli ok handlíni með biskupligum bagli; þvílík ok þessháttar messuklæði merkja þá hina styrku von, er mèr hlífir [bæði í farsæligum hlutum ok gagnstaðligum [1]) hlutum; skrýðumst ek ok dagliga hreinleika andar ok líkama, [meðan ek lifi með mönnum [2]), er fyrir messuserkinn greinist; stólunnar ásetníng þýðist lètt ok sætt þeim er guð elska; ósigranlig trúa styrkir mik ok staðfastliga, sú er dalmatíkan merkir; umfram þessar guðs gjafir sem hverjar er guðs ást, sú er yfirgengr alla stundliga hluti, er hökullinn hefir at merkja; en biskupligr bagall merkir andligt sáðkorn guðligra orða, af hverju vondir menn snúast frá ilzku verkum til ágætrar guðræðslu; [verða þeir síðan mjúkir ok margir lítilátir [3]) samlagaðir eilífum náðum; en grimmir guðníðíngar ok slíkir ofmetnaðarmenn, sem þèr sálugir sannit yðr vera, skulu hræðiligu guðs orði bölvaðir vera ok útkastaðir í ytri myrkr, þar sem fyrir er frost ok tannagnastran [4]). Nú skilizt við slíkar údáðir, ok snúizt hverr sem einn aptr hjartaliga til ástar við sinn skapara, [leggit allar yðrar syndir undir guðs dóm; þvíat með sinni margfaldri mildi, snýr hann sinni blíðu fullkominni aptr til yðvar, af illum hlutum leysta ok liðuga [5]), sem þá er þèr komut or skírnarbrunninum [6]); ok af þeim hlutum, er ek hefi

[1]) við öllum, *S.* [2]) *v. i. S.* [3]) *v. i. S.*
[4]) *frá merkinuv. i. B.* [5]) *þannig allir.* [6]) *v. i. S.*

nú yðr tjáð, sýnda ek sanna von eilífra fagnaða með þeim öllum hlutum, sem nú hefik greint af vorum herra Jesú Kristó ok máttigum konúngi allra veralda. Ok at svâ töluðu gengr sagðr herra Sigurðr biskup út af höllinni [1]) á víðan völl, at loknu messu embætti, ok aðrir menn þeir sem þar voro hjá standandi; ok sem lýðrinn var brott genginn, ok Sigurðr biskup var genginn í sitt herbergi, gekk inn til hans einn íslenzkr maðr, er Húnröðr hèt, hann var son Vefreðar [2]) hins gamla; fyrrnefndr Húnröðr þakkaði herra biskupi, er hann hafði prèdikat þá fyrir lýðnum um daginn, en er herra biskup fann fullkominn góðvilja þessa manns, ok at hann mundi í minni hafa fest ok hjartaliga haldit þat, er hann hafði talat, tók hann við Húnröð hardla sæmiliga, ok frètti hverju hann ætlaði fram at fara. Húnröðr svarar: sigla mun ek í Austrveg, ef svâ ferr sem ek ætlar; bað hann þá biskup blíðliga segja sèr, hvârt hann skyldi marka hagi sína á himintúngla gáng, svâ sem fróðir menn höfðu fyrir honum gert. Biskup svarar: son minn sæti! far ekki með forneskju nè hindrvitni, heldr fel þú guði á hendr allar þínar vonir, ok þó at þèr aflist frægð eðr fjárhlutr, þakka þat guði, þvíat hann gaf þèr; ok því skaltu honum umbuna, at halda yfir alt fram heilaga trú, þá sem ek hefi kent þèr, þvíat hûn er ágætari alskonar auðæfum. Þá spurði Húnröðr Sigurð biskup, hversu mikla

[1]) *hèr* endar *B.* [2]) ævars, *b. inni B.*

peninga hann ætti, at hann mætti af honum taka nokkut lán sèr til heillar ok hamíngju. Herra biskup svarar: eigi veit ek at ek eigi nokkura peninga nema einn gullhríng, er mèr gaf Ólafr konúngr Tryggvason, minn sæti herra ok ágætr elskhugi [1]), ok veit þat guð, at sá gullhríngr er mèr svâ skæðr sem hinn hvassasti höggormr, ok gjarna vilda ek afla guði hèðan af nokkurra manna sálir með sögðum hríng, heldr enn gera mèr sáluskaða af hans varðveizlu; ok nokkuru síðar enn þeir herra biskup ok Húnröðr höfðu skilit, þá frètti Húnröðr at fyrnefndr gullhríngr var skiptr í 5 hluti, ok gefinn til útlausnar mörgum herteknum kristnum mönnum. Svâ er sagt ok fyrr skrifat, (at) eptir Svöldrar orrostu fór Sigurðr biskup í Svíaríki, ok dvaldist þar lengi, ok meðan hann var þar, heyrði hann Svía tala optliga, at Ólafr konúngr Tryggvason hefði stígit fyrir borð af Orminum, ok sokkit niðr í sjá með vopnum sínum, ok hefði hann látit líf sitt, ok sem hann heyrði menn slíka hluti tala, spurði hann þá: segit mèr, ef Ólafr konungr Tryggvason er sjâdauðr vorðinn, sem þèr ætlit, hví sýnist þá sú sama brynja, er hann hafði í bardaganum, upp vera fest at Jórsölum í einu miklu mustari, svâ sem þar er almenniliga kunnigt? eðr hví er þá spjót hans ok hjálmr at sönnu sýnt í Antíokía? eðr hverr flutti þessa hluti í svâ fjarlæg lönd, ef þeir hefði þar niðrsokkit, sem þèr segit?

[1]) elskulegi, *A.*

þeir ansvara þá hans máli: ef þú veizt vísliga, at Ólafr konúngr hafi brott komizt lífs or bardaganum, sanna þú þat með skynsemi, svâ at vèr megim því trúa; ok þá er þeir höfðu þessa hluti sagt, þagði biskup um stund, ok eigi af því at eigi væri með honum sönn skynsemi, (at) svara til þeirra hluta, er hann væri spurðr, heldr fyrir þá sök, at hann vildi þenna guðs gimstein, optnefndan Ólaf konúng, leyndan í múnksbúnaði eigi bera fyrir svín, eptir orðum Jesú Kristí, þeim er hann svâ talaði: hirðit eigi at bera gimstein fyrir svín; ok því sagði biskupinn svâ: heldr vildi Ólafr konúngr, eptir því sem hann vel vissi, þjóna einum ok sönnum guði úaflátliga, enn at stjórna lengr ránglátra manna falli, þeirra er hann sá sik ekki stoða mega.

*Andlát Sigurðar biskups.*

5. Svâ finnst ok skrifat af Sigurði biskupi, at þá er hann gerðist gamall, fór hann til staðar þess, er Vernd [1]) heitir, ok þar þjónaði hann guði lánga tíma; svâ er sagt at í þeim stað höfðu jarðaðir verit margir múnkar, ok er biskupinn eldist aðaliga ok ústyrktist at líkama, leitaði hann at nærast náðuliga svâ sem tilheyrði gömlum manni [2]); ok á einum föstudegi bar svâ til, at hann lèt sèr bað gera, ok sem hann baðaðist, kom rödd yfir hann svâ mælandi: hví dirfist þú, maðr! hvíldar at leita herfiligum líkama

[1]) Verunl, S. [2]) aldri, S.

þínum á þeim degi, er drottinn þinn Jesús kristr var á kross negldr? Þessi orð hugleiddi herra biskup sannliga sèr til sáluhjálpar sögð vera, mæddist hann skjótt ok gekk burt af baðinu, gerandi merkiliga iðran ok skíran skriptargáng fyrir sín afbrigði, er nú voru tjáð ok öll önnur, er hann hafði guði í móti gert; ok eptir fá daga fèll Sigurðr biskup í sáran sjúknað, sæliga framlíðandi af þessu lífi stundligu almenniligan veg til almáttigs guðs, [þeim sè lof ok dýrð, einum guði í þrenníngu, um veraldir veralda, amen [1]).

6. Á þeim sama stað, sem Sigurðr biskup andaðist, var hans sæmiligr líkami einkanliga jarðaðr af sínum klerkum ok kristnum leikmönnum með mikilli vegsemd ok ágætri útleiðslu, svâ sem sómdi sæmiligum biskupi. Svâ segir bróðir Oddr, er flest hefir kompónerat á latínu, annarr maðr enn Gunnlaugr, af Ólafi konúngi Tryggvasyni, at Grímkell biskup, sá er var með hinum heilaga Ólafi Haraldssyni, ok efldi kristindóm í Noregi, væri systurson Sigurðar biskups, hvers er fyrr var getit; en Ásgautr, er var hinn þriði biskup í Þrándheimi, var systurson Grímkels biskups; en þeir voru systursynir Ásgauts, biskup Jón, hinn fjórði [2]) biskup í Þrándheimi, ok annar Ketill kálfr, er átti Gunhildi dóttur Sigurðar sýrs ok Ástu Guðbrandsdóttur; voru þau sammædd syskin hinn heilagi Ólafr konúngr ok Gunnhildr.

---

[1]) *v. i. S.* [2]) 8di, *S.*

*Frá Gunnlaugi ok Oddi.*

7. Svâ segja þeir bræðr Gunnlaugr ok Oddr, at þeir [1]) menn hafi þeim flest frá sagt, [hvat er þeir hafa síðan samansett ok í frásagnir fært [2]) af Ólafi konúngi Tryggvasyni: Gellir Þorgilsson, Ásgrímr Vestliðason, Bjarni Bergþórsson [3]), Arngunn [4]) Arnórsdóttir, Herdís Daðadóttir ok Þorgerðr Þorsteinsdóttir, ok síðan segist Gunnlaugr sýnt hafa sögu Ólafs konúngs Gizuri Hallssyni, ok hafði sagðr Gizur hjá sèr þá bók um 2 ár, en síðan, [sem hann [5]) kom aptr til bróður Gunnlaugs, emenderaði hann hana sjálfr, þar sem Gizuri þótti þess þurfa [6]). Fyrir vald ok verðleika þessa guðs ástvinar, Ólafs konúngs Tryggvasonar, eru sælir Noregsmenn, ok eigi at eins þeir, heldr jafnvel þeir, er hèr byggja Ísland ok öll þau lönd, er undir Noreg liggja, er almáttigr guð gaf þessum löndum svâ virðuliga tign ok huggan, svâ háleitan ok máttuligan styrk, svâ lánglífa hjálp ok eilífa dýrð ok úendiliga virðíng, svâ sómasamliga tign, at hann kaus eigi einnhvern oss til formælanda, heldr þann sem hæztr var í Noregs ríki. Hann grundvallaði heilaga kristni, ok ástundaði með allri góðfýsi oss at kenna guðs boðorð, ok laða oss svâ til eilífrar fullsælu; hann var konúngr vorr í sinni stjórn ok stórmenzku, en biskup vorr í sinni prèðikan; hann má ok rèttiliga kallast

[1]) þessir, *S.* [2]) *v. í. S.* [3]) Berþórsson, *S.*
[4]) Ingunn, *S.* [5]) hûn, *S.* [6]) *Hèr endar S.*

postuli vors kristindóms yfir Noregi ok hans undirlöndum; trúum vèr því ok staðfastliga, at fyrir hans árnaðarorð hafi þessi partr norðrhálfunnar feingit blómberanligan geisla ok stöðugan stólpa ok styrktarmann upp at timbra þat smíði, sem Ólafr konúngr Tryggvason hafði áðr fagurliga formerat ok giftuliga grundvallat, sem var guðs trúa ok hans lögmál ok rèttindi; eru vèr fullkomliga sælir þess fagnaðar, er hann gaf os þessa heims, at kenna vorn skapara Jesúm Kristum; því skulu vèr þakkir gera úaflátliga alsvaldanda guði, er hann gaf vorum foreldrum ok öllum oss slíkan nytsemdarmann, sem var Ólafr konúngr Tryggvason, með kristni konúngdómsins ok dýrð heilagrar kirkju, með skipan heilagra siða ok lögum landsins, með valdi ok virðíng konúnganna, með tign biskupanna, með sæmd kennimannanna ok aflan kaupmannanna. Allir eru þessir undir hlýðni ok lögum hins blessaða guðs ástvinar, Ólafs konúngs Tryggvasonar, þvíat hinum ríkustum gaf hann tign en hinum fátækustum miskunn, en öllum almenniliga veitti hann sína vernd ok varðveizlu, ok því lifir hann nú ok at eilífu í hæztu himinríkis sæmð með sjálfum guði, þeim er lifir ok ríkir einn guð í þrenníngu *per omnia secula seculorum. Amen.*

# Saga

## af Þorsteini Bæarmagni.

Í þann tíma, er Hákon jarl Sigurðarson rèð fyrir Noregi, bjó sá bóndi í Gaulardal er Brynjólfr hèt; hann var kallaðr Úlfaldi; hann var lendr maðr ok mikil kempa. Kona hans hèt Dagný, hon var dóttir Járnskeggja af Yrjum. Þau áttu einn son, er Þorsteinn hèt, hann var mikill ok sterkr, harðúðigr ok óaflátsamr við hvern sem eiga var. Engi var jafnstórí Noregi, ok trautt fengust þær dyr at honum væri hægt um at gánga, ok því var hann kallaðr bæarmagn, þvíat hann þótti ofmagni bera flestum húsum. Hann var óþýðr ok fèkk faðir hans honum því skip ok menn, ok var Þorsteinn þá ýmist í hernaði eðr í kaupferðum, ok tókst honum hvortveggja vel. Í þenna tíma tók ríki í Noregi Ólafr konúngr Tryggvason, en Hákon jarl var skorinn á háls af þræli sínum, þeim sem Þormóðr karkr hèt. Þorsteinn bæarmagn gjörðist hirðmaðr Ólafs konúngs, þótti konúngi hann röskr maðr, ok hèlt mikit til hans,

en ekki var hann mjög kendr af hirðmönnum, þótti þeim hann stríðlyndr ok óvæginn, ok hafði konúngr hann mjög til þess, at fara sendiferðir þær, sem aðrir töldust undan at fara; en stundum fór hann kaupferðir, at afla konúngnum gersema.

2. Eitt sinn lá Þorsteinn austr fyrir Balagarðssíðu, ok gaf honum ei at sigla, gekk hann á land einn morgin, ok er sól var í landsuðri, var Þorsteinn kominn í eitt rjóðr; hóll fagr var í rjóðrinu, hann sá einn kollóttan pilt uppá hólnum ok mælti: móðir mín, segir hann, fá þú mèr út krókstaf minn ok bandvetlinga [1]), því at ek vil á gandreið fara, er nú hátíð í heiminum neðra; þá var snarat út úr hólnum einum krókstaf, sem elzskara væri, hann [stígr á stafinn [2]), ok dregr á sik vetlíngana, ok keyrir sem börn eru vön at gjöra. Þorsteinn gengr á hólinn, ok mælti slíkum orðum sem piltrinn, ok var þegar útkastat staf ok vöttum, ok mælt þetta: hver tekr nú við? Bjálbi son þinn, sagði Þorsteinn; síðan stígr hann á stafinn [3]), ok ríðr þar eptir, sem piltrinn fór undan. Þeir komu at einni móðu, ok steyptu sèr ofan í hana, ok var því líkast sem þeir væði reyk. Þvínæst birti þeim fyrir augum, ok kvomu þar at, sem á fèll fram af hömrum; sèr Þorsteinn þá bygð mikla ok borg stóra; þeir stefna til borgarinnar, ok sitr þar fólk yfir borðum; þeir

[1]) *vantar, í A.* [2]) tekr staurinn, *allir hinir.* [3]) staurinn, *allir hinir.*

gengu í höllina, ok var höll skiput af fólki, ok var þar af aungu drukkit utan af silfrkerum; trapiza stóð á gólfi; alt sýndist þeim [1]) þar gulligt, ok ekki drukkit nema vín. Þat þóttist Þorsteinn skilja, at engi maðr sá þá; fèlagi hans fór með borðum, ok henti alt þat sem niðr fèll. Konúngr sat þar í hásæti ok drottníng; menn voru glaðir um höllina. Þessu næst sèr Þorsteinn at maðr kom í höllina ok kvaddi konúng, ok kveðst vera sendr til hans utan af Indíalandi úr fjalli því, er Lúkanus heitir, frá jarli þeim, er þar rèð fyrir, ok segir konúngi, at hann var huldumaðr. Hann færði honum einn gullhríng; eigi þóttist konúngr betri hríng sèð hafa, ok fór hríngrinn um höllina til sýnis, ok lofuðu hann allir; hann var sundr tekinn í 4 stöðum. Annann grip sá Þorsteinn, er honum þótti mikils um vert, þat var dúkr sá er lá á konúngs borðinu, hann var með gulligum röndum, ok í festir þeir tólf gimsteinar sem beztir eru; gjarna vildi Þorsteinn dúkinn eiga, kemr honum í hug at treysta á konúngs hamíngju, [ok vita hvort hann getr ekki náð hríngnum. Nú sèr Þorsteinn at [2]) konúngrinn ætlar at draga hrínginn á hönd sèr, þá greip Þorsteinn hrínginn af honum, en annari hendi tók hann dúkinn, ok fór allr matr í saur, en Þorsteinn hljóp á dyr, en krókstafr hans varð honum eptir í höllinni. Verðr nú upphlaup mikit, hlaupa

[1]) honum, C, D, E. [2]) Ok er, *hinir.*

menn út síðan, ok sjá hvar Þorsteinn fer, ok stefna eptir honum. Sèr hann nú at þeir muni geta náð honum; hann mælti þá: ef þú ert svâ góðr, Ólafr konúngr! sem ek treysti mikit til þín, þá veittu mèr lið. En svâ var Þorsteinn frár, (at) þeir kvomust ekki fyrir hann, fyrrenn hann kom at ánni, ok staldraði hann þá við; þeir slógu hríng um hann, en Þorsteinn varðist vel, ok drap ótal marga, áðr förunautr hans kom ok færði honum stafinn, ok hurfu þeir þegar í móðuna; kvomu þeir aptr á hinn sama hól, sem fur gátum vèr, þá sól var í vestri; kastaði piltrinn þá inn stafnum ok klæðsekk þeim, sem hann hafði fyldan af góðum krásum, ok svâ gjörði Þorsteinn. Kollsveinn hljóp inn; en Þorsteinn nam staðar við glugginn, hann sá þar tvær konur, ok vaf önnur guðvef, en önnur ruggaði barni; sú mælti: hvat dvelr hann Bjálfa bróður þinn? Ekki hefir hann mèr fylgt í dag, sagði hann. Hverr hefir þá farit með krókstafinn, segir hon? Þat var Þorsteinn bæarmagn, segir kollsveinn, hirðmaðr Ólafs konúngs; kom hann okkr í mikinn vanda, þvíat hann hafði or undirheimum þau þíng, at ei munu slík í Noregi, ok var við því búit, at við mundum drepnir, er hann kastaði stafnum í hendr þeim, ok eltu þeir hann til niðrgángs, ok þá færði ek honum stafinn, ok víst er hann hraustr maðr, þvíat ei veit ek, hversu marga hann drap. Ok nú laukst aptr haugrinn. Fór Þorsteinn nú til sinna manna, ok sigldu

þaðan til Noregs, ok fann Ólaf konúng austr í Vík, ok færði honum gersemi þessi, ok sagði frá ferðum sínum, ok fanst mönnum mikit um. Konúngr bauð at gefa Þorsteini lèn mikit, en hann kveðst enn vilja fara eina ferð í Austrveg; var hann nú með konúngi um vetrinn.

3. At vori bjó Þorsteinn skip sitt, hann hafði snekkju ok fjóra menn ok 20; ok er hann kom við Jamtaland, lá hann í höfn einn dag, ok gekk hann á land at skemta sèr. Hann kom í eitt rjóðr, þar var einn mikill steinn; skamt þaðan sá hann einn dverg furðuliga ljótan, ok grenjaði upp yfir sik; sýndist Þorsteini kjaptrinn snúinn út at eyranu, en öðrumegin nefit niðr at kjaptinum. Þorsteinn segir, því hann lèti svâ heimsliga. Þú, góði maðr! sagði hann, undrast eigi, sèr þú eigi þann mikla örn, er þar flýgr, hann hefir tekit son minn, ætla ek þat at sá ófögnuðr sè sendr af Óðni, en ek spríng, ef ek missi barnit. Þorsteinn skaut eptir erninum ok kom undir vænginn, ok datt hann dauðr niðr, en Þorsteinn henti dvergsbarnit á lopti ok færði föðurnum, en dvergrinn varð feginn mjög ok mælti: þèr á ek at launa lífgjöf ok sonr minn, ok kjós þèr nú fyrir laun í gulli ok silfri. Græð þú fyrst son þinn, sagði Þorsteinn, er ek ei vanr at taka mútur á afli [1]) mínu. Eigi væri mèr at óskyldara at launa, segir dvergrinn; mun

[1]) alfi, *A.*

þèr ekki þikja framboðligr serkr minn af sauða ullu; en eigi muntu á sundi mæðast, ok eigi sár fá, ef þú hefir hann næst þèr. Þorsteinn fór í serkinn, ok var honum mátuligr, en honum sýndist dvergnum of lítill; hann tók, ok silfrhríng [or púngi [1]) sínum ok gaf Þorsteini, ok bað hann vel geyma, ok sagði honum aldri fèsátt verða mundu, meðan hann ætti hrínginn. Síðan tók hann einn stein svartan ok gaf Þorsteini: ok ef þú felr hann í lófa þèr, sèr þik engi. Eigi hefi ek fleira, þat þèr megi gagn at vera; hall einn vil ek gefa þèr til skemtunar. Tók hann þá hallinn or púngi sínum, fylgði honum einn stálbroddr, hallrinn var þríhyrndr, hann var hvítr í miðju, en rauðr öðrumegin, en gul rönd utan um. Dvergrinn mælti: ef þú pjakkar broddinum á hallinn, þar sem hann er hvítr, þá kemr haglhríð so mikil, at engi þorir móti at sjá; en ef þú vilt þýða þann snjó, þá skaltu pjakka þar sem gulr er hallrinn, ok kemr þá sólskin, so at alt bræðir; en ef þú pjakkar þar í, sem rautt er, þá kemr þar or eldr ok eimyrja með gneistaflavg, so at engi má móti at sjá; þú mátt ok hæfa þat, sem þú vilt, með broddinum ok hallinum, ok hann kemr sjálfr aptr í hönd þèr, þegar þú kallar. Get ek nú ekki launat [2]) þèr fleira at sinni. Þorsteinn þakkar honum gjafirnar, fór hann nú til sinna manna, ok var honum þessi ferð betr

[1]) af fíngri, *D. E.* [2]) gjört, *hinir.*

farin enn ófarin. Þessu næst gefr þeim byr, ok sigla í Austrveginn; koma nú á fyrir þeim myrkr ok hafvillur, ok vita þeir ekki hvar þeir fara, ok var þat hálfan mánuð at þessi villa hèlzt.

4. Þat var eitt kvöld, at þeir urðu varir við land, köstuðu þeir nú akkèrum, ok lágu þar um nóttina; um morguninn var gott veðr ok sólskin fagrt, voru þeir þá komnir á einn fjörð lángan, ok sjá þeir þar hlíðir fagrar ok skóga; engi maðr var sá innanborðs, at þetta land þekti; ekki sáu þeir kvikt hvorki dýr nè fugla. Reistu þeir nú tjald á landi ok bjuggust vel um. At morni mælti Þorsteinn til sinna manna: ek vil gjöra yðr kunnigt um ætlan mína; þèr skuluð bíða mín hèr 6 nætr, ætla ek mèr at kanna land þetta. Þeim þótti mikit fyrir því, ok vilja með honum fara, en Þorsteinn vill þat ei: ok ef ek kem ei aptr, áðr 7 sólir eru af himni, segir hann, þá skulu þèr sigla heim, ok segja so Ólafi konúngi, at mèr mun ekki auðit verða aptr at koma. Gengu þeir þá með honum upp á skóginn, því næst hvarf hann þeim, ok fóru þeir aptr til skips, ok breyttu eptir því, sem Þorsteinn bauð þeim. Nú er at segja af Þorsteini, at allan þann dag gengr hann um mörkina, ok verðr við ekki var; en at áliðnum degi kemr hann á eina braut breiða, hann gekk eptir brautinni þángat til at aptnaði, gekk hann þá brott af brautinni, ok víkr at einni stórri eik, ok stígr upp í hana, var þar nóg rúm í at liggja, sefr hann þar um nóttina; en er sólin

kom upp, heyrir hann dunur miklar ok manna mál, sá hann þá hvar margir menn ríða, þeir voro 2 og 20, þá bar so skjótt umfram; undraðist Þorsteinn mjög vöxt þeirra, hafði hann ei sèð jafnstóra menn fyrr. Þorsteinn klæðir sik; líðr nú morgininn til þess at sól er komin í landsuðr.

5. Nú sèr Þorsteinn þrjá menn ríða vel vopnaða ok svâ stóra, at aunga menn sá hann fyrr jafnstóra; sá var mestr er í miðit reið í gullskotnum klæðum á bleikum hesti, en hinir 2 riðu á grám hestum í rauðum skallats klæðum. En er þeir kvomu þar gegnt, sem Þorsteinn var, mælti sá sem fyrir þeim var ok nam staðar: hvat er kvikt í eikinni? Þorsteinn gekk þá á veginn fyrir þá, ok heilsaði þeim, en þeir ráku upp hlátr mikinn ok mælti [hinn mikli maðr [1]): sjaldsènir eru oss þvílíkir menn, eðr hvert er nafn þitt, eðr hvaðan ertu? Þorsteinn nefndi sik ok kveðst vera kallaðr bæarmagn: en kyn mitt er í Noregi, er ek hirðmaðr Ólafs konúngs. Hinn mikli maðr brosti ok mælti: mest er logit frá hirðprýði hans, ef hann hefir aungvan vaskligri; þiki mèr þú heldr mega heita bæarbarn enn bæarmagn. Lát nokkut fylgja nafnfesti, segir Þorsteinn. Hinn mikli maðr tók fíngrgull ok gaf Þorsteini, þat vó 3 aura. Þorsteinn mælti: hvert er þitt nafn, eðr hverrar stèttar ertu, eðr í hvert land er ek kominn? Goðmundr

1) fyrirn aðrinn, *hinir.*

heiti ek, ræð ek þar fyrir, sem á Glæsisvöllum heitir, þar þjónar til þat land, er Risaland heitir; ek er konúngs son, en mínir sveinar heitir annar Fullsterkr en annar Allsterkr; eðr sáttu aungva menn ríða hèr um í morgin? Þorsteinn mælti: hèr riðu um 2 menn ok 20 ok lètu ei lítinn. Þeir eru sveinar mínir, segir Goðmundr. Þat land liggr hèr næst, er Jötunheimar heitir, þar ræðr sá konúngr, er Geirravðr heitir, undir hann eru vèr skattgildir. Faðir minn hèt Úlfhèðin trausti, hann var kallaðr Goðmundr sem allir aðrir, þeir á Glæsisvöllum búa; en faðir minn fór í Geirravðar garða, at afhenda konúngi skatta sína, ok í þeirri ferð fèkk hann bana; hefir konúngr gjört mèr boð, at ek skyldi drekka erfi eptir föður minn, ok taka slíkar nafnbætr, sem faðir minn hafði; en þó unum vèr illa við at þjóna Jötnum. Því riðu yðrir menn undan? segir Þorsteinn. Mikil á skilr land vort, segir Goðmundr, sú heitir Hemra, hon er svâ djúp ok straung, at hana vaða aungvir hestar, nema þeir sem vær kumpánar eigum; skulu hinir ríða fyrir uppsprettu árinnar, ok finnumst vèr í kveld. Þat mundi skemtan at fara með yðr, segir Þorsteinn, ok sjá hvat þar verðr til tíðinda. Ei veit ek [hversu þat hentar[1]), segir Goðmundr. Þvíat þú munt kristinn. Ek mun mik ábyrgjast, segir Þorsteinn. Ekki vilda ek þú hlytir vont af mèr, sagði Goðmundr, en ef Ólafr konúngr

[1]) hverju þat sætir *C. D. E.*

vill leggja gæfu á með oss, þá mundi ek framt á treysta at þú færir. Þorsteinn segist því heita vilja. Goðmundr biðr hann fara á bak með sèr, ok svâ gjörði hann. Ríða þeir nú til árinnar, var þar eitt hús, ok tóku þeir þar önnur klæði, ok klæddu sik ok sína hesta; þau klæði voru þeirrar náttúru at ekki festi vatn á þeim, en vatnit var so kalt, at þegar hljóp drep í, ef nokkut vöknaði. Riðu þeir nú yfir ána, hestarnir vóðu sterkliga, hestr Goðmundar rasaði, ok varð Þorsteinn votr á tánni, ok hljóp þegar drep í; en er þeir kvomu af ánni, breiddu þeir niðr klædin til þerris; Þorsteinn hjó af sèr tána, ok fanst þeim mikit um hreysti hans. Ríða þeir nú sinn veg, bað Þorsteinn þá ei fela sik: þvíat ek kann at gjöra þann hulins hjálm, at mik sèr engi. Goðmundr segir þat góða kunnáttu. Kvomu þeir nú til borgarinnar, ok kvomu menn Goðmundar í móti honum; riðu þeir nú í borgina, mátti þar nú heyra alsháttar hljóðfæri, en ekki þótti Þorsteini af setníng slegit. Geirravðr konúngr, kom nú í mót þeim, ok fagnaði þeim vel, ok var þeim skipat eitt steinhús eðr höll at sofa í, ok menn til fengnir at leiða hesta þeirra á stall; var Goðmundr leiddr í konúngs höll. Konúngr sat í hásæti, ok jarl sá hjá honum, er Agði hèt, hann rèð fyrir því hèraði, er Grundir heita, þat er á millum Risalands ok Jötunheima, hann hafði atsetu at Gnípalundi, hann var [fjölkunnigr ok menn hans voru tröllum

líkari enn mönnum [1]). Goðmundr settist á skörina fyrir öndvegit gagnvart konúngi, var sá siðr þeirra, at konúngs son skyldi ekki í hásæti sitja, fyrrenn hann hefði tekit nafnbætr eptir föður sinn, ok drukkit væri hitt fyrsta full. Rís þar nú upp en vænsta veizla, ok drukku menn glaðir ok kátir, ok fóro síðan at sofa. En er Goðmundr kom í hús sitt, sýndi Þorsteinn sik, hlógu þeir at honum; Goðmundr sagði mönnum sínum, hver hann var, ok bað þá ekki hafa hann at hlátri, ok sofa þeir af um nóttina.

6. Nú er morgin kom, voru þeir snemma á fótum, var Goðmundr leiddr til konúngs hallar. Konúngr fagnaði honum vel, viljum vèr nú vita, segir konúngr, hvort þú vilt veita mèr slíka hlýðni sem faðir þinn, ok vil ek þá auka þínar nafnbætr, skaltu þá halda Risalandi, ok sverja mèr eiða. Goðmundr svarar: ekki er þat lög at krefja svâ únga menn til eiða. Þat skal vera, sagði konúngr. Síðan tók konúngr guðvefjar skikkju ok lagði yfir Goðmund, ok gaf honum konúngsnafn, tók síðan horn mikit ok drakk til Goðmundi; hann tók við horninu ok þakkaði konúngi; síðan stóð Goðmundr upp, ok stè á stokkinn fyrir sæti konúngs, ok streingði þess heit, at hann skal aungum konúngi þjóna nè hlýðni veita, meðan Geirravðr konúngr lifði. Konúngr þakkaði honum, sagði sèr þat þikkja meira vert, enn þótt hann hefði eiða svarit. Síðan drakk Goðmundr

[1]) iiöll mikit ok menn hans, *C. D.*

af horninu, ok gekk til sætis síns, voru menn þá glaðir ok kátir. 2 menn eru nefndir með Agða jarli, hèt annar Jökull en annar Frosti, þeir voru öfundsjúkir; Jökull þreif upp uxahnútu ok kastaði í lið Goðmundar. Þorsteinn sá þat, ok henti á lopti, ok sendi aptr, ok kom á nasir þeim, er Gustr hèt, ok brotnaði í honum nefit, ok or honum allar tennrnar, en hann fèll í óvit. Geirravðr konúngr reiddist, ok spurði hverr berði beinum yfir hans borð; sagði hann at reynt skyldi verða, hverr sterkastr væri í steinkastinu, áðr enn úti væri. Síðan kallar konúngr til 2 menn, Dravtt ok Hausvi [1]): fari þið ok sækit gullhnavtt minn, ok berit hann híngat. Þeir fóru ok komu aptr með eitt sels höfuð, er stóð 10 fjórðúnga, þat var glóandi, svâ at sindraði af svâ sem or alli, en fitan draup niðr sem glóanda bik. Konúngr mælti: takit nú knöttinn, ok kastit hverr at öðrum, hverr sem niðr fellir, skal fara útlægr ok missa eignir sínar; en hverr eigi þorir at henda, skal heita níðíngr.

7. Nú kastar Dravttr knettinum at Fullsterk, hann greip á mót annari hendi; Þorsteinn sá at honum varð orkufátt ok hljóp undir knöttinn. Þeir snöruðu at Frosta; þvíat kapparnir stóðu fremstir við hvorntveggja bekkinn; Frosti tók mót sterkliga, ok kom svâ nær andliti hans, at kinnbeinit rifnaði. Hann kastar knettinum at Allsterk, hann tók í móti báðum höndum, ok lá

[1]) eðr, Havsvi.

við at hann mundi kikna, áðr Þorsteinn studdi hann. Allsterkr snaraði at Agða jarli, en hann greip móti báðum höndum, sítan kom í skeggit á honum, ok logaði þat alt, ok var honum til þess annast at afhenda knöttinn; ok fleygir at Goðmundi konúngi; en Goðmundr snaraði at Geirravði konúngi, en hann veik sèr undan, ok urðu þeir fyrir Dravttr ok Hausvir, ok fengu þeir bana; en knöttrinn kom á glerglugg einn, ok svâ út í díki þat, sem grafit var um borgina, ok hljóp upp eldr logandi. Var nú lokit þessu gamni, tóku menn þá til drykkju; sagði Agði jarl at honum frýsi [1]) hugr við jafnan, er hann kom í flokk Goðmundar. Um kveldit gekk Goðmundr at sofa ok hans menn, þökkuðu þeir Þorsteins hjástöðu, at þeim hefði slisalaust farit. Þorsteinn kvað lítit tilreynt, eðr hvat mun til gamans haft á morgin? Konúngr mun láta glíma, segir Goðmundr, ok munu þeir þá hefna sín, þvíat fjarstætt er um afl vort. Konúngs gæfa mun styrkja oss, segir Þorsteinn, hirðit eigi þótt þèr berist þángat at, sem ek er fyrir. Sofa þeir af um nóttina; en at morni fór hverr til sinnar skemtunar, en matsveinar at dúka borð. Geirravðr konúngr spurði, hvert menn vildu ekki glíma; en þeir sögðu at hann skyldi ráða. Síðan aflæðast þeir ok tókust fángbrögðum. Þorsteinn þóttist ei sèð hafa slíkan atgáng, þvíat alt skalf, þá þeir fèllu, ok lèkst mjög á mönnum Agða jarls.

[1]) hrysi, *B.*

Frosti gekk nú fram á gólfit ok mælti: hverr skal mèr á móti? Til mun verða einhverr, sagði Fullsterkr. Ráðast þeir nú á, ok voru með þeim miklar sviptíngar, [ok er Frosti miklu sterkari; berast þeir nú at Goðmundi; Frosti tekr hann uppá bríngu sèr ok keiktist mjög [1]). Þorsteinn slær fæti sínum í knèsbætr honum, ok fèll Frosti á bak aptr, en Fullsterkr á hann ofan; hnakkinn sprakk á Frosta ok olbogarnir. Hann stóð seint upp ok mælti: ekki ero þèr einir at gamninu, eðr því er svâ fult í flokki yðrum? Skamt á nefit at kenna or kjaptinum, sagði Fullsterkr. Jökull stóð þá upp, ok Allsterkr rèðst þá í móti honum, ok var þeirra atgángr hinn harðasti; en þó var Jökull sterkari, ok bar hann at bekk, þar sem Þorsteinn var fyrir. Jökull vildi draga Allsterk frá bekknum ok togast við fast, en Þorsteinn hèlt honum. Jökull tók so fast, at hann stè í hallargólfit upp at ökla, en Þorsteinn hratt Allsterk frá sèr, ok fèll Jökull á bak aptr, ok gekk or liði á honum fótrinn. Allsterkr gekk til bekkjar, en Jökull stóð upp seint ok mælti: ekki sjáum vèr alla þessa, sem á bekknum eru. Geirravðr segir Goðmundi, hvort hann vildi ekki glíma. En hann kveðst aldri glímt hafa, en kveðst ei vildu synjast. Konúngr bað Agða jarl hefna manna sinna. Hann kveðst laungu hafa aflagt, en segir konúng ráða skyldu. Síðan afklæddust þeir; ei þóttist Þorsteinn sèð hafa tröll-

[1]) *vantar í A.*

ligri búk enn á Agða, var hann blár sem Hel. Goðmundr reis mót honum, var hann hvítr á skinnslit. Agði jarl hausvaðist [1]) at honum, ok lagði svâ fast krummurnar at síðum hans, at alt gekk niðr at beini, ok bárust þeir víða um höllina, ok er þeir kvomu þar, sem Þorsteinn var, þá brá Goðmundr jarli til sniðglímu, ok snèri honum vakrliga. Þorsteinn lagðist niðr fyrir fætr jarli, ok fèll hann þá, ok stakk niðr nösunum, ok brotnaði í honum þjófsnefit ok 4 tennr. Jarl stóð upp ok mælti: þúng verða gamalla manna föll, ok svâ þýngst at þrír gángi at einum. Fóru menn þá í klæði sín.

8. Þessu næst fóru þeir konúngr til borða; töluðu þeir Agði jarl um, at þeir mundu einhvern prett við hafa haft: þvíat mèr býðr ávalt hita, er ek kem í þeirra flokk. Látum bíða, segir konúngr, sá mun koma, at okkr mun kunngjöra. Tóku menn þá at drekka. Þá voru borin in 2 horn í höllina, þau átti Agði jarl, gersemar miklar, ok voru köllut Hvítíngar, þau voru 2gja álna há ok gulli búin. Konúngr lèt sitt hornit gánga á hvorn bekk; ok skal hverr drekka af í einu; sá, sem því orkar ei, skal fá byrlaranum eyri silfrs. Gekk aungum af at drekka utan köppunum, en Þorsteinn gat svâ til sèð, at þeir sem með Goðmundi voru, varð engi víttr. Drukku menn nú glaðir þat sem eptir var dagsins, en um kveldit fóru menn at sofa. Goðmundr þakkaði Þorsteini

[1]) eðr, havsvaðist.

fyrir góða hjástöðu. Þorsteinn spurði nær endast mundi veizlan. At morni skulu menn mínir ríða, segir Goðmundr; veit ek at nú lætr konúngr alt við hafa, eru nú sýndar gersemar, lætr konúngr nú bera inn horn sitt hit mikla, þat er kallat *Grímr* hinn góði, þat er gersemi mikil, ok þó galdrafult ok búit með gull; mannshöfut er á stiklinum með holdi ok munni[1]), ok þat mælir við menn, ok segir fyrir óvorðna hluti, ok ef þat veit ófriðar von; verðr þat bani vor, ef konúngr veit at kristinn maðr er með oss; munu vèr ei þurfa at vera fèsparir við hann. Þorsteinn sagði Grím eigi mæla fleira, enn Ólafr konúngr vildi: en ek ætla at Geirravðr sè feigr, þikki mèr ráð at þèr hafit mín ráð hèðan af, skal ek sýna mik á morgin. En þeir sögðu þat hættu ráð. Þorsteinn sagði at Geirravðr vildi þá feiga: eðr hvat segir þú mèr af Grími hinum góða fleira? Þat er frá honum at segja, at meðalmaðr má standa undir bugtinni á honum, en álnar breitt yfir beitina, ok er sá mestr drykkjumaðr í þeirra liði, er drekkr beitina, en konúngr drekkr af í einu. Hverr maðr á at gefa Grími nokkura gersemi, en sú virðíng þikir honum sèr mest gjör, at í einu sè af drukkit, en ek veit at mèr ber fyrstum af at drekka, en þat er einskis manns þol at drekka þat í einu. Þorsteinn mælti: þú skalt fara í serk minn, því þèr má (þá) ekki granda, þó at ólyfjan sè í drykknum; tak kórónu

[1]) hári, *hinir.*

af höfði þèr, ok gef Grím hinum góða, ok seg í eyra honum, at þú skalt gjöra honum miklu meira heiðr enn Geirravðr, ok síðan skaltu láta sem þú drekkir, en eitr mun í horninu, ok skaltu steypa niðr næst þèr, ok mun þik ekki saka; en þá er drykkjuskapr er úti, skaltu láta menn þína ríða. Goðmundr sagði at hann skuli ráða: en ef Geirravðr deyr, þá á ek alla Jötunheima, en ef hann lifir lengr, verðr þat bani vor. Síðan sofa þeir af um nóttina.

9. Um morguninn eru þeir snemma á fótum, ok taka sín klæði; þá kemr Geirravðr konúngr til þeirra, ok biðr þá drekka velfaranda sinn. Þeir gjörðu svâ. Voru fyrst drukkin hornin Hvítíngar næst máldrykkju skálum; en þá var drukkit minni Þórs ok Óðins [1]), þvínæst kvomu inn margir slagir hljóðfæra, ok 2 menn nokkuru minni enn Þorsteinn, þeir báru Grím hinn góða. Allir stóðu upp ok fèllu á knè fyrir honum. Grímr var óhýrligr. Geirravðr mælti til Goðmundar: tak við Grím hinum góða, ok er þetta þín handsals skál. Goðmundr gekk at Grími, ok tók af sèr gullkórónu ok setti á hann, ok mælti í eyra honum, sem Þorsteinn hafði sagt honum; síðan lèt hann renna af horninu ofaní serk sèr, ok var eitr í. Hann drakk til Geirravði konúngi ok kysti á stikilinn, ok fór Grímr hlæjandi frá honum; tók Geirravðr þá við fullu horninu, ok bað Grím með góðri heill koma,

[1]) allra Ása, *hinir.*

ok bað hann kunngjöra sèr, ef nokkur háski væri nær: hefi ek opt sèð þik með betra bragði. Tók hann gullmen af sèr ok gaf Grími, drakk síðan til Agða jarli, ok þótti því líkast, sem boði fèlli á sker, er niðr rann eptir hálsinum á honum, ok drakk af alt. Grímr hristi höfuðit, ok var hann borinn Agða jarli, ok gaf hann honum 2 gullhrínga, ok bað sèr miskunar, ok drakk síðan af í þremr, ok fèkk byrlaranum. Grímr mælti: svâ ergist hverr sem eldist. Þá var hornit fyllt, ok skyldu þeir drekka af 2, Jökull ok Fullsterkr. Fullsterkr drakk fyrr. Jökull tók við ok leit í hornit, ok kvað lítilmannliga drukkit, ok sló Fullsterk með horninu; en hann rak hnefann á nasir Jökli, svâ þjófshakan brotnaði, en or hrutu tennrnar; var þá upphlaup mikit. Geirravðr bað menn ei láta þetta spyrjast, at þeir skildi svâ illa. Voru þeir þegar sáttir, ok var Grímr hinn góði burt borinn.

10. Litlu síðar kom maðr gángandi í höllina; allir undruðust hversu lítill hann var; þat var Þorsteinn bæarbarn; hann veik at Goðmundi ok sagði, at hestar væru til reiðu. Geirravðr spurði, hvað barn at þat væri? Goðmundr segir: þat er smásveinn minn, er Óðin konúngr sendi mèr, ok er konúngs gersemi, ok kann marga smáleika, ok ef yðr þætti nokkuru neytr, þá vil ek gefa yðr hann. Þat er svipmikill drengr, segir konúngr, ok vil ek sjá fimleika hans, ok bað Þorstein leika nokkurn smáleik.

Þorsteinn tók hall sinn ok brodd, ok pjakkar þarí, sem hvítt er; kemr haglhríð svâ mikil, at engi þorir í móti at sjá, ok varð svâ mikil fönn í höllinni, at tók í ökla. Konúngr hló at. Nú stángaði Þorsteinn hallinn, þar sem hann var gulr, kom þá sólskin svâ heitt, at snjórinn bráðnaði allr á lítilli stundu; þar fylgði sætr ilmr, en Geirröðr kvað hann vera listamann; en Þorsteinn segir eptir einn leikinn, er heitir svipuleikr [1]). Konúngr segist hann sjá vilja; Þorsteinn stóð á miðju hallar gólfi, ok pjakkar þar í hallinn, sem rautt er, stökkva þar or gneistar; síðan hleypr hann um höllina fyrir hvert sæti, tókust þá at vaxa gneista flavgin, svâ at hverr maðr varð at geyma sín augu; en Geirröðr konúngr hló at; tók þá at vaxa eldrinn svâ at öllum þótti við of um. Þorsteinn hafði sagt Goðmundi fyrir, at hann skyldi út gánga ok fara á hest. Þorsteinn hleypr fyrir Geirröð ok mælti: vili þèr láta auka leikinn? Lát sjá, sveinn! sagði hann. Pjakkar Þorsteinn þá í fastara lagi; kemr þá í auga Geirröði konúngi. Þorsteinn hleypr til dyranna, ok snaraði hallinum ok broddinum, ok kom í sitt auga hvort á Geirröði konúngi, ok steyptist hann dauðr á gólfit, en Þorsteinn gekk út; var Goðmundr þá kominn á hest. Þorsteinn bað þá ríða: þvíat nú er ekki deigum vært. Þeir ríða til árinnar; var þá aptr kominn hallr-

[1]) svipuleikr, *C. A.*

inn ok broddrinn. Þorsteinn segir, at Geirröðr var dauðr. Ríða þeir nú yfir ána, ok þángat sem þeir höfðu fundizt; þá mælti Þorsteinn: hèr munu vær nú skilja, ok mun mönnum mínum mál þikja, at ek komi til þeirra. Far heim með mèr, sagði Goðmundr, ok skal ek launa þèr góða fylgð. Síðan mun ek þess (boðs) vitja, segir Þorsteinn, en aptr skalt þú fara með fjölmenni í Geirruðargarða; er nú landit í yðru valdi. Þú munt ráða, sagði Goðmundr, en Ólafi konúngi skaltu færa kveðju mína; tók hann þá eitt gullker ok silfrdisk ok tvítugt handklæði gullofit, ok sendi konúngi, en bað Þorstein vitja sín, ok skildu með kærleikum.

11. En nú sèr Þorsteinn, hvar Agði jarl fer í allmiklum jötunmóð. Þorsteinn fer eptir honum, sèr hann þá mikinn húsabæ, er Agði átti. Aldingarðr var við grindhliðit, ok stóð þar við ein júngfrú, hon var dóttir Agða, ok hèt Goðrún, mikil var hûn ok fríð; hon heilsaði föður sínum, ok spurði tíðinda. Nóg eru tíðendi, segir hann, Geirröðr konúngr er dauðr, ok hefir Goðmundr af Glæsisvöllum svikit oss alla, ok hefir leynt þar kristnum manni, ok heitir sá Þorsteinn bæjarmagn, hann hefir ausit eldi í augu oss, skal ek nú drepa menn hans, kastar hann þar niðr hornunum Hvítíngum, ok hljóp til skógar, sem hann væri galinn. Þorsteinn gekk at Goðrúnu; hon heilsaði honum, ok spurði hann at nafni. Hann kvaðst Þorsteinn bæarbarn heita, hirð-

maðr Ólafs konúngs. Stór mun þar hinn stærsti, sem þú ert barnit, sagði hon. Viltu fara með mèr, segir Þorsteinn, ok taka við trú? Við lítit yndi á ek hèr at skiljast, segir hon; þvíat móðir mín er dauð: hûn var dóttir Óttars jarls af Hólmgörðum, ok voru þau ólík at skapsmunum, þvíat faðir minn er mjög travllaukinn, ok sè ek nú at hann er feigr; en ef þú vilt fylgja mèr aptr híngat, þá mun ek fara með þèr. Síðan tók hon þíng sín, en Þorsteinn tók hornin Hvítínga; síðan gengu þau á skóginn, ok sáu hvar Agði fór, hann grenjaði mjög, ok hèlt fyrir augun; hafði þat samanborit, þegar hann sá skip Þorsteins, hljóp sá verkr í þjófs [1] augun á honum, at hann sá eigi; var þá komit at sólarfalli, er þau kvomu til skips; voro menn Þorsteins þá burt búnir, en er þeir sáu Þorstein, urðu þeir fegnir; stè Þorsteinn þá á skip, ok sigldu burt, er ei getit um ferð hans, fyrr enn hann kom heim í Noreg.

12. Þenna vetr sat Ólafr konúngr í Þrándheimi. Þorsteinn fann konúng at jólum, ok færði honum gripi þá, sem Goðmundr sendi honum, ok hornin Hvítínga ok marga aðra gripi; sagði hann konúngi frá ferðum sínum, ok sýndi honum Goðrúnu. Konúngr þakkaði honum, ok lofuðu allir hans hreysti, ok þótti mikils um vert; síðan lèt konúngr skíra Goðrúnu, ok kenna

[1]) *v. í B. C. D.*

trú. Þorsteinn lèk svipuleik um jólin, ok þótti mönnum þat skemtan mikil. Hvítíngar gengu í minnum, ok voro 2 menn um hvort horn; en ker þat, sem Goðmundr hafði sent konúngi, gekk aungum af at drekka utan Þorsteini bæarbarni; handklæðit brann ei, þótt því væri í eld kastat, ok var hreinna eptir enn áðr. Þorsteinn talar um við konúng, at hann vildi gjöra brullaup til Goðrúnar, en konúngr veitti honum þat, ok var þat sæmilig veizla. Ok hina fyrstu nótt, er þau kvomu í eina sæng, (ok) niðr var hleypt fortjaldinu, þá brast upp þilfjöl at höfðum Þorsteins, ok var þar kominn Agði jarl, ok ætlaði at drepa hann; en þar laust í móti hita so miklum, at hann þorði ei inn at gánga, snèri hann þá í burtu. Þá kom konúngr at, ok sló hann með gullbúnu refði í höfuðit, en hann steyptist niðr í jörðina; hèlt konúngr vörð um nóttina, en um morgunin voru horfin hornin Hvítíngar; gekk veizlan vel fram, sat Þorsteinn með konúngi um vetrinn, ok unnust þau Goðrún vel. Um vorit beiddi Þorsteinn orlofs, at sigla í Austrveginn, ok finna Goðmund konúng; en konúngr sagðist þat eigi gjöra, utan hann lofaði at koma aptr. Þorsteinn hèt því. Konúngr bað hann halda trú sína vel: ok eig meira undir þèr enn þeim austr þar. Skildust þeir með kærleikum, ok báðu allir vel fyrir honum, þvíat Þorsteinn var orðinn vinsæll; sigldi hann í Austrveg, ok er eigi getit annars, enn sú ferð færist vel; kom hann á Glæsisvöllu, ok

fagnaði Goðmundr honum vel. Þorsteinn mælti: hvað hafi þèr frètt or Geirravðargörðum? Þángat fór ek, segir Goðmundr, ok gáfu þeir landit í mitt vald, ok ræðr þar fyrir Heiðrekr Úlfhamr, son minn. Hvar er Agði jarl? segir Þorsteinn. Hann lèt gjöra sèr haug, þá þèr fóruð, segir Goðmundr, ok gekk þar í með mikit fè; en þeir Jökull ok Frosti drukknuðu í ánni Hemru, er þeir fóru [1]) frá veizlunni, en ek hefi nú vald yfir hèraðinu á Grundum. Þar er nú mikit undir, segir Þorsteinn, hverju þú vilt mèr af skipta, þvíat mèr þikkir Goðrún eiga arf allan eptir föður sinn, Agða jarl. Ef þú vilt vera minn maðr, sagði Goðmundr. Þá muntu ekki vanda um trú mína, segir Þorsteinn. Þat vil ek, sagði Goðmundr. Síðan fóru þeir til Grunda, ok tók Þorsteinn hèraðit undir sik.

13. Þorsteinn reisti bú at Gnípalundi, þvíat Agði jarl hafði gengit aptr, ok eytt bæinn, gjörðist Þorsteinn höfðíngi mikill. Guðrún fæddi sveinbarn mikit litlu síðar, ok hèt Brynjólfr. Ekki var traust, at Agði jarl glettist ei við Þorstein. Eina nótt gekk Þorsteinn af sæng sinni, ok sá hvar at Agði fór, hann þorði hvergi inní hliðin, þvíat kross var fyrir hverjum dyrum. Þorsteinn gekk til haugsins, hann var opinn, ok gekk hann inn, ok tók burt hornin Hvítínga; þá kom Agði jarl í hauginn, en Þorsteinn hljóp út hjá honum, ok setti kross í dyrnar, ok laukst aptr haugr-

[1]) riðu, *hinir*.

inn, ok hefir ekki orðit vart við Agða síðan. Um sumarit eptir fór Þorsteinn til Noregs, ok færði Ólafi konúngi hornin Hvítínga; síðan fèkk hann orlof, ok sigldi til eigna sinna; bauðkonúngr honum halda vel trú sína; höfum vèr eigi frètt síðan til Þorsteins. En þá Ólafr konúngr hvarf af Orminum lánga, hurfu hornin Hvítíngar. Lúkum vèr þar þætti Þorsteins bæjarbarns.

---

# Þáttr

## Þorsteins skelks.

Þat er sagt um sumarit eptir at Ólafr konúngr fór at veizlum austr um Víkina ok víðar annarstaðar, tók hann veizlu á þeim bæ, er á Reinu heitir, hann var mjök fjölmennr; sá var maðr þá með konúngi, er Þorsteinn hèt, Þorkelsson, Ásgeirssonar æðikolls, Auðunarsonar skökuls, íslenzkr maðr, ok hafði komit til konúngs um vetrinn áðr. Um kveldit er menn sátu yfir drykkjuborðum, talaði Ólafr konúngr, at engi maðr af hans mönnum skyldi einnsaman fara í salerni um náttina, þvíat hverr sem gánga beiddist, skyldi með sèr kalla sinn rekkjufèlaga, ella kvað hann eigi mundu hlýða. Drekka menn nú vel um kveldit, *en er ofan voru drykkjuborð*, gengu menn at sofa, ok er áleið náttina, vaknaði Þorsteinn íslendíngr, ok beiddi at gánga af sæng, en sá svaf fast, er hjá honum lá, svâ at Þorsteinn vildi víst eigi vekja hann; stendr hann þá upp, ok kippir skóm á fætr sèr, ok tekr yfir sik einn

feld þykkvan, ok gengr til heimilishúss, þat var stórt hús, svâ at ellifu menn máttu sitja hvorumegin; sezt hann á yztu setu, ok er hann hefir setit nokkura stund, sèr hann at púki kemr uppá innstu setu, ok sat þar. Þorsteinn mælti þá: hverr er þar kominn? Dólgrinn svarar: hèr er kominn Þorkell hinn þunni, er fèll á hræ [1]) með Haraldi konúngi hilditönn. Hvaðan kom þú nú at? kvað Þorsteinn. Hann sagðist nú nýkominn at or helvíti. Hvað kanntu þaðan at segja? spurði Þorsteinn. Hinn svarar: hvers viltu spyrja? Hverir þola bezt píslir í helvíti? Engi betr, kvað púki, enn Sigurðr Fâfnisbani. Hverja písl hefir hann? Hann kyndir ofn brennanda, sagði draugrinn. Ekki þiki mèr þat svâ mikil písl, segir Þorsteinn. Eigi er þat þó, kvað púki, þvíat hann er sjálfr kyndarinn. Mikit er þat þá, kvað Þorsteinn; eðr hverr þolir þar verst píslir? Draugrinn svarar: Starkaðr inn gamli þolir verst, þvíat hann æpir svâ, at oss fjandunum er þat meiri pína, enn flest alt annat, svâ at vèr megum fyrir hans ópi aldri náðir hafa. Hvat pínu hefir hann þess, kvað Þorsteinn, er hann þolir svâ illa, svâ hraustr maðr sem hann hefir sagðr verit? Hann hefir öklaeld. Ekki þiki mèr þat svâ mikit, sagði Þorsteinn, slíkum kappa sem hann hefir verit. Ekki er þá rètt álitit, kvað draugrinn, þvíat iljarnar einar standa upp or eldinum. Mikit er þat,

[1]) þannig F.

kvað Þorsteinn, ok æp þú eptir honum nökkut óp. Þat skal vera, kvað púki. Hann sló þá í sundr á sèr hvoptonum, ok setti upp gaul mikit, en Þorsteinn brá feldarskautinu at höfði sèr; honum varð mjök ósvift við óp þetta, ok mælti: æpir hann þetta ópit mest svâ. Fjarri fer um þat, kvað draugrinn, þvíat þetta er óp vârt drýsildjöflanna. Æp þú eptir Starkaði líttat, kvað Þorsteinn. Þat má vel, kvað púki. Tekr hann þá at æpa í annann tíma svâ öskrliga, at Þorsteini þótti firn í, hversu mikit sjá fjandi jafnlítill gat gaulat. Þorsteinn gerir þá sem fyrr, at hann vafði feldinum at höfði sèr, ok brá honum þó svâ við, at úmegin var á honum, svâ at hann vissi ekki til sín. Þá spurði púki; hví þegir þú nú? Þorsteinn ansaði, er af honum leið: því þegi ek, at ek undrumst hve mikil ógnarraust at liggr í þèr, eigi meiri púki enn mèr sýnist þú vera; eðr er þetta hit mesta óp Starkaðar? Eigi er nærri því, segir hann, þetta er heldr hit minsta óp hans. Drag þú eigi undan lengr, kvað Þorsteinn, ok lát mik heyra hit mesta ópit. Púki játtaði því. Þorsteinn bjóst þá við, ok braut saman feldinn ok snaraði hann svâ at höfði sèr, ok hèlt at utan báðum höndum. Draugrinn hafði þokat at Þorsteini um þrjár setur við hvert óp, ok voru þá þrjár einar á milli þeirra. Púkinn belgði þá hræðiliga hvoptana, ok snèri um í sèr augunum, ok tók at gaula svâ hátt, at Þorsteini þótti or hófi keyra, ok í því kvað við

klukkan í staðnum, en Þorsteinn fèll í úvit fram á gólfit; en púkanum brá svâ við klukkuhljóðit, at hann steyptist niðr í gólfit, ok mátti lengi heyra yminn niðr í jörðina. Þorsteinn raknaði skjótt við, ok stóð upp, ok gekk til sængr sinnar ok lagðist niðr; en er mornaði stóðu menn upp, gekk konúngr til kirkju, ok hlýddu tíðum; eptir þat var gengit til borða. Konúngr var ekki forráðsblíðr, hann tók til orða: hefir nokkur maðr farit einnsaman í nátt til heimilishúss. Þorsteinn stóð þá upp, ok fèll fram fyrir konúng, ok sagðist af hafa brugðit hans boði. Konúngr svarar: ekki var mèr þetta svâ mikil meingerð, en sýnir þú þat, sem talat er til yðvar Íslendínga: at þèr sèt mjök einrænir; en varð þú við nokkut varr. Þorsteinn sagði þá alla sögu, sem farit hafði. Konúngr spurði: hví þótti þèr gagn at hann æpti? Þat vil ek segja yðr, herra! ek þóttist þat vita, með því at þèr höfðut varat alla menn við at fara þángat einir saman, en skelmirinn kom upp, at við mundi eigi klaklaust skilja, en ek ætlaði at þèr mundit vakna við, herra! er hann æpti, ok þóttumst ek þá hólpinn, ef þèr yrðit varir við. Svâ var ok, sagði konúngr, at ek vaknaði við, ok svâ vissa ek hvat framfór, ok því lèt ek hríngja, at ek vissi at eigi mundi þèr ella duga; en hræddist þú ekki þá, er púkinn tók at æpa? Þorsteinn svarar: ek veit ekki, hvat þat er, hræðslan, herra! Var

engi ótti í brjósti þèr? sagði konúngr. Eigi var þat, sagði Þorsteinn, þvíat við hit síðasta ópit skaut mèr nærsta skelk í bríngu. Konúngr svarar: nú skal auka nafn þitt, ok kalla þik Þorstein skelk hèðan af, ok er hèr sverð, at ek vil gefa þèr at nafnfesti. Þorsteinn þakkaði honum. Svâ er sagt, at Þorsteinn gerðist hirðmaðr Ólafs konúngs, ok var með honum síðan, ok fèll á Orminum lánga með öðrum köppum konúngs.

---

# Þáttr

## Orms Stórólfssonar.

Hængr hèt maðr, son Ketils Naumdæla jarls [1]), en móðir Ketils jarls hèt Hrafnhildr, dóttir Ketils hængs or Hrafnistu. Hængr var göfugr maðr; hann varð í missætti við Harald konúng Dofrafóstra af drápi Hildiríðar sona, ok því stökk hann or landi. Hængr sigldi vestr í haf at leita Íslands; þeir urðu við land varir, ok voru fyrir sunnan atkomnir, sigldu uppí árós einn mikinn, ok lögðu við hit eystra land; sú á heitir nú Þjórsá. Þeir könnuðu víða landit. Hængr var hinn fyrsta vetr fyrir austan [2]) Rángá, en um vorit nam hann land milli Þjórsár ok Markarfljóts alt í milli fjalls ok fjöru, ok bjó at Hofi við Rángá *hina* eystri. Íngunn hèt kona hans, hon fæddi son um vorit, er Hrafn hèt. *Hængr gaf land skipverjum sínum, en seldi* sumum, ok eru þeir landnámamenn kallaðir. Herjúlfr hèt annarr son Hængs; hans son var

[1]) *summir sleppa þessu orði.* [2]) utan, *D. F. K.*

Sumarliði; Helgi hèt hinn þriði; Vestarr hèt hinn fjórði. Hrafn Hængsson var fyrstr lögsögumaðr á Íslandi; hann bjó at Hofi eptir föður sinn. Þorlaug var dóttir hans, er átti Jörundr goði. Hinn fimta son átti Hængr, er Stórólfr hèt, hann er kallaðr mestr sona hans, en Hrafn göfgastr. Stórólfr átti Þórörnu [1]), systur Þorbjarnar skólms, þess er var faðir Þórálfs. Stórólfr bjó at Hvoli, er síðan var kallaðr Stórólfshvoll. Stórólfr var allra manna sterkastr, ok þat var allra manna mál, at hann væri eigi einhamr; hann var fróðr maðr ok margvíss, var hann af því kallaðr fjölkunnigr. Hann átti son við Þórörnu konu sinni, er Ormr er nefndr, hann var snemmendis bæði mikill ok sterkr, ok vel at íþróttum búinn, þvíat þá er hann var 7 vetra, samvægði hann hinum sterköstum mönnnm um afl ok allar íþróttir; ekki hafði hann ástríki mikit af föður sínum, enda var hann honum údæll, ok vildi ekki vinna; en móðir hans unni honum mikit. Ekki lagðist Ormr í eldaskála, óx hann nú upp, þar til hann var 12 vetra gamall. Stórólfr var iðjumaðr mikill ok [verks ígjarn [2]). Þat var einn dag um sumarit, at Stórólfr lèt færa hey saman, ok gengu fernir eykir; Stórólfr hlóð heyi, en handfátt varð upp at bera, en honum þótti heldr regnligt gerast, kallaði hann þá á Orm son sinn, ok bað hann til hjálpa ok leggja upp heyit. Ormr gerði ok

[1]) þórunni, *hinir.* [2]) umsýslunar gjarn, *K.*

svâ; en er í tók at draga skúrirnar, gerðist Stórólfr mikilvirkr á heyinu, ok eggjaði Orm fast, at hann skyldi duga ok neyta aflsins, ok sagði hann bæði slyttinn ok linaflaðan, ok meirr gefinn vöxtr enn afl eðr harka. Ormr reiddist nú, ok bar upp fúlguna alla á lítilli stundu, ok í því kom at eykrinn; greip Ormr þá upp hlassit ok hestinn með öllum akfærunum, ok kastaði upp á heyit, ok svâ snart, at Stórólfr karl fèll út af heyinu ok ofan í geilina; varð þat svâ þúngt fall, at brotnaði í honum 3 rifin. Stórólfr mælti þá: ílt er at eggja ofstopamanninn, ok er þat auðsèt, at þú munt úfyrirleitinn verða. Mikil aflraun þótti þetta öllum mönnum, af jafnúngum manni sýnd.

*Ormr Stórólfsson fór til sláttar.*

2. Þat er enn sagt einnhvern dag at Stórólfr kom at máli við Orm son sinn, ok bað hann fara á engjar ok slá; þvíat húskörlum gengr lítt í sumar. Hvar er ljár sá, er ek skal slá með? sagði Ormr. Stórólfr fèkk honum þá orf ok nýan ljá, ok var hvârtveggja mjök [stórkostligt [1]). Ormr vatt ljáinn í sundr milli handa sèr, en steig í sundr orfit ok kvað sèr [hvorki skyldu [2]). Snýr Ormr þá í brottu, ok fær sèr 2 fjórðúnga járns, ok fer til smiðju, ok gerir sèr ljá; síðan tók hann sèr einn ás or viðar buðlúngi, ok gerði sèr mátuliga hátt (orf), ok færði í 2 hæla stóra, ok lèt þar í koma ljáinn þann nýa, ok

[1]) sterkligt, *A. E. G. H. L. M.* [2]) hvorugt skyldi, *M.*

vafði síðan með járni, gekk síðan ofan á engjar; þar var svâ háttat lands lagi, at þar var þýft mjök, en bæði loðit ok grasgott. Ormr tók til at slá, ok slær þann dag allan til kvelds. Stórólfr sendi griðkonur sínar, at raka ljána eptir Ormi; en er þær kvomu á engjarnar, sá þær at Ormr hafði haft múgaslátt, tóku þær þá til ok ætluðu at hvirfla heyit; en þat gekk þeim eigi svâ greitt, sem þær ætluðu, þvíat þær gátu öngan múga [1]) hrært hvârki með hrífu nè höndum; fóru heim síðan, ok sögðu bónda. Fór hann þá, ok reið á engjar um kveldit, sá hann þá at Ormr hafði slegit af þúfur allar, ok fært þær saman í múga, hann bað hann þá uppgefa, ok ónýta eigi meira. Ormr gerði þá ok svâ, ok var þá ljár hans máðr uppí [2]) smiðreim; þá hafði Ormr slegit 8 stakka völl, ok þær einar engjar eru slèttar af Stórólfshvoli, ok er kallaðr ákvæðis teigr milli hverra múga; sèr þessa alls merki enn í dag.

*Ormr bar heykleggja.*

3. Dúfþakr er maðr nefndr, hann bjó á þeim bæ, er heitir í Holti, [ok er síðan kallat Dúfþaksholt [3]). Dúfþakr var mikill ok mjök tryldr, svâ at hann var eigi einhamr. Þeir Stórólfr eldu [4]) löngum grátt silfr, en stundum voru með þeim blíðskapir, en þó átti með þeim illan

[1]) múgann, *A. M.*, múginn, *E. L.* [2]) bakka ok, *b. v. A. E. G. K. L. M.* [3]) *v. í. L.* [4]) elldu, *A. K.*, eltu, *E. L. M.*

enda at síðastu, þvíat þat segja sumir menn, at Dúfþakr yrði Stórólfi at bana. Nú líðr áfram, þar til at Ormr er 18 vetra gamall; þá kom vetr mikill, svâ at [gerði jarðbönn [1]), en Stórólfr hafði fènaðar mart, tók þá at draga fast at heyjum hans, er áleið, svâ at hann þóttist sjá fyrir, at hann mundi fella fènað sinn, ef öngra bragða væri í leitat, þvíat hey kunni hvergi at fá [2]) í bygðinni, utan Dúfþakr hafði hey [með afgöngum [3]), ok vildi við öngan afstanda; þá var heldr fátt með þeim Stórólfi. Stórólfr sendi þá Orm son sinn til móts við Dúfþak, at fá af honum nokkut af heyi, þvíat þá gerðist tímum mjök framkomit, en fènaðr dreginn mjök. Ormr fór þá til móts við Dúfþak, ok falaði af honum hey, en hann kveðst ekki til sölu hafa; en er Ormr herti fast at, þá sagði Dúfþakr at hann skyldi hafa byrði sína, ef hann vildi, ok má ykkr þó at gagni koma, ef svâ mikit leggr hverr til á bygðinni. Þetta er lítit tillát [4]), en þó skal ek hafa, sagði Ormr, eðr hvar skal ek aftaka? Úti í garði, segir Dúfþakr, standa tveir heykleggjar, annarr fjögra faðma, en annarr tveggja, ok vel tveggja faðma þykt, ok því nærri hátt, ok þikir von at sígit muni, þar skaltu hafa af hinu [5]) minna. Ek mun fara heim fyrst, segir

---

[1]) verðr jarðbann, *K.* [2]) fást, *E. K. M.* [3]) með afgaungu, *A. E. K. M.*, afgángs, *K.* [4]) tillag, *A. E. G. L. M.*, tillagt, *K.* [5]) hinum, *E. G. L.* þeim hinum, *K.*

Ormr, ok sækja mèr bendi; ok svâ gerði hann, sagði nú föður sínum. Þetta er göngumannliga tillátit, segir Stórólfr, enda skal hann hèr ekki verð fyrir hafa, ok þikir mèr þó ráð, at ek sæki heldr byrðina, þvíat ek mun heldr borit fá enn þú. Eigi skal þat vera, sagði Ormr, þvíat svâ mikit var gefit, sem ek bæra. Hertu þik þá, mannskræfan! segir Stórólfr. Snýr Ormr þá í brottu ok til gervibúrs [1]), ok tekr reip á 10 hesta, ok leysir af hagldir, kastar þá saman bæði at leingð ok digurð, svâ at hann gerir or eitt, gengr síðan yfir í Holt ok at heygarðinum, ok brýtr á hlið, gengr inní garðinn, ok at hinum meira heykleggjanum, ok ryðr af ofan torfi, ok því sem verst var orðit, síðan styðr hann á höndum, ok losar til heyit niðri við jörðina, dregr síðan undir reipin, ok bregðr í hagldirnar ok vendir um heyinu, færist hann þá undir [í fatla [2]), ok vegr upp á herðar sèr; en þat segja sumir menn, at hann hafi haft hinn minna kleggja í fyrir; gekk hann með þetta heim til Stórólfshvols, var bóndi úti ok sá, fannst honum mikit um, ok lèt ásannast at hann mundi eigi sjálfr svâ miklu orkat hafa, var þá inn borit í hlöðu, ok var hon þá full; dugði þetta hey svâ vel fènaði Stórólfs bónda, at hann feldi ekki um vorit; var síðan betr í frændsemi þeirra

[1]) útibúrs, *M.* útihúss, *K.* *H*; *v. i.* *K.*

[2]) í fætla, *M.* í fetlana,

feðga þaðan af enn áðr, því at Stórólfr sá, hvert afbragð Ormr var annarra manna. En er Dúfþakr karl kom út um daginn, ok sá vegs ummerki, at í burtu voru hey hans bæði, en þat eina eptir, er vettugi var nýtt, ok þó eigi vel at unnit, sá hann ok hvar Ormr gekk or garði, ok bar heykleggjana báða, þótti honum mikil furða í, hversu stora byrði Ormr gat borit; en um vorit fór Dúfþakr til Hvols, ok heimti heyverð at Stórólfi, ok fèkk ekki, þótti honum heyit eigi minna vert enn 6 kúgildi; leiddi af þessu lángan úþokka með þeim Stórólfi ok mikinn fjandskap, sem síðar mun sagt verða.

*Ormr ok Þorálfr reyndu knáleik sinn.*

4. En er Ormr var tvítugr at aldri, reið hann til alþíngis sem optar; þá var þíngit fjölmennt. Þórálfr [1]) Skólmsson var kominn á þíngit norðan frá Myrká or Hörgárdal, frændi Orms; með honum var sá maðr, er Melkólfr [2]) hèt, hann hafði 6 karla afl; þeir voru allir í búð með Jörundi goða, mági Orms; Jörundi goða voru gefnir aurskór einir, þeir voru svá stórir ok járnmiklir, at þeir stóðu hálft pund saumlausir; þeir fóru um búðina til sýnis, en er skórnir komu til Þórálfs, tók hann skóna 4 ok lèt saman, ok hèlt á nokkura stund, rètti síðan at Ormi, ok voru þá allir rèttir sem kerti. Ormr tók við, ok beygði í einu alla skóna 4, sem áðr höfðu verit, ok þótti þetta mikil aflraun hvor-

1) Þórólfr, *K. M.* 2) Mækólfr, *F allstaðar.*

tveggja. En um daginn, er þeir gengu út, stóð hituketill hjá hituhúsinu, sá er tók 2 tunnur, hann fyldu þeir upp af sandi, eptir þat gekk at Melkólfr, ok fleytti honum með annarri hendi. Þórálfr gekk þá at, ok lypti honum upp með tveimr fíngrum; síðast gekk at Ormr ok krækti undir hödduna hinum minsta fíngri, ok fleytti honum jafnhátt ökla, ok brá hendinni undir kápuna. Þórálfr mælti: sýn mèr nú fíngrinn. Eigi vil ek þat, segir Ormr. Kost átta ek at meiða mik, ef ek vildi, segir Þórálfr, ok vilda ek eigi. Mönnum þótti sem í sundr hefði gengit hold ok sinar niðr at beini. Síðan riðu menn heim af þíngi, ok sat Ormr um kyrt. Mikils þótti mönnum vert um aflraunir Orms, þær sem hann hafði gert, ok gerði síðan því meiri, sem hann var þá ellri, ok því er þat allra manna mál, vina hans ok úvina, at hann hafi sterkastr maðr verit á öllu Íslandi bæði at fornu ok nýju, sá er einhamr hefir verit.

## *Af Ásbirni prúða.*

5. Virvill [1]) hèt maðr, hann átti at ráða fyrir einu þorpi í Danmörk, þar er á Vendilskaga heitir. Þeir voru bræðr ok Veseti í Borgundarhólmi. Virvill var kvongaðr maðr, ok átti einn son við konu sinni, er Ásbjörn er nefndr; hann var snemma mikill ok vænn, ok vel at íþróttum búinn; hann var hverjum manni kurt-

[1]) Vífill, *hinir allstaðar.*

eisari, af því var hann kallaðr Ásbjörn prúði. Þat var þá tízka í þær mundir, at konur þær fóru yfir land, er völvur voru kallaðar, ok sögðu mönnum forlög sín, árferð ok aðra hluti, þá er menn vildu vísir verða. Þessi sveit kom til Virvils bónda, var völvunni þar vel fagnat, þvíat þar var veizla hin bezta; en er menn voru komnir í sæti um kveldit, var völvan frètt at forspám sínum, en hon sagði, at Virvill mundi þar til elli búa, ok þikja nýtr bóndi, en þeim únga manni, er þar sitr hjá þèr, bóndi! er gott at heyra sín forlög, þvíat hann mun fara víða, ok þikja þar mestr maðr, sem þá er hann helst, ok vinna mart til framaverka, ok verða ellidauðr ef hann kemr eigi á Norðmæri í Noregi, eðr norðr þaðan í þat land. Þat ætla ek, sagði Ásbjörn, at ek sè eigi þar feigari enn hèr. Muntu eigi ráða því, hvat er þú ætlar, segir völvan, ok varð henni þá ljóð [1]) á munni.

Þó at þú látir
yfir lögu breiða
byrhest renna,
ok berist víða;
nær mun liggja [2]),
at norðr fyrir [3]) Mæri
þú bana hljótir,
bezt mun at þegja [4]).

[1]) ljóðr, *A. E. G. I. L. M.* ljóð af munni *H.* hljótt í máli *K.*
[2]) leggja *A. G. I. L.* þat leggja *F.* þat liggja, *K.*
[3]) á, *H.* [4]) þagna, *E. G. I. L.*

Síðan var völvan þar svâ lengi sem ætlat var, ok leyst í burt með góðum gjöfum. Ásbjörn óx nú upp, en þegar at aldr færðist yfir hann, þá hafði hann sik í förum til ýmissa landa, ok kyndi sèr svâ siðu annarra manna, ok var mikils metinn af öllum höfðíngjum. Móðir hans var ættuð norðan or Noregi af Hörðalandi ok Norðmæri, komin af ætt Bifru-Kára; sat Ásbjörn þar löngum hjá móðurfrændum sínum, mikils metinn sakir íþrótta sinna ok atgervi.

*Ormr ok Ásbjörn unnu Gautland.*

6. Nú er þar til at taka er fyrr var fráhorfit, at Ormr Stórólfsson sat á Íslandi, ok er hann var kominn á þrítögs aldr, tók hann sèr far með þeim manni, er Özorr hörzki [1]) hèt, er skip átti uppistandandi í Þjórsá, ok fór utan með honum. Özorr átti garð á Hörðalandi, ok sat Ormr hjá honum um vetrinn. Þá var Ásbjörn prúði á Hörðalandi, ok bar opt saman fundi þeira Orms, ok fèll vel á með þeim, ok gerðist þar skjótt vinátta; reyndu þeir margar íþróttir, ok voru á allar jafnir, þær sem eigi reyndi afl með, en miklu var Ormr sterkari; svâ kom at þeir sórust í fóstbræðralag at fornum sið, at hvorr skyldi annars hefna, sá er lengr lifði, ef hinn yrði vopndauðr; en um vorit talaði Ásbjörn við Orm, at hann vildi fara norðr á Mæri, at hitta Eyvind snák ok Bergþór bestil frændr

[1]) horzski, *F. og fleiri*, hamski, *A.* hanski, *K.* hoski, *E. G. I. L. M. en v. í. H.*

sína; er mèr ok forvitni á, segir hann, at vita, hvort þegar dettr líf or mèr, er ek kem þar, sem sagði Völvan arma. Ormr lèzt þeirrar farar búinn, en eigi þiki mèr þú þar mega umkeppa, því at gnógu mart vita þessháttar menn, sem hon er. Síðan fóru þeir á tveim skipum norðr á Mæri, ok tók Eyvindr ok Bergþór allvel við Ásbirni frænda sínum, því at þeir voru syskina synir. Þetta var á ofanverðum dögum Hákonar Hladajarls. Þar spurði Ásbjörn, at eyar tvær lágu norðr fyrir landi, ok hèt hvortveggi Sauðey[1]), ok rèði fyrir inni ytri eyunni jötun, sá er Brúsi hèti, hann var mikit tröll ok mannæta, ok ætluðu menn at hann mundi aldri af mennskum mönnum unninn verða, hversu margir væri, en móðir hans var þó verri viðreignar, en þat var kolsvört ketta, ok svâ mikil sem þau blótnaut at stærst verða; engi gæði höfðu menn af landi or hvorigri eyjunni fyrir þessum meinvættum; gerðist Ásbjörn fús at fara til eyjanna, en Ormr aflatti, ok kvað fátt verra enn við fjandr[2]) slíka at eiga, ok því varð ekki af ferðinni. Hèldu þeir um sumarit suðr í Danmörk, ok sátu hjá Virvli[3]) um vetrinn, en at vetri liðnum ok vori komnu hèldu þeir í hernat með 5 skip, ok fóru víða um eyjar ok útsker[4]), ok höfðu sigr ok gagn, hvar er þeir kvomu; urðu þá eigi aðrir menn frægri í víkíngu heldr enn þeir; en um sumarit er áleið

1) *eðr* Sandey, *F.* 2) fjanda, *K.* fjendur, *M.*
3) Vifli, *hinir.* 4) útnes, *E. G. H. I. L. M.* annes, *K.*

lögðu þeir til Gautlands ok herjuðu þar, þá rèð þar fyrir sá jarl, er Herröðr hèt, þar áttu þeir marga bardaga, ok fengu vald yfir landinu, ok sátu þar vetr hinn þriðja; þar voru drykkjur stórar um vetrinn ok gleði mikil. Þat var einn dag um vetrinn, er þeir Ásbjörn ok Ormr sátu ok drukku, þá kvað Ásbjörn vísu þessa:

Sagði mèr á seiði,
[ok saung [1]) um þat laungum,
at ek á [2]) feigum fæti
færig [3]) norðr á Mæri;
vætki [4]) vissi völva [5]),
vera mun ek enn með mönnum
glaðr [6]) í Gautaveldi;
grennir mjög spár [7]) hennar.

Um vorit fóru þeir Ormr og Ásbjörn, ok undu þar eigi lengi, ok fóru um sumarit norðr í Danmörk, ok svâ til Noregs, ok voru þar vetr hinn fjórða með Özörri hörzka [8]), en um vorit töluðust þeir við fóstbræðr, vildi Ásbjörn í hernat, en Ormr út til Íslands, ok því skildu þeir, ok þó með kærleikum ok vináttu, fór Ormr til Íslands með Özörri hörðska, urðu vel reiðfara, komu skipi sínu í [Leiruvog fyrir neðan [9]) heiði; þá frètti

[1]) saung, *F.* saung hûn, *H.* saung eg, *lagfært á spáziunni til,* saung hûn. [2]) *v. í H.* [3]) færi, *hinir.* [4]) vækki, *M*; nækki, *A. E. G. I. L.* [5]) mælti völvan vísa, *K.* [6]) gilldu, *H.* [7]) þ*annig, H.* grenna ei spár, *K.* grennar eigi spá, *E. G. L.* gramur eigi spár, *M.* gramer eigi spá, *F.* [8]) horzska, *F.* hauska, *K.* höska, *G.* hoiska, *L.* [9]) Leynuvog f. norðan, *M.*

Ormr þau tíðindi, at Stórólfr karl, faðir hans, hafði dáit í viðskiptum þeirra Dúfþaks, var hann fám mönnum harmdauði; fór Ormr þá heim á Stórólfshvol, ok setti þar bú saman, ok bjó þar lengi, eptir þat er hann hafði hefnt Stórólfs föður síns, eptir því sem segir í Íslendínga skrá.

*Dráp Ásbjarnar.*

7. Litlu síðarr enn þeir Ormr ok Ásbjörn höfðu skilit, fýstist Ásbjörn norðr í Sauðeyjar, fór hann [við 4 menn ok 20 [1]) á skipi, heldr norðr fyrir Mæri, ok leggr seint dags at Sauðey hinni ytri, gánga á land ok reisa tjald, eru þar um náttina, ok verða við ekki varir; um morgininn árla rís Ásbjörn upp, klæðir sik, ok tekr vopn sín, ok gengr uppá land, en biðr menn sína bíða sín, en er nokkut svâ var liðit frá því, er Ásbjörn hafði í brott gengit, verða þeir við þat varir, at ketta ógrlig var komin í tjaldsdyrnar, hon var kolsvört at lit ok heldr grimmlig, þvíat eldr þótti brenna or nösum hennar ok munni, eigi var hon ok vel eyg [2]); þeim brá mjök við þessa sýn, ok urðu óttafullir. Ketta hleypr þá innar at þeim, ok grípr hvern at öðrum, ok svâ er sagt at suma gleypti hon, en suma rifi hon til dauðs með klóm ok tönnum, 20 menn drap hon þar á lítilli stundu, en 5 komust út ok undan ok á skip, ok hèldu þegar undan landi; en Ásbjörn gengr þar til, er hann kemr at hellinum Brúsa, ok snarar þegar inn í, honum varð

[1]) með 23 menn, *E.* með 22 menn, *H.* [2]) eygð, *hinir.*

nokkut dimt fyrir augum, en skuggamikit var í hellinum, hann verðr eigi fyrr var við, enn hann er þrifinn álopt, ok færðr niðr svâ hart, at Ásbirni þótti furða í, verðr hann þess þá varr, at þar er kominn Brúsi jötun, ok sýndist heldr mikiligr. Brúsi mælti þá: þó lagðir þú mikit kapp á at sækja híngat; skaltu nú ok eyrindi hafa, þvíat þú skalt hèr lífit láta með svâ miklum harmkvælum, at þat skal aðra letja at sækja mik heim með ófriði; fletti hann þá Ásbjörn klæðum, þvíat svâ var þeirra mikill aflamunr, at jötuninn varð einn at ráða þeirra í milli; bálk mikinn sá Ásbjörn standa um þveran hellinn ok stórt gat á miðjum bálkinum; járnsúla stór stóð nokkut svâ fyrir framan bálkinn. Nú skal prófa þat, segir Brúsi, hvârt þú ert nokkut harðari enn aðrir menn. Lítit mun þat at reyna, segir Ásbjörn, en úgæfusamliga hefr mèr tekizt, at ek skyldi öngri vörn fyrir mik koma, ok er þat líkazt at feigð kalli at mèr, ok kvað vísu þessa:

Sinni má eingi
íþrótt treysta,
aldri er hann svâ sterkr
nè stórr í huga;
[svâ bregzt [1]) hverjum
á bana dægri
hjarta ok megin,
sem heill bilar.

Síðan opnaði Brúsi kvið á Ásbirni ok náði þarma

[1]) bregðast, *H.* svâ bregðast, *E. G. I. L. M.*

enda hans, ok knýtti um járnsúluna, ok leiddi Ásbjörn þar í hríng um, en Ásbjörn gekk einart ok röktust svâ á enda allir hans þarmar. Ásbjörn kvað þá vísur þessar jafnframi [1]):

Segist þat minni móður,
mun hon [2]) eigi [3]) syni kemba
svarðarláð [4]) á sumri
svanhvít í Danmörku:
hafði ek henni heitit,
at ek heim koma munda;
nú mun segg á síðu
sverðs egg dregin verða.

Annat var þá er [5]) inni
ölkátir vèr sátum,
ok [á fleyskipi fórum [6])
fjörð af Hörðalandi:
drukkum mjöð, ok mæltum
mart orð saman forðum;
nú er ek einn í aungvar
jötna þraungvar genginn [7]).

Annat var þá er inni
allstórir saman fórum,
stóð þar upp í stafni

[1]) jafnframmi, *A. G. I. M.* jafnframt, *K.* jafnt *H.* [2]) vantar í, *A. E. G. I. L. M.* [3]) á, *bætir inni*, *K.* [4]) svarðarland, *A. G. H. K.* svarðarlaus, *E. I.* svarðalaus, *L.* [5]) ek, *F alstaðar.* [6]) í fleyskipi fóru, *E. G. I. L. M.* í fleiri skip fórum, *H.* [7]) gengit *E. G. I. L. M.* nú hefi eg e. i. a. j. þ. geingit, *H.*

Stórúlfs 1) burr enn frækni;
þá er lángskipum lagði 2)
lundr at Eyra 3) sundi,
nú mun ek tældr í tryggðum
trölla byggðir 4) kanna.

Annat var þá er inni
Ormr at hildar stormi
gekk en 5) gráðgum blakki
[geitis sylg at veita 6);
[rekk at rómu dökkri 7)
raum 8) margan gaf 9) vargi
seggr, ok sárt nam höggva,
svinnr 10) at Ísu minni.

Annat var þá er inni
ek veitta ferð sveittri
högg með hvassri túngu 11)
herjans suðr í skerjum
elfar opt nam kolfi 12)
Ormr hagliga at 13) forma
mest þá er miðjúngs traustir 14)
mágar eptir lágu 15).

1) stórum, *G. I. L. M.* 2) lögðum, *H.* 3) lunds at eyra, *L. G. M*; lunds at eyrar, *A. E. I. H.* 4) ranni, *H.* 5) at, *b. v. M.* á, *A.* af, *H.* ok, *E. I. L.* eg, *G.* 6) Grettis ylg at rètta, *H.* 7) rekkar rönni dökkra, *H.* 8) runn, *E. G. L. M.* run, *A. I.* 9) *v. i. A. E. G. I. L. M.* gaf margan, *H.* 10) svinns, *A. E. G. I. L. M.* 11) tuggu, *A. E. G. I. L. M.* eggju, *H* 12) bölfi, *hinir.* 13) *v. i. hina.* 14) systir, *H.* 15) mángaði e. ángri, *R.*

Annat var þá er inni
allir saman vorum:
Gautr ok Geiri,
Glúmr ok Starri, [1])
Sámr ok Semíngr,
synir Oddvarar,
Haukr [2]) ok Haki [3])
Hrókr ok Tóki.

Annat var þá er inni
opt á sæ fórum [4]):
Hrani ok Högni,
Hjálmr ok Stefnir,
Grani ok Gunnar,
Grímr ok Sörkver,
Tumi ok Torfi [5]),
Teitr ok Geitir.

Annat var þá er inni
allítt vèr spörðumst [6])
at samtogi [7]) sverða
sjaldan ek latta,
at [brún pálmar [8]) brýndir [9])
biti hvasliga seggi,
þó var Ormr at ímō [10])
æ oddviti þeirra [11]).

---

[1]) Stari, *hinir.* [2]) Hárekr, *A.* [3]) Hama, *F.* [4]) vorum, *A. E. G. H. I. L.* [5]) Tjörfi, *A.* [6]) allir ad spurdumst, *H.* [7]) samtygi, *A. E. G. H. I. L.* [8]) bryn fálmar *A. E. G. I. L.* brunfálmar, *M.* [9]) beindir, *A.* [10]) ímu, *A. E. G. H. I. L.* [11]) Ok enn mælti Ásbjörn, *b. v. A.*

Mundi Ormr
ólrýnn vera,
ef hann á kvöl þessa
kynni at líta;
ok grimmliga
gjalda þussi
vorar viðfarar
víst, ef hann næði.

Síðan lèt Ásbjörn líf sitt með mikilli hreysti ok dreingskap.

*Ormr hittir Menglavðu í Sauðey.*

8. Þat er at segja at þeir þrír menn, er undan komust, sóttu knáliga róðr, ok lèttu eigi fyrr enn þeir komu at landi, sögðu þau tíðindi er gerzt höfðu í þeirra förum, kvoðust ætla Ásbjörn dauðan, en kunnu ekki frá at segja, hversu at hefði borizt um hans líflát; kvomu þeir sèr i skip með kaupmönnum, ok fluttust svâ suðr til Danmerkr; spurðust nú þessi tíðindi víða, ok þóttu mikil. Þá var orðit höfðíngja skipti í Noregi, Hakon jarl dauðr, en Ólafr Tryggvason í land kominn, ok bauð öllum rètta trú. Ormr Stórólfsson spurði út til Íslands um farar ok líflát Ásbjarnar, er mönnnm þótti sem vera mundi; þótti honum þat allmikill skaði, ok undi eigi lengr á Íslandi, ok tók sèr far í Reyðarfirði, ok fór þar utan; þeir kvomu norðarliga við Noreg, ok sat hann um vetrinn í Þrándheimi; þá hafði Ólafr ráðit 3 vetr Noregi. Um vorit bjóst Ormr

at fara til Sauðeya [1]), þeir voru því nærr margir á skipi, sem þeir Ásbjörn höfðu verit; þeir lögðu at minni Sauðey síð um kveldit, ok tjölduðu á landi, ok lágu þar um náttina. Þat segja menn, at Ormr væri primsigndr í Danmörku, en hafi kristnazt á Íslandi. En er Ormr var sofnaðr, sá hann, at kona gekk inní tjaldit mikil ok errilig [2]), velbúin ok væn at yfirlitum; hon gekk innar at, þar er Ormr lá, ok nam þar staðar. Ormr þóttist heilsa henni, ok spyrja hana at nafni, en hon kveðst Menglöð heita, dóttir Ófótans norðan or Ófótansfirði, en við erum syskin ok Brúsi at föður, en ek átti mennska móður, en móðir hans er sú en kolsvarta ketta, er þar er í hellinum hjá honum; en þó at við sèm skyld, þá eru við þó ekki lyndis lík; ræðr hann fyrir eyjunni ytri, ok er hon sýnu betri; veitir hann mèr þúngar búsifjar, svâ at ek hygg, at ek muna í brottu stökkva; veit ek ok hvert eyrindi þitt er, þú œtlar at hefna Ásbjarnar fóstbróður þíns, ok er þat vorkunn, þvíat þú átt eptir hraustan mann at mæla; mun þèr ok forvitni á at vita, hversu honum var í hel komit, en þar munu ekki margir kunna frá at segja, utan Brúsi ok ek. Hóf hon þá upp alla sögu, ok sagði frá lífláti Ásbjarnar, ok svâ kvað hon allar þær vísur, er hann hafði kveðit, en eigi þikjumst ek þar sjá fyrir mun um, hvort meira má tröllskapr Brúsa ok móður hans eðr hamíngja þín, en öngvan mann óttast

[1]) Söjðeya, *M.* [2]) *v. l. hina.*

hann utan þik einn, ok viðrbúnat hefir hann veittan, ef þú kynnir at koma; hann hefir fært þat bjarg í hellisdyrnar, at ekki má í hellinn komast, meðan þat stendr þar, en þó at þú sèr sterkr, þá hefir þú hvorki afl við Brúsa, nè bjarginu í brott at koma; nú eru hèr glófar at ek vil gefa þèr, ok fylgir sú náttúra, at þeim verðr aldri aflafátt, sem þá hefir á höndum; yrði þat svâ at þú ynnir Brúsa, þá vilda ek at þú gæfir Sauðey í vald mèr, en ek mun heldr vera þèr í sinni, þvíat mèr er þú vel í þokka, þóat við megim eigi njótast sakir trúar þinnar. Síðan hvarf konan en Ormr vaknaði, ok voru þar glófarnir, en hann mundi allar vísurnar; stóð Ormr þá upp ok vakti menn sína, ok hèlt út til eyjarinnar, gekk á land ok bað menn sína bíða á skipi til annars dags í þær mundir, en halda á burt, ef hann kæmi þá eigi.

*Dráp Brúsa.*

9. Nú gengr Ormr þar til er hann kemr at hellinum, sèr hann nú bjargit þat stóra, ok leizt úmátuligt nokkurum manni þat í brott at færa; þó dregr hann á sik glófana Menglaðarnauta, tekr síðan á bjarginu ok færir þat burt or dyrunum, ok þikist Ormr þá aflraun mesta sýnt hafa; hann gekk þá inní hellinn, ok lagði málajárn í dyrnar, en er hann var inn kominn, sá hann hvar kettan hljóp með gapanda ginit; Ormr hafði boga ok örvamæli, lagði hann þá ör [1] á streing,

[1] örvar, *E. G. I. L. M.*

ok skaut at kettunni þremr örum, en hon [hendi allar með hvoptunum [1]), ok beit í sundr, hefir hon sik þá at Ormi, ok rekr klærnar framan í fángit, svâ at Ormr kiknar við, en klærnar gengu í gegnum klæðin svâ at í beini stóð; hon ætlar þá at bíta í andlit Ormi, finnr hann þá at honum mun eigi veita, heitir þá á sjálfan guð ok hinn heilaga Petrum postula, at gánga til Róms, ef hann ynni kettuna ok Brúsa, son hennar, síðan fann Ormr at mínkaðist afl kettunnar, tekr hann þá annarri hendi um kverkr [2]) henni, en annarri um hrygg, ok gengr hana á bak, ok brýtr í sundr í henni hrygginn, ok gengr svâ af henni dauðri. Ormr sá þá, hvar bálkr stórr var um þveran hellinn; hann gengr þá innar at, en er hann kemr þar, sèr hann at fleinn mikill kemr utar í gegnum bálkinn, hann var bæði digr ok lángr; Ormr grípr þá í móti fleininum, ok leggr af út; Brúsi kippir þá at sèr fleininum ok var hann fastr svâ at hvergi gekk; þat undraðist Brúsi, ok gægðist upp yfir bálkinn, en er Ormr sèr þat, þrífr hann í skeggit á Brúsa báðum höndum, en Brúsi bregzt við í öðrum stað, sviptast þeir þá fast um bálkinn. Ormr hafði vafit skegginu um hönd sèr, ok rykkir til svâ fast, at hann rífr af Brúsa allan skeggstaðinn, hökuna, kjaptana báða, vángafyllurnar upp alt at eyrum, gekk hèr með holdit niðr at beini. Brúsi lèt þá síga brýnnar, ok

[1]) gleypti a. m. kjöptum, *E. G. H. I. L. M.* [2]) kverkar, *E. G H. L M*; kverk, *I.*

grettist heldr greppiliga. Ormr stökkr þá innar yfir bálkinn, grípast þeir þá til ok glíma lengi, mæddi Brúsa þá fast blóðrás, tekr hann þá heldr at gángast fyrir, gefr Ormr þá á, ok rekr Brúsa at bálkinum ok brýtr hann þar um á bak aptr Snemma sagði mèr þat hugr, sagði Brúsi, at ek munda af þèr nokkut erfvitt fá, þegar ek heyrða þín getit, enda er þat nú fram komit, muntu nú vinna skjótt um, ok höggva höfut af mèr, en þat var satt, at mjök pínda ek Ásbjörn prúða, þá er ek rakta or honum alla þarmana, ok gaf hann sik ekki við fyrrenn hann dó. Illa gerðir þú þat, segir Ormr, at pína hann svâ mjök jafnröskvan mann, skaltu ok hafa þess nokkurar menjar. Hann brá þá saxi ok reist blóðörn á baki honum, ok skar öll rifin frá hryggnum, ok dró þar út lúngun; lèt Brúsi svâ líf sitt með litlum dreingskap; síðan bar Ormr eld at, ok brendi upp til ösku bæði Brúsa ok kettuna, ok er hann hafði þetta starfat, fór hann burt or hellinum með kistur tvær fullar af gulli ok silfri, en þat sem meira var fèmætt, gaf hann í vald Menglaðar, ok svâ eyna; skildu þau með mikilli vináttu, kom Ormr til manna sinna í nefndan tíma, hèldu síðan til meginlands. Sat Ormr í Þrándheimi vetr annann.

*Frá Ormi ok Eiríki.*

10. At sumri bjóst Ormr til Rómferðar ok tókst sú ferð vel, kom sunnan til Danmerkr

um haustit eptir Svöldrar orrustu, ok spurði þar þau tíðindi, er þar höfðu orðit; fór hann þá til Noregs á fund Eiríks jarls, ok hitti hann á Hlöðum, gekk fyrir jarl ok kvaddi hann. Jarl tók honum vel, ok spurði hann at nafni. Hann lèzt Ormr heita. Jarl mælti: ertu Ormr sterki? Kalla megi þèr svâ, herra! ef þèr vilit, en þat er eyrindi mitt, at ek vildi vera gestr yðvarr í vetr. Jarl kvað honum þat til reiðu, ok skipaði honum á hinn æðra [1]) bekk utarliga. Ormr var fáskiptinn um vetrinn ok óhlutdeilinn. Þat var einn tíma at talat var til Svöldrar orrostu, ok hversu kappar Ólafs konúngs höfðu drengiliga vörn sýnt, ok hversu seint at Ormrinn hafði unninn vorðit, eðr hversu harða atsókn Eiríkr jarl hafði veitt, at hann fèkk unnit þat skip, er engi ætlaði at á þýðum sjó mundi unnit verða. Ormr svarar: seinna mundi Ormrinu lángi unninn hafa vorðit, ef ek hefði þar verit með öðrum köppum konúngs. Nú var sagt jarli, at Ormr hefði mikit umtalat, at Ormrinn lángi mundi eigi unninn orðit hafa, ef hann hefði þar verit. Jarl lætr þá kalla Orm fyrir sik, ok spyr, hvort hann hefði þat talat, at Ormrinn mundi eigi unninn hafa vorðit, ef hann hefði þar verit. Eigi er þat, herra! segir Ormr, hitt sagða ek, at seinna mundi unninn hafa vorðit Ormrinn, ef ek hefða þar verit. Jarl svarar: lítinn mun mundi þat segja um einn mann, svâ mörgum ok

1) Œæðre, *hinir.*

miklum köppum sem þar var samanskipat, en þó skal gera tilraun nokkura: þú skalt vera einn á skipi, ok skulu sækja at þèr 15 skeiðr [1]) ok er þat þó lítit af þeim skipa fjölda, er var við Svöldr. Þèr munut ráða, herra! sagði Ormr, en ekki mun ek fyrr uppgefast, enn ek er yfirkominn. Ormr gekk þá út, ok tók einn berlíngs [2]) ás digran, 13 álna lángan; síðan fór hann á skip, ok lèt frá landi; síðan voru menn tilfengnir á 15 skeiðum, ok sóttu at Ormi, en svâ er sagt at á lítilli stundu hafði Ormr slegit í kaf 7 skeiðr, lamit ok brotit; þá kallaði jarl ok bað þá hætta þessum leik; var ok svâ gert; varð þá borgit flestum öllum mönnum. Síðan bað jarl 60 manna sækja at Ormi úti á víðum velli, ok svâ var gert. Ormr hafði ekki vopna nema ásinn, ok veifði [3]) honum um sik sem hreyti speldi, svâ at engi þorði nærri at koma, þvíat þeir sá vísan bana, hverr sem fyrir yrði. Bað jarl þá hætta þessum leik, ok svâ var gert. Jarl mælti: eigi ætla ek at þat væri oftalat, Ormr! þótt seinna ynnist Ormrinn lángi, ef þú hefðir á verit, þvíat hann mundi aldri unninn hafa orðit, ef þú hefðir þar til varnar verit. Síðan gerðist Ormr hirðmaðr Eiríks jarls, ok var með honum í miklum kærleikum sakir atgervi sinnar.

*Ormr kom til Einars á Gimsar.*

11. Þat var einn tíma at Ormr fór á kynni,

[1]) *þannig F. A. H.* skidir, *E. G. I. L M.* [2]) berlýngs *G. I.* [3]) veifaði, *A. E. H. I. L. M.*

þar sem hann hafði fyrr verit í Þrándheimi, hann kom um leið á Gimsar, ok var Einar heima, þat var í þann tíma, sem Einar var at kyrkju, bogi hans var úti fyrir kyrkjudyrum. Ormr gekk at ok tók upp, ok lagði ör á streing, ok dró fyrir odd, ok lèt svâ örina standa í boganum, ok lagði síðan niðr aptr ok gekk í brottu. En er Einar kom út, sá hann hversu bogi hans var til háttáðr, ok undraðist mjök, ok spurði eptir, hver með boga hans mundi farit hafa, en þess varð hann lengi ekki víss, fyrr enn Ormr sjálfr sagði honum. Einar kveðst þat ok vita, at þat mundi ekki skræfa verit hafa, er boga hans hafði fyrir odd dregit. Eiríkr jarl fór at veizlum austr um Víkina, þá var Ormr með jarli, en er þeir kvomu þar, sem Ormrinn lángi hafði verit upphögginn, lá þar siglutrèit. Jarl bað menn prófa, hversu margir þyrfti undir at gánga, áðr enn axlat yrði; skipaði hann Ormi undir mitt trèit; [60 manna tóku trèit [1]), síðan bað jarl sinn mann tínast undan hvorum enda, ok svâ var gert, þar til at Ormr stóð einn undir trènu, þá gekk hann með þat 3 fet, ok lagði niðr síðan. Segja menn at Ormr muni valla samr orðit hafa síðan ok áðr. Var hann með jarli nokkura vetr, fór síðan út til Íslands, ok settist í bú at Stórólíshvoli, ok þótti æ hinn mesti maðr, ok varð ellidauðr, ok hèlt vel trú sína.

[1]) *v. í. hinum.*

# Registr

yfir

## öll manna nöfn, sem finnast í Sögu Ólafs konúngs Tryggvasonar.

Málsteiknið (,) sýnir, að undanfarandi tala merkir sögudeildina, en eptirfylgjandi tala merkir blaðsíðuna í þeirri deild; þar sem sama nafn kemr fyrir í fleiri deildum, greinir tvípúnktr (:) ámilli þeirra.

Teikn þetta (*), er stendr framan við einstöku nöfn, merkir, at þeir menn eru annaðhvert jötnar eðr draugar, eðr þvílíkir, um hvörja menn ekki geta með vissu sagt, hvört þeir hafi nokkurn tíma verið til.

# NAFNA-LISTI

ÞEIRRA MANNA, ER HAFA TEIKNAT SIK FYRIR

## FORNMANNA SÖGUM.

St. D., C. D., R. D. merkir Stórkross, Commandeur edr Riddari af Danabrógsordunni, D. M. Danabrógsmadr; R. N. R. S. Riddari af Nordrstjörnuordunni edr Sverdsordunni; L. N. F. F. Limr hins Norræna Fornfræda Fèlags.

## Í DANMÖRK.

*Hans Hátign Konúngrinn* . . . . 8 st.
*Hennar Hátign Drottníngin* . . . . 4 –
*Hans konúngl. Háheit Prinds Fridrik Carl Christján* . . . . . . . 1 –
*Hans konúngl. Háheit Prinds Fridrik Ferdínand* . . . . . . . . 2 –
*Hans Dúrchl. Prinds Wilhelm af Hessen-Philipsthal* . . . . . . 1 –
*Hans Dúrchl. Prinds Fridrik, Landgreifi af Hessen* . . . . . . . . . 1 –

### Í Kaupmannahöfn.

Hra. *Abrahamson, J. N. B. v.*, Majór og Divisiónsadjútant, R. D., D. M., R. S., L. N. F. F.
- *Arnesen, P.*, Rector, L. N. F. F.
- *Arnim, v.*, Kammerherra.
- *Aschlúnd, A.*, Landmælari.
- *Bachmann, H.*, Stud. Juris.
- *Banner, N. O. v.*, Kammerjúnkr, Capitain.
- *Bentzien, W.*, Inspector.
- *Bergsson*, Stud. Chir.
- *Bilsted, H.*, Etatsrád.
- *Bornemann, A. W. F. v.*, Jústitiarius í hærsta rètti, St. D., D. M.
- *Bornemann, M. H.*, J. U. Dr. og Prof.

Hra. *Bredsdorff, J. H.,* Phil. Dr, Lector.
- *Brórson, C.,* Prof., Prestr, R. D., L. N. F. F.
- *Brúmmer, F.,* Bókahandlari.
- *Bülow, F. C. v.,* Generalmajór og Generaladjútant, St. D., D. M., L. N. F. F.
- *Devegge, O.,* Undirbókavördr.
- *Engelstoft, L.,* Etatsrád, Prof. Hist., R. D., L. N. F. F.
- *Erichsen,* V. Cand. Juris, L. N. F. F.
- *Fabricius, F.,* Stúdent.
- *Grúndtvig, N. F. S.,* Prestr.
- *Haffner, J. W. v.,* Géneralmajór, St. D., D. M. L. N. F. F.
- *Helgason, Þ.,* Cand. Phil., L N. F. F.
- *Hermansen, W.,* Stud. Chir.
- *Hjort, H.,* Stúdent.
- *Höegh-Gúldberg, O. E.,* Hærstarèttar Advocat, L. N. F. F.
- *Jacobsen, H, C.,* Justitsrád, Landsyfirrèttar Assessor, L. N. F. F.
- *Jacobsen, V.,* Cand. Juris.
- *Kofod, H. A.,* Yfirkennari, L. N. F. F.
- *Kolderúp-Rosenvinge, J. L. A.,* J. U. Dr. og Prof., L. N. F. F.
- *Krieger, M.,* Stúdent.
- *Langeland, R.,* Jústitsrád, R. D., L. N. F. F.
- *Langeland, O. F.,* Cand. Phil., L. N. F. F.
- *Langeland, L. N.,* Stúd. Juris.
- *Larsen, J. E.,* Pólitísecrètèri.
- *Lassen,* Stúd. Theol.
- *Læssöe, N. F.,* Hafnarcontrolleur.
- *Lövenstern, v.,* Baron, Öfursti.
- *Madvig, J. N.,* A. Mag.
- *Magnúsen, F.,* Prof., L. N. F. F.
- *Meza, C. J. de,* Artillerícapitain.
- *Moldenhawer, C. E.,* Inspector, L. N. F. F.
- *Müller, L. C.,* Cand. Theol.
- *Münter, F.,* Biskup, St. D., D. M.
- *Mörk, F. L.,* Sjólieutenant.
- *Nielsen,* Cand. Theol.
- *Nyeland, S. P.,* Kgl. Fullmcktugr.
- *Nörregaard,* Cand. Juris.
- *Nörregaard,* Copíist í Admíralit.
- *Oddsen, G.,* Consistórial-Assessor, Dómkirkjuprestr, L. N. F. F.

Hra. *Oldenborg*, *Th.*, Cand. Theol.
- *Petersen*, *N.*, L. N. F. F.
- *Prætorius*, *J.*, Stúd. Juris.
- *Raben*, *F. C. v.*, Greifi.
- *Rúdelbach*, Phil. Dr.
- *Schúbothe*, Hofbókahandlari.
- *Sibbern*, *F. C.*, Phil. Dr. og Prof., L. N. F. F.
- *Sivertsen*, *B.*, Kaupmadr, R. D., L. N. F. F.
- *Skúlason*, *S.*, Stud. Juris.
- *Sporon*, *P. E.*, Hæstarèttar Advocat.
- *Timm*, *F. U.*, Cand. Juris.
- *Thorlacius*, *B.*, Etatsrád, Professor, R. D., L. N. F. F. (6 stykki)
- *Thorlacius*, *Sk.*, Stud. Juris.
- *Thorúp*, *N.*, Stúdent.
- *Tresschow*, *F. V.*, Júststsrád, L. N. F. F.
- *Velschow*, *J. M.*, Cand. Theol., L. N.F. F.
- *Werláuff*, *E. C.*, Júststsrád, Prof. Ant., L. N. F. F.
- *Þorbergsson*, *P.*, Stud. Chir.
- *Örsted*, *H. C.*, Phil. Dr., Prof., R. D., D. M. L. N. F. F,

Hid Konúngl. Rentukammer.
Classens bókasafn.
Metropolítanskólans bókasafn.
Landkadettalidsins bókasafn.
Stúdentafèlagsins bókasafn.

## Í Sjálands Stipti.

(fyrir utan Kaupmannahöfn).

Hra. *Arbo*, *N. P.*, Yfirauditeur, Býfógeti í Nexey.
- *Basthólm*, *H.*, Prestr í Slagelse, R. D., L. N. F. F.
- *Christensen*, Stúdent, í Sórey.
- *Molbech*, *C. F.*, Lector, í Sórey.
- *Mönster*, *P. H.*, Dr. Theol., Amtsprófastr, R. D., D. M., í Hríngstad.
- *Rördam*, *V. B.*, Prestr, í Kalundborg.
- *Steenberg*, *F. L.*, Prestr til St. Ols á Borgundarhólmi.
- *Wegener*, *C. F.*, Adjúnct, í Sórey.
- *Ulrich*, G. C., Kammerrád og Forstinspecteur, í Sórey.

Sjálands Stiptsbókasafn í Hróarskeldu.
Sóreyjar Akademíu bókasafn.
Herlúfshólms skóla bókasafn.

## Í Fjóns Stipti.

Hs. Exc. Hra. *J. v. Bülow*, til Sanderumgards, Geheime-Conferentsrád, Riddari af Fílsorduni, St. D., D. M., C. N., L. N. F. F.
Hra. *Höegh-Guldberg, C. v.*, Ofursti, R. D., D. M., L. N. F. F., í Odinsey.
- *Mülertz, A. F.*, Phil. Dr., Yfirkennari, L. N. F. F., í Nýborg.
- *Krejdal, A.*, Adjúnct, L. N. F. F., í Odinsey.
- *Rohmann, J. L.*, Cand. Theol., í Sundborg.

Fjóns strídsmanna bókasafn.

## Í Álaborgar Stipti.

Hra. *Moltke*, *L.*, Stiptamtmadr, Kammerherra, R. D., L. N. F. F.
- *Tauber*, *E.*, Professor, Rector.

## Í Vebjarga Stipti.

Hra. *Blicher*, *S. S.*, Prestr til Spentrups.

## Í Áróss Stipti.

Hra. *Faber*, *F.*, Auditeur, í Hrossnesi.
- *Júel-Wind-Frys*, *Ch.*, Lènsgreifi til Frýsenborgar.
- *Lilienskiold*, Kammerjúnkr, í Hrossnesi.
- *Lyngbye*, *H. C.*, Prestr til Gesings, L. N. F. F.
- *Storm*, *B.*, Adjúnct, í Hrossnesi.

Randarós skóla bókasafn.

## Í Rípa Stipti.

Hra. *Borgen*, *P. N.*, Adjúnct, í Kolding.
- *Finsen*, *J.*, Cancellísecretèri, Hèradsfógeti, í Kolding.
- *Gade*, *P. N.*, Prestr til Skanderups.
- *Hansen*, *H. J.*, Yfirkennari, í Rípum.

## Í Slesvík.

Hra. *Schleep*, Kammerrád, á Gautaþorpi.
- *Petersen*, *M.*, Cand. Theol., á Freienwillen.

## Í Holsetuland.

Hans Dúrchl. Hra. *Ludwig*, Prinds af Sayn-Witgenstein-Berleburg, Majór, í Rendsborg.
- *Paulsen*, *C.*, J. U. Dr. og Prof., L. N. F. F.

Hs. Exc. Hra. *Th. G. v. Schlanbúsch*, Geheime-Conferentsrád, St. D., D. M.

## Á ÍSLANDI.

### 1. Í Rángárvalla og Vestmannaeyja sýslum.

Hra. *Arni Arnason*, Bóndi, á Dúfþekju.
- *Arni Gíslason*, Bóndi, á Brekkum.
- *Arni Jónsson*, Bóndi, á Fiblholti.
- *Arni Sveinsson*, Bólusetjari, á Ytsta-Skála.
- *Audun Asmundsson*, Trèsmidr, á Stóruvöllum.
- *BjarniGunnarsson*, Forlíkunnarmadr, á Sandhólaferju.
- *Bjarni Jónsson*, Yngismadr, á Sydri Brennu.
- *Bjarni Magnússon*, Bóndi, á Rotum.
- *Björn Jónsson*, Medhjálpari, á Krossi.
- *Björn þorvaldsson*, Fyrirvinna, á Klofa.
- *Bonnesen, J. J.*, Strídscancelliesecretèri, á Velli.
- *Brandr Gudmundsson*, Bóndi, á Galtarholti.
- *Brynjólfr Gudmundsson*, Prestr, á Kálfholti
- *Brynjólfr Sivertsen*, Prestr, á Holti, L. N. F. F.
- *Brynjólfr Stephánsson*, Bóndi, á Kyrkjubæ vestri.
- *Eggert Bjarnason*, Prestr, á Stóruvöllum.
- *Eggert Eggertsson*, Bóndi, á Haga.
- *Einar Arnason*, Bóndi, á Hildisey.
- *Einar Gudmundsson*, Bóndi, á Stúfholti.
- *Einar Sighvatsson*, Hreppstjóri, á Ytsta-Skála.
- *Einar þorbjörnsson*, Bóndi, á Alfhólum.
- *Einar þorleifsson*, Prestr, á Saurbæ.
- *Eiríkr Sveinsson*, Hreppstjóri, á Asi.
- *Eyólfr Sigurdsson*, Bóndi, á Moldartúngu.
- *Finnbogi þorgilsson*, Bóndi, á Reinifelli.
- *Gísli Gíslason*, Bóndi, á Steinstoft.
- *Gísli Sigurdsson*, Bóndi, á Stóra Moshvoli.
- *Gudbrandr Rúnólfsson*, Bóndi, á Fossi.
- *Gudmundr Brynjólfsson*, Bóndi, á Arbæ.
- *Gudmundr Oddsson*, Bóndi, á Steinkrossi.
- *Hannes Bjarnason*, Vinnumadr, á Sandhólaferju
- *Hjörleifr Vigfússon*, Vinnumadr, á Önundarstödum.
- *Jón Eiríksson*, Bóndi, á Hrútafelli.
- *Jón Haldórsson*, Prestr, á Barkastödum.
- *Jón Hansson*, Vinnumadr, á Stokkalæk.
- *Jón Jónsson*, Vinnumadr, á Önundarstödum.
- *Jón Jónsson*, Medhjálpari, á Midey.
- *Jón Jónsson*, Bóndi, á Vestrhólum.
- *Jón Magnússon*, Bóndi, á Kvíarhól.
- *Jón Pètursson*, Bóndi, á Mikjunesi.

Hra. *Jón Runólfsson*, Forlíkunarmadr, á Arbæ.
- *Jón Torfason*, Stúdent, á Breidabólstad.
- *Jón þórdarson*, Bóndi, á Heidi.
- *Jón þorkelsson*, Vinnumadr, á Móeídarhvols hjáleigu.
- *Loptr Loptsson*, Hreppstjóri, á Kaldbak.
- *Magnús Einarsson*, Hreppstjóri, á Efri Grund.
- *Magnús Jónsson*, Vinnumadr.
- *Magnús Olafsson*, Bóndi, á Haga.
- *Magnús Sigurdsson*, Bóndi, á Efsta-Koti.
- *Magnús Vigfússon*, Vinnumadr.
- *Olafr Jónsson*, Fyrirvinna, á Fagurhól.
- *Olafr Olafsson*, Bóndi, á Vallatúni.
- *Olafr Pálsson*, Prestr, á Eyvindarhólum.
- *Páll Magnússon*, Stúdent, á Skapbeinsstödum.
- *Páll þórhallason*, Medhjálpari, á Flókastödum.
- *Runólfr Nicolásson*, Bóndi, á Vestri Gardsauka.
- *Sighvatr Magnússon*, Yngismadr, á Sydrihól.
- *Sigurdr Brynjúlfsson*, Skólapiltr, á Holti.
- *Sigurdr Jónsson*, Stúdent, á Varmahlíd.
- *Sigurdr Jónsson*, Medhjálpari, á Sydrihömrum.
- *Sigurdr Pètursson*, Vinnupiltr, á Raudafelli.
- *Sigurdr Sigurdsson*, Prestr, á Guttormshaga.
- *Sigurdr Thorarensen*, Prestr, á Stórólfshvoli.
- *Skúli Thorarensen*, Stúdent, á Hlídarenda.
- *Stephán Sveinsson*, Hreppstjóri, í Varmadal.
- *Stephán þorsteinsson*, Prestr, á Stóru Hildisey, L. N. F. F.
- *Tómas Sæmundsson*, Stúdent, á Eyvindarholti.
- *Torfi Jónsson*, Prófastr, á Breidabólstad.
- *Vigfús Jónsson*, Bóndi, á Arqvörn.
- *þórarinn Eyólfsson*, Bóndi, á Seli.
- *þorbjörn Erlendsson*, Bóndi, á þverlæk.
- *þorgils Jónsson*, Yngispiltr, á Raudnefsstödum.
- *þorgrímr þorgrímsson*, Prestr, á Stokkalæk.
- *þorkell Jónsson*, stefnuvottr.
- *þorlákr þórdarson*, Yngismadr, í Hvammi.
- *þorleifr Arnason*, Bóndi, á Hólmum.
- *þorsteinn Hreinsson*, Hreppstjóri, á Önundarstödum.
- *þorsteinn þorsteinsson*, Akuryrkjumadr, á Vatnsdal.
- *þorsteinn þorsteinsson*, Bóndi, á Oddakoti.

## 2. Í Árnes-sýslu.

Hra. *Ari Jónsson*, á Eyrarbacka.
- *Arni Isleifsson*, Bóndi, á Hellirshólum.

